Um

Pijnu og Dauda

DRottens vors JEsu Christi/

# Lintal

# SALARENNAR

Vid Sialfa Sig,

Hvørsu ad hver Christen̄ Madur ꜵ Dag-lega i Bæn og Andvørpun til Guds, hana ad hugleida og yfervéga, og þar af taka ꜵgiætar Kieñingar og heilnæmar Hugganer til þess ad lifa Gudlega, og deya Saaluhialplega.

Samañteked wr Gudlegre Ritningu og Skrifum þeirra Gømlu Lærefedra, Eñ wr Pijsku wtlagt, Af

# S. Arngrijme JONSSYNE/

Preste og Profaste ad Mel-Stad, og Officiali Hoola-Stiftis.

Editio 4.

Selst Alment Jñbunden̄ 20. Fiskum.

Prickt a Hoolum i Hiallta-Dal, Af Halldore Erikssyne, Anno 1746.

1. Pet. 2. v. 24.
Christur hefur bored vorar Synder a sijnum Lijkama uppaa Tried, so ad vier i




fraa Syndunum deidder, lifdum Riettlætenu, fyrer hvørs Beniar þier erud Heilbrygder vordner.



Gudhræddum og Erlegum
Kvenn-Manns Persoonum,
Þeim Systrum Bædum,

# Halldoru
# og
# Christinu

Gudbrands Dætrum /
Mijnum Astkiærum Systrum i DRottne,
Oska eg Nadar og Fridar af Gude fyrer
JEsum Christum, med allskonar
Luckuog Velferd, Lijfs
og Saalar.

Var sa Guds Madur hiñ Heilage David (mijnar kiæruSystur i Drottne) vill wtmaala þa Gyrnd og Feigenleika, sem Christens Mañs Saal a ad hafa, til Guds Orda, og so þa Næring sem heñe þar i moote veitest af Gude i hañs huggunarsama Orde, þa lijker hañ Gude og hañs Orde vid eirn Lifande Vatns-Bruñ, eñ Saaluñe vid eitt Villudyr; Hynd edur Hiort, sem ad akaflega þyrster i sagda Bruña, og seiger David so.

Eins sem Hiorteñ laangar epter Vatns-Bruñenum, so laangar mijna Saal til þijn DRottiñ; Mijn Saal er þyrst til DRottins; Jaa, til DRottins þess lifanda Vatns-Bruñs, Psalm. 42.

Hvørium Davids Ordum til wtleggingar, þeir hinu Lærdu taka þad sem skrifad finst uñ Hiartar eda Hindarenar Naatturu. Ad þetta Dijr fijsest mest i Høggorma Kiøt ed (Plin. Lib. 8. Cap. 32 og Lib. 28. Cap. 9. Hvørt Kiøt ad er kalldrar Naatturu) sijnum iñfæddum naatturlegum Osþita þar a ad svala. Eñ þo Dijrenu þike Orma Kiøted kallt og vænt Atu, þa er þad þeirrar Tegundar, ad sa iñre steikiande Hite æsest þess meir, og uppkveiker obærelegañ Þurk og Þorsta, og Dijred sæker þvi so aakaflega i Vatns-Læke og Bruña.

Þetta kalla þeir lijkt med Mañsins syndugre Naatturu: Ad hun fijsest og sæker epter Syndunum (er riettelega meiga Eytur Ormar heita) sijnum iñfæddum Gyrndarbruna þar med ad svala. Eñ þo ad Madureñ hafe Lyst þar af a medañ hañ dryger Syndena, þa vaknar þo Saaleñ og sa iñre Madureñ sijdañ vid Saalareñar Eitur, med obærelegum Þurk og Þorsta til Guds Naadar-Bruñs, ad hañ saae ad svala sier a hønum; Hvad eg tala uñ Christna Meñ sem laata Guds Anda vid sig raada, þa vill hañ þeirra vitiad hafa, eñ ecke uñ forherta.

Uñ þeñañ Naadar Bruñ talar Gud, Esa. 55. Komed hijngad til Vatnsins aller sem þyrster erud. Zach. 13. Kallar hañ opeñ Bruñ, sem fyrer øngvum sie byrgdur, er til hañs þyrster. Jeremias i 2. Kallar hañ Bruñ þess lif-

anda

anda Vatns; So kallast hañ eirneñ, Apoc. 21. og 22. Þesse same Naadar-Bruñureñ seigest JEsus sialfur vera, Johañes 4. Cap. Hvørs Fyrermyndan ad var sa Hellu-Steirn, af hvørium Gud liet Vatns-Lyndena daasamlega wtsprettta, sijnu Foolke til Lijffganar og Næringar, Exod. 17. Num. 20. Cap. So sem St. Paall þad sialfur wtþijder, 1. Cor. 10. Þvi so sem Moyses vard ad sla a Helluna epter Guds Skipan, aadur Vatned wt ryñe, Exod. 17. Num. 20. So vard Christur fyrer vorar Synder særdur, sleigeñ, bareñ, og sundur mareñ, Esaj. 53. Cap. So ad af hønum wtflyte sa Lijffins og Naadar-Bruñureñ, sem oss eilijflega endurnærer.

Nu þo ad øll Lijffsagañ HErrans JEsu Christi (auk añarar Heilagrar Ritningar) leide oss og vijse ad þessum Naadar Bruñenum; Þa er þo sa Lijffsøgu Parture ñ sem hlioodar uñ hañs Blessudu Pijnu og Dauda, sa eirna hellste og Hiartnæmaste þar til, sem bæde lætur oss kieña þeñañ Saalar Þorstañ, og so under eins a vorar Syndum þiaadar Saaler og Samvitskur dreiser og stecktur þvi Lijfs og Naadar Vatnenu, uñ hvørt hijngad til talad er; So sem þeir munu sialfer framar saña . . er þeñañ Bækling elska og a Hiartad leggia, hvørium eg þarf ei med mørgum Ordum ad hæla edur fraûhallda, þvi hañ lofar sig sialfur, sem sa fær giørst ad vita er reyner. Hañ hefur a Þyska Twngu samsettañ af Heilagre Ritningu, sem sia maa; Sa aagiæte Pivon i Vijngarde DRottins er Martinus Mollerus nefnest, og hañ kallar Soliloqvia Animæ, Saalareñar Eintal vid Gud og sialfañ sig. Kieñande þar med, ad Christens Mañs Saala a alldrei jdiulaus ad vera, helldur sem optast vid Gud og sitt eiged Hiarta ad tala, a þeñañ Hatt, sem hier kieñer, so Diøfulleñ hafe þar ecke Rwm med sijnum syndsømum Hugmum.

Eg hefe fyrer nockrum Aarum þessare Book snwed a vort Moodur-Maal, af þvi eg þottest uñ þetta Efne øngvañ Bækling Hiartnæmare funded hafa; Þad og añars ad þesse Historiu Parture ñ, er alment uñ Hønd hafdur, helldur

 ur

ur eñ hiñ Hlute af Lijffsoguñe HErrans Christi, sem ad me ira Parte er i þeim Suñudaga og añara Hœtijda Gudspiöllum samañ tekeñ. Þañ Þyska Formœla hefe eg ecke wtlagt, vegna þess, þad sama kiemur seirna frañ i Bookeñe, sem i hañ er spuñed. Eg hefe og vijda i þessum Bœklinge vered Liber interpres. Pad er, ecke bundeñ vid Bookstafe og Atkvœde; Helldur rwmlega wtlagt, og sumstadar (þo ovijda) nockud lijted undañ teked so sem mier hefur þott epter vorre Mœalysku, hellst til Skilnings þorfa.

Eñ yckur mijnar frowmu Systur i DRottne, hefe eg i ændverdu þetta mitt litla Omak a þeim Bœklinge skeinkt og giefed, og ydur þesse Islendsku Soliloqvia œnafnad, fyrer þañ Skulld, ad þa þesse Book kom mier fyrst fra Hondum, reyndust mier aungver sem hana munde so vel jdka, sem þid bœdar. Hins og añars, ad þid vœrud med þessare lijtellre Miñingu œminñtar og umbednar, þañ æskelega uppbyriada Guds Barna Hœtt, framveigis ad elska og rœkia; Eg meina i þeim Skoola DRottins ad elldast og aukast, sem þid erud af yckar Gudhrœddu og Ærurijkum Forelldrum tilsettar, uppfœddar og frœddar, og þar vid ad lifa og deya.

Og þo þid þurfed ecke Umbeidne edur Aminñinga vid, sem a þetta og allt gott erud fwsastar, Lof DRottne! Pa sie þo þesse mijn Miñing til þess, ad lœta þa Gœfu DRottens, yckur veitta, hier med œsañast i þañ Mœta ad voru leite, sem hiñ sœle Hieronymus liet nockrum Kveñsviptum, reyndum ad Ment og Gudrœkne, sijn Skripta, Skrif og Bœkur dediceradar vera, af hvorium þessar eru tilnefndar, Fabiola, Marcella, Evstochium, Roomverskar Kvinñur allar. Og þo eg sporneſt vid ad taka yckur til jafns vid Fabiolam, Marcellam, Evstochium; Pœr mentafullu Kvinñur, bœde i Ritningum og Twngumœlum; Pa tek eg mig þo eñ sijdur samañ vid Hieronymum. Ofs er sumt leyfelegt af þeirra Endlegum Dœmum ad vita, og þad lijted eda miked af þeirra Footsporum epter ad hafa, sem Gud vill sijna Nœad til giefa; Hafande hier ad auk, nyog oñur forn og ny erlegra Gudhrœddra Mañ Dœme.

Og med þvi yckar Hr. Fader ſem nu helldur a ſijne Booka Idiu (hvad Gud giefe leingſt) þeſſu voru Lande til Eilijfs Saalar Gagns, vill nu med ødrum þeñañ Bækling prenta laata, epter nockra Mañа Boon og Beidſlu, ſem þeſſe Soliloqvia ſier kiær hafa, þa ſie eg þad giarnañ, ad ſem fleſter mætte þeſſa Lijtelmootlega Omaks ſem eg hefe hier til lagt, niootande verda; Þar med hef eg ſkiled mier þad i Skrifara Laun, ad Prentareñ ſkyllde þeñañ litla Formaala ecke undañ ſkilia. Yckur Syſtur baadar bid eg, og adra, þeſſa mijna Einfallda Meining, vel fyrer mier ad virda, Viliañ fyrer Verked taka, og laata ſem Aſt mune fylgia Aums Giøfum.

Gude Fødur allrar Naadar fel eg yckur baadar a Hendur, med Elſkulegum Fødur og Broodur, Vinum og Vanda-Møñum, ſa ſame Lijknar-Fadereñ, hallde oſſ og øllum Chriſtnum Møñum, jafnañ vid þañ ſkiæra Bruñeñ ſijña Lijffroptugu Orda, vorar Saaler og Hiørtu þar med ad næra i þeſſa Heims og Hollds Mootlætum øllum, þar til allt hañ oſſ hiedañ Farſællega leider, iñ i þa Niju og Eilijfu Jeruſalem, hvar ed vera mun wte og endud þeſſe Auma Hierviſt, Heims og Hollds Barsatta, þa ed Gud mun þerra øll Taareñ af vorum og allra ſijña Utvaldra Augum, og ecke mun framar meir vera Hel nie Hrygd, Harmur nie Anaud, Þvi þetta Stundlega er þa gleymt og Umlided, Apoc. 21. Eſa. 51. 56.

Skrifad a Mel i Midfirde, 8. Dag Febr. Anno 1599.

Arngrijmur Jons-Son.



Esaiæ. 53. v. 5.

Hañ er særdur fyrer vorar Yfertrodslur, og er Lemstradur fyrer vora Mis-



giørringa, Hegningeñ liggur a hønum, ad vier skylldum niota Fridar, og vier høfum feinged Lækning fyrer hañs Saar.



# Fyrste Capitule.

## Stutt Undervijsan, hvørneñ Christens Mañs Hiarta skal biva sig under, ad hugsa Riettelega uñ Pijnuna HErrans JEsu Christi.

Af Esajæ 53. Cap.

SAnNlega bar hañ vorn Siwkdoom, og hlood a sig vorre Angift. Eñ vier hielldum hañ ad vera þañ, sem af Gude slegeñ, plaagadur og pijndur være. Eñ hañ er sokum vorra Misgiorda særdur, og sokum vorra Synda Lemstradur: Hegningeñ laa a honum, so vier hefdum Frideñ, og med hañs Benjum erum vier Heilbrygder ordner.

## Salareñar Eintal vid sialfa sig, wt af þessum Spaamañsens Ordum.

JEsu Christe, DRotteñ miñ og Gud miñ, Eg Aum og Syndug Mañeskia, veit ad a Effta Deige villtu

Openberlega Heimsins aptur vitia, og Ognarlegur Elldur mun undañ þier gaa ga, og Hrædelegur Stormur med þier koma, Þa muntu kalla a Himen og Jørd, so þu munt þa dæma allañ Lijd, Ps. 50.

Siaa þu DRottẽ miñ, Þa hliota allar mijnar Synder og Jllgiørder fyrer so mørgum Þusundum Maña ad opeñberast, og aller mijner Glæper fyrer Heiløgum Eingla Skara ad auglysast, Ei ad eins hvad eg med Verkunum, helldur og so eirneñ hvad eg med Ordunum og Hugsunum syndgad hefe, Ps. 6.

Þess vegna Drottẽ miñ, er mitt Hiarta miøg Sorgbited i mijnu Lijfe, mijn Bein skielfast og mijn Saal er næsta hrygg; Mijn Asiaana drijpur nidur af storre Hrygd, og er Elleleg ordeñ. Þviad eg veit ad eg er af Syndugu Sæde gieteñ, og i Syndeñe took mijn Mooder vid mier. Eg medkleñe mijnar Misgiørder, og mijn Synd er jafnañ fyrer Augum mier. Mitt Høfud er kraankt, mitt Hiarta er þreytt og mædt. Jaa, fra Jlium upp til Hvirfilsen er ecke heillt a mijnum Lijkama, helldur Syndareñar Saar og Lemstur, Allt er

þad

þad Bloodriſa og Kaunum hladed. Eg ſkamaſt mijn ad lifa, eñ hrædeſt ad deya, Pſalm. 51.

O! mijn Sæl; Þu Avaxtarlauſa Eik; Hvar eru þijner Avexter? Þu viſna og Gagnlauſa Trie, þu ert verdug ad þu ſkuler upphøggvaſt, og i eilijfañ Elld kaſtaſt. Hvørin villtu andſvara a þeim Deige, þegar þu ætt Reikningſkap ad giøra af øllum þijnum Lijfdøgum, Jæ, eirneñ fyrer hvørt hid minſta Augna blik? Matth. 3.

Þu ert ſa hiñ vonde Þion, ſem uñ tiju Þuſund Pund ert ſkylldug?, og i mote tiju Guds Bodordum ſyndgad hefur ſo hrædelega. Þu ert ſa Otrwe Rædsmañ, ſem ſijns Herra Gotze hefur eidt. Þeink þu og hugſa uñ, hvørſu margar godar Gaafur DRottiñ hefur giefed þier; Eñ hvørſu illa hefur þu fared med og vanbrwkad þær? Bølvaneñ er yfer þier, þvi þu hefur ecke hallded hvad i Løgmaalē DRottens ſkrifad er, Devt. 27.

Siæ þar, Dagur DRottens er fyrer Hende; So ſem ein Snara muñ hañ koma yfer þig, og yfer alla þa ſem a

Jardrijke byggia. Eg villda obriootanda Vatn være i mijnu Hofde, og ad mijn Augu være Taarabruñur, so ad eg Dag og Nott mætte sijta og graata mijnar Synder. Graat og sijt þu Saala mijn; Lat þijn Taar fliota og reña Dag og Nott, so sem eirn Arstraum, og gief ei upp, og þiñ Augasteirn laate ecke af; þvi sa allra Hædste er griñur uppa þijnar Misgiorder.

Eg Aum vesöl Mañeskia, Hvad hefe eg giort? Hvad illa hefe eg med mig fared? Avij, Avij, O! þu Grimd hins allra hædsta, fall þu ecke yfer mig: O! þu Grimd þess alls Megtugasta; Hvør kañ vid þier ad standast?

O! hvilijk Sorg, O! hvilijk Skielsing. Hvørt skal eg hafa mig a þeim Deige nær DNotteñ Allsvalldande vill Doomeñ hallda? Hvørt skal eg þa mijnum Augum reña?

Siaa, yfer mier er Doomareñ hvørium øll Fylsne mijns Hiarta Opeñber eru, Under mier er Helviite, sem sitt Gin og Kverkar uppsperrer, til ad gleypa mig. Til Hægre Handar sie eg Skara þeirra Heilogu,

løgu, hia hvorium eingeñ saurugur vera maa. Til Vinstre Handar sie eg Dioful-eñ, og Flock þeirra Fordæmdu, sem i Eilijfañ Elld gaanga skulu. Lijte eg til Jardareñar, þa er hun i einu Baale, og eingeñ kañ þar ad vera; Skode eg sialfañ mig, þa fiñ eg ecke añad eñ vonda Samvitsku, og nagande Orm. Hvad skal eg seigia? Hvad skal eg til giora? Mijn Hiarta-Glede hefur Enda teked, og miñ Hlaatur er ad Harme ordeñ, Koronañ er falleñ af mijnu Hofde. Gud naade ad eg hefe so illa syndgad.

Hvort aa eg nu þess ad flya, so ad eg ei fyrerfarest? Til þijn miñ Goode JEsu alleina, þitt hefur dijra Blooded bætt mijn Brot, og mig vid þiñ Fodur sætt.

Þess vegna haf nu Huggun Saala mijn; Þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Þvi so hefur Gud elskad Heimeñ ad hañ gaf wt siñ Eingieteñ Son, ad aller þeir sem aa hañ trwa, fyrerfarest eige, helldur hafe þad eilijfa Lijf.

Miñ HErra JEsu Christe, eg trwe ad soñu a þig, Eñ hiaalpa þu miñe veykre Trw a Fætur, Marc. 9. Jaa DRotteñ,

Eg trwe af Hiartans Gruñe, og eg veit vissilega ad þu ert komeñ i þessa Veröllд mier til Hiaalpræðis, og mig Aumaň Syndara Hoolpeñ ad giora, 1. Tim. 1.

Miñ goode Gud, eg er saňlega eirn af þeim stærstu Syndurum, Oho! Laat mig þijna Myskun ødlast, og laat mig jafnañ i mijnu Hiarta þad Fagnadar Traust og þa Kroptugu Huggun heyra, Ad allar mijnar Sinder sieu inz þijnu Bloode og þij num Dauda saňlega bættar og bitaladar.

Hvør vill nu aaklaga mijna Saal? Hier er Gud sem mig Riettlaataň giører, Hvør vill mig fordæma? Hier er Christur sem fyrer mig er daaeñ, og þad meira er, upp aptur riseň, haň sem nu er til Fødursins hægre Handar, og bidur fyrer mier, Rom. 8. O! þu Heilage Lijknsame Fader, Hvørsu harla miøg hefur þu mig elskad? O! þu Heilage Lijknsame Skapare, Hvørsu Fødurlega hefur þu miñst mijn? O! þu Omælanlega Giæska, O! þu Oseigianlega Goodgyrnd, O! þu Omælelega Elska. Þiñ Son, Jaa, þiñ Einka Son hefur þu i Daudaň giefed, svo ad þu þiñ Præl feinger Endurleystaň. Gud er Madur

orðeñ,

ordeñ, so ad eg Aum Fortøpud Mañeskia af Diøfulsins Vallde Friaals yrde.

Jaa Fader, þiñ sæte Son liet sier þad ei nægia, ad hañ sig so Lijtelæckade, og vort Holld i Jomfrwr Lijfe a sig tæke, helldur þar ad auk, liet hañ sig sem añañ Spillvirkia a Krosseñ upp-festa, hefur hellt þar wt sijnu Dijrmæta Bloode, og deyde so fyrer mijnar Synder.

Sa Naaduge HErra er komeñ, Hañ er komeñ med storre Giæsku og Myskun, Hañ er komeñ ad giøra þad Hoolped sem Tapad var. Hañ hefur leitad ad mier aumre tapadre Saudarskiepnu, Jaa, hañ hefur mijn leitad, og funded mig, og a sijnum Herdum til Saudahwssens hefur hañ mig bored, sa goode HErra og miñ Trwfaste og Dygdarijkaste Hirder JEsus Christus.

Oh! hvilijk Elska, Oh! hvilijk Giæska er þad? Hvør hefur nockurn Tijma heyrt slijkt eda reynt? Hvør er saa hañ fagne ecke yfer slijkre Naad og Myskun? Hvør er saa (O Rotteñ miñ) ad ecke dareist ad þiñe Elsku, sem þu hefur til Mañaña? Þiñ kiære Sonur er þad rietta Flecklausa

Lamb, sem Heimsins Synder hefur burt teked, og vorn Dauda med sijnum Dauda ad øngvu giort, og med siñe Uppriſu þad eillifa Lijfed wtvegad.

Hvørneñ kuñum vier þier DRotteñ so mykla Velgiørninga ad Endurgialld? Hvada Lof eda Packargiørd kuñum vier þier þar fyrer maklega ad færa? Po vier hefdum Vitsku Einglaña, og þeirra Krapt allañ, þa giætum vier ecke uñbunad þier so stoora Naad og Giæsku.

Og þo hvør Lidur og Limur æ vorum Lijkama kyñe ad tala, þa giætum vier þad ecke nooglega þackad. Pvi þijn Elska og Kiærleike til vor, yfergeingur alla Vitsku og kuñattu.

Peſs vegna vil eg taka mig upp, O! DRotteñ miñ JEsu, og til þiña Allra Helgustu Saara gaanga. Jer. 28. Eg vil flytia mig wr Borgeñe, og bwa i Biargskorum. Lof. 2. Eg vil giora sem Dwfañ, og hreydra mig i Jardareñar Fylsnum, og Hellerum og Biargskorum, Lof. 2. Esa. 2. Ps. 55. Pad er, i þijnum Blessudum Undum miñ HErra JEsu Christe, þar vil eg mig nu iñleggia, þar vil eg

eg Stadar nema, og blijfa. Þar vil eg mitt Arvide fyrer mig taka, þar vil eg hugleida þiñ Heilaga Kroß, Kvøl og Pijsler þijnar.

Jaa, þiñ Heilaga Kroß og þijna Pijnu vil eg jafnañ i mijnu Hiarta og aa mijnu Hollde, og i mijnum Muñe bera. I mijnu Hiarta vil eg hañ bera. Þvi eg vil Daglega og Oaflaatanlega þar uñ hura og laata mier þad til Hiartans gaanga, svo eg med St. Paale seigia meige: Eg veit eckert añad eñ JEsum Christum þañ Kroßfesta. 1. Cor. 2.

A mijnum Lijkama vil eg þijna Pijnu og Kroß þiñ lijka bera, Þvi eg vil allañ Kroß og Mootgaang, wt af Kiærleika til þijn miñ HErra JEsu Christe, giarnañ bera og lijda, So eg seigia meige, Giøre mier eingeñ hier epter meira Onæde, þvi eg ber Beniar mijns HErra JEsu Christi aa mijnum Lijkama. Gal. 6. Jaa, ad eg mætte verdugur vera ad seigia: Eg er med Christo Kroßfestur. Gal. 2.

I mijnum Muñe vil eg lijka bera þijna Pijnu og Dauda, Þviad eg vil ollum Stundum uñ þijnar Heilegu Under aa-

Aflaats, ræda, miñ HErra JEsu, og þier øllum Stundum þar fyrer Packer giera.

A þeñañ Haatt skal þijn Heilaga Pijna, DRotteñ JEsu, aavallt vera bæde i Hiartanu og a Holldenu og i Muñenum. Eg vil hana fyrer Augum hafa Daglega, og mier i øllu mijnu Frañferde þar epter hegda, so eg eckert lese, eckert tale, eckert þeinke, eckert skrife, utañ alleina miñ JEsum Christum þañ Krossfesta, og ad eg aavallt meige skunda og flya til þiña Bloodugra Unda, sem fyrer mier opnar og upplaatnar standa, Esa. 2.

J þessa Biargskoru vil eg iñ gaanga, miñ Herra JEsu, og mig fela i þijnum Undum, fyrer Grimdar Reide Guds Allsheriar, og fyrer hañs hrædelega Tignar Vellde, so eg af þessum Steinskorum og Bloodugum Undum þijnum, meige siwga Hunanged af Helluñe, og Vidsmiøred af hørdum Griot-Steine, Ps. 34. og meige so faa ad smacka, hvad goodur og Naadarfullur þu ert Gud miñ, og mitt Hiaalpræde.

Hugleid nu Saal mijn, hvar af kañtu þijns DRottens Kiærleika liooslegar ad merkia, eñ af hañs Saarum? Hvorneñ

kuñe

kuñe hañ ſtærre Elſku til þijn ad hafa, eñ ad lata ſitt Lijf fyrer þig? Þvi vil eg alleina a hañ trwa og treyſta. Hier er Nægdeñ Naadareñar, Hier er Mergd Sætleikans, Hier eru allar Dygder og Mañkoſter foolgner.

Og nu ſøkum þeſſ, miñ Herra JEſu, eg kañ nie orka einſkis aan þijn, i þeſſum mijnum Veikleika, Joh. 15. þa drag mig nu epter þier, ſvo eg kuñe ad fara epter Sætleiks Ilm þiña heilnæmu Smyrſla, þad er til þeirrar Huggunar ſem foolgeñ er i þiñe HeiloguPijnu, ad eg uñ hana hug ſe Noott og Dag, eige med kølldu, Løtu eda gaalauſu Hiarta, helldur med eirne lifande Trw, og breñande Aſtar Elſku til þijn.

Og þa eg nu med mier Hugleide, hvørneñ þu varſt bundeñ, lameñ, ſpottadur, Fordæmdur, þa gief mier ad mitt Hiarta hvijleſt i þijnum Saarum, og þar ſijna Roo og Hvijld hafe, hia þeim Naglunum ſem þijnar Bleſſudu Hendur og Fætur i giegnum ſtwngu, hia þeirre Þyrne Coronu, ſem a þitt Heilaga Høfud ſett var, hia þvi Spiotenu ſem þier i giegnum Saal og Hiarta er geinged, Uppaa þad Drotteñ miñ,

miñ, ad mitt Hiarta sie jafnañ neglt á þiñ heilaga Kross, og eg mier af Aungvu hrooſe, nema af þijnum heilaga Krosse, hvar med mitt Hiarta mijkt og sigrad verde, svo ad þad ølldungis snue sier til þijn, miñ HErra JEsu Christe, añad eckert aulijte, añars ecke leite eñ alleina þijn, O! JEsu, þu sem miña vegna varst Foracktadur, Hæddur og Krossfestur.

Hvørn sem nu laangar epter Eilijfu Lijfe og Farsælld, og hvør sem nu Nafned JEsu elskar, Hvør sem gyrnest i øllum Dygdum rijkur ad vera, Vijsdoom og Hyggende ad ødlast, Item, i Lucku og Mootgaange Stødugur ad vera, Sa sijna Gøtu vill med Frid og Spekt gaanga, hañ kome nu med mier, umhuxe og Rootfeste Krossen HerransChristi, sinacke þeñañ sæta Bikar, hañs Heilogu Pijnu. Þviad Pijnañ JEsu Christi er þad besta Skiool i øllum Freistingum, og su einka Lækning i moote øllum Syndum.

Allur Mañlegur Vijsdoomur verdur ad aungvu, allt Holldlegt Riettlæte og Heilagleike er fallvalltur; Øll Mañleg Forþienan er einskis verd; Eñ Blooded JEsu

JEsu Christi Guds Sonar giører oss hreina af vorum Syndum. 1. Joh. 1. Pvi ad hier a Jordunñe er eckert Heilnæmara, eckert Dyrmætara, til ad græda Saar minnar Samvitsku, til ad hugga Hiarta mitt, i øllum Krosse og Mootgaange, so sem þetta, þegar eg vel og alvarlega hura um þijn Saar, minn liwfe Lausnare.

Þetta er vor Hroosan, þu Christeñ Madur, sem er Nafned þijns Lausnara JEsu Christi, sem er yfer øllum ødrum Nofnum, Phil. 2. Hvør i þessu Nafne Blessadur er a Jorduñe, hañ er Æfeñlega Blessadur i Himnarijke.

Lijttu upp, þu Christeñ Madur, og sia til Saarañа JEsu, so mun þitt skielft og sundurknosad Hiarta faa Huggun; Skoda þu Saareñ Christi, þad mun lækna Saar og Syndugar Akomur þijns Hiarta. Haf hier fyrer Augum Epterdæme DRotteñs JEsu, þa muntu Hughraustur vera i allra Handa Motgaange.

Fylg þu hañs Footsporum epter, þa fer þu ecke villt.

Kom hijngad, tefdu ecke vid, O! mijn Saal, Pvi hier er Froo fyrer þa Aumu, hier

hier er Fridur fyrer þa Veslu, Hier er Huggun fyrer þa skielfdu, og Endurnæring fyrer þaug Sundurknosudu Hiortu, Hier er Hiaalp þeim Veyku, og Huggun fyrer þaa Harmþrwngnu. Laat Heim æraſt, Hollded ſpijnka, eg mun ſamt ei falla, Þvi eg ſtend aa einum øruggum Hellu-Steine, ſem faſtlega er grundvalladur. Laat Dioſuleñ Olmaſt, laat øll Helvijtis Port ypa ſig, eg mun ſamt ſtødugur blijfa, þviad i þijnum Saarum, miñ HErra JEſu, vil eg fela mig.

Þetta er ſw rietta Leid til ad þeckia Gud. Þetta er Vegureñ til Himenſins, Þetta er Leideñ til þeirrar æſkelegu Utfarar, til þeſſeilijfa Lijfſins. Hvor þeſſum Veige hafnar, eda hañ forſmaar, þeſs hærra ſem hañ añars upp ſtijgur, þeſs diwpara hrapar hañ nidur. J þeſſu er vor Hrooſan, hier er vor Von, vor Hiartans Glede, ſem er i þeirre Heilögu Pijnu vors HErra JEſu Chriſti.

Og nu miñ HErra JEſu, vil eg med þiñe Hiaalp, og fyrer Heilags Anda Naad, uppbyria þeſſa Jdiu, ſem mijna Saal epter laungar, og vil tractera og hugleida, og mier

mier Hiartgroona giora þijna Heilaga Pijnu. Eg vil mier þad allt fyrer Hendur taka, og i giegnum skoda, og hallda Samtal þar uñ, vid mitt eiged Hiarta, og mijna Saalu. DRottenn miñ, Laat þu mier þad vel vegna, og laat þessa mijna Idiu verda þijnu Heilaga Nafne til Lofs og Dijrdar, og mijnu Hiarta til Æfenlegrar Huggunar og Heilsuboota.

## Añar Capitule.

### Uñ Persoonuna sem Pijnd var fyrer oss, og uñ þa Ogudlegu Raadagiørd Phariseaña, og uñ Svikarañ Judas.

Matth. 26. Mar. 14. Luc. 22. Joh. 12.

ENN þa nalgadest siø sætra Brauda Haatijd, sem nefndest Paaskar. Og JEsus sagde til sijña Lærisveina: Pier vited ad epter tvo Daga koma Paaskar, og Mañsins Sonur mun Forraadeñ verda, so hañ Krossfestest.

Þa tooku sig samañ Kieñemaña Hofdingiar, og þeir Skriptlærdu og Olldungar Lydsins i Hollu Byskupsins sem hiet Caiphas, og baaru sijn Raad samañ, hvørneñ þeir mættu JEsum med Klænsku

ſku grijpa og aflijfa, þvi þeir Ottuduſt Folked, og ſøgdu: Ecke uñ Haatijdena, ſo ei verde Upphlaup med Folkenu.

Og þa JEſus var i Bethania i Hwſe Simonis þeſſ Lijkpraa, gieck ad hõnum ein Kviña, ſw hafde eiñ Bauk med Oſolſud Dyrmæt Nardus Smyrſl, Og hun braut Baukeñ, og hellte Smyrſlunum yfer Høfud JEſu, þar hañ ſat til Bords. Þa hañs Læreſveinar þad ſaau, lijkade þeim þad midur, og ſøgdu: Hvad ſkal ſlijk Spilling? Þeſſe Smyrſl hefdu maatt ſeliaſt fyrer miked, og giefaſt Faatækum. Og þeir møgludu uñ þetta. Þa JEſus fornam þad, ſagde hañ til þeirra: Laated hana i Fride, þvi aamæte þier heñe? Gott Verk hefur hun giørt a mier, Faatæka hafe þier jafnañ hia ydur, og meiged þeim Gott giora þa þier vilied, eñ mig hafe þier ei aavallt, Hun giørde þad hun kuñe, þvi med þeſſum Smyrſlum, hefur hun ſmurt miñ Lijkama til Greftrunar miñar. Sañlega ſeige eg ydur, Hvar ſem þetta Gudſpiall er i Heimenum predikad, þa mun ſeigiaſt i heñar Miñing, þad ſem hun nu giørt hefur.

Eñ þa var Andskoteñ fareñ i Judas Iscarioth, sem var eiñ af þeim Tolf. Og hañ gieck til Kieñemaña Høfdingia, og talade vid þa, og vid Høfudsmeñ Folksins, og sagde: Hvad vilie þier giefa mier, so ad eg selie hañ i ydar Hendur? Þa þeir þad heyrdu, urdu þeir glader vid. Og þeir budu hønum þriatiju Silfur-Peninga, Og hañ tokst þad a Hendur. Og upp fra þvi leitade hañ Lægis ad svijkia JEsum, so ad ei yrde meira Upphlaup af.

Eintal Saalareñar, wt af þessum Gudspiallaña Ordum.

MErk hier fyrst Saala mijn, hvada Persoonu hier sie geingeñ i Dauda og Pijnu þiña vegna. Þvi fra Heimsins Upphafe hefur ei slijkt nockurn Tijma skied. Opt hefur Gud sijna Eingla sendt, sem eitt Erende edur añad, med stoorum Dasemdum ad reka. Eñ þetta Erende, uñ vora Endurlausn, er so fraabærlega stort, ad hvorke Einglar nie nockrar adrar Skiepnur gaatu þvi af stad komed, helldur sa Eilijfe Guds Son JEsus Christus, þiñ Gud og DRotteñ, hañ hefur þetta

ꝛvtriett sialfur, hvør sig kallar þess vegna hier, Mañsins Son, þvi hañ er vorra vegna Naatturlegur Madur ordeñ.

Jaa, HErra JEsu, þu ert sa sañe Guds Himneska Fodurs einka Sonur, Eilijfur og Naatturlegur, sw oñur Personañ þeirrar Verdugu og Heilꝍgu Preñingar, Samlijkur i Magt og Dijrd, Gude Fodur og Heilꝍgum Anda, Joh. 1.

Þu ert þad ORD sem var i Upphafe, Frumburdur allra Skiepna, Dyrdar-Geisle þijns Fodurs, og hañs Riettasta Mynd, 1. Joh. 1. Col. 1. Ebr. 1. Ps. 24. Þu leitst aa Eymd og Utlegd þiñar Skiepnu, þa þegar vier vorum þijner Oviner, Jaa, þegar Daudeñ eñ nu rijkte yfer ꝍllu Hollde, og allt Adams Sæde var eilijfrar Fordæmingar verdugt, þa leistu nidur af þijnu Haasæte, i þeñañ Eymdar-Dal, aa Neyd þijns Foolks, og liest þier hana til Hiarta gaanga. Þu hafder nock ud i Siñe vid oss, sem var Huxun Fridar, og eilijfrar Endurlausnar, Jerem. 19.

Og þo þu bwer i þvi skiæra Lioose, sem eingeñ kañ ad komast til, og raader ꝍllu med þijnu kroptuga Orde, þa komstu samt hijng-

hijngad nidur, lijtelæckader þig sialfañ, tookst a þig Prælsmynd, og giordest Madur, og ert ad Hegdan funden so sem Madur, Syndeñe fra tekeñe. Ebr. 1. Philip. 2.

Ei tookstu a þig Einglaña Natturu, helldur Abrahams-Sæde. Þu varst sa meste, og þu giordest sa minste; Þu varst sa Rijkaste, og þu giordest sa Faatækaste, þu varst sa Frijdaste, og giordest sa Osielegaste, Ebr. 2. Þu varst Kongur Dijrdareñar, og þu giordest sa Lijtelmotlegaste Præll, Þu varst sa allra Hædste, og þu giordest sa Lægste, Esa. 53. Jaa, þu varst sa allra Helgaste og Saklausaste, i hvors Muñe eingeñ Flærd er fundeñ, og ei visser af nockre Synd, Joh. 8. Og hefur þo mijnum Synda-Saur a þig hladed, og laated þig sem añañ Illvirkia og Illrædismañ uppheingia, 1. Pet. 4.

Og þo þiñ Guddomur hvorke lide Pijnu nie Dauda, þa giordest þu samt þijnum Fodur Hlijdeñ, allt til Krossens Dauda, og ert daaeñ epter Holldenu, sokum vorra Synda, og oss til Riettlætis upprijseñ, og hefur Endurlausnena afrekad med sialfs þijns Forskulldan, so vier fyrer

Trwna hefdum Lijfed i þijnu Nafne.

Siaa þar nu Saala mijn, hvad haaleit Persoona hefur fyrer þig pijnst, sem er ædre øllum Einglum, øllum Mønnum, øllum Skiepnum, saa hann er Skapare allra Hluta, Joh. 1. Þesse Personann giører Pijnuna meire enn Himen og Jord, og krøptugre enn allar Heimsins Synder.

Þar fyrer skalltu ecke orvinglast Saala mijn, Hvørnenn kunna þijnar Synder so storar ad vera, ad þinn Lausnare JEsus hafe ecke kvittad þær, hvør sitt Foolk hefur med sijnu eigenn Bloode aptur leyst? Act. 20. Jaa, minn Herra JEsu, skylldu mijnar Synder og allrar Veralldarennar, metast vid þijna Naadarrijku Pijnu og Dauda, þa kiæme þad ecke nær samann, enn Austred og Vestred, eda Himen og Jord, Ps. 103. Vertu nu þvi glød mijn Saal, ad þu hefur so Almaattugann Endurlausnara, Amen.

Christur sagde fyrer sijna Pijnu, og gieck Viliugur i Daudann.

Sjaadu og heyr Saala mijn, hvørsu viliugur DRottenn er til ad pijnast; Þvi þo hann visse fyrer allt, hvad framm vid hann

aatte ad koma, Joh. 18. Samt kiemur hañ siaalfur til Jerusalem, og geingur sem þeigiande Lamb til Slaatrunar-Stadarens. Pier vited (seiger hañ) ad epter tvo Daga eru Paaskar, og Mañsins Son mun yfurselldur verda, so hañ sie Krossfestur.

Siaa þar mijn Saal, Mañsins Sonur geingur þaangad, so sem skrifad stendur, ad hañ skyllde sitt Lijf laata, mørgum til Lausnar. Matth. 20.

HErra JEsu þad var so aasett, og þess vegna varstu i Heimeñ komeñ, ad giefa þiñ Lijkama til Synda fornar, Esa. 53. Og þijna elskulega Saal i Ovina Hendur. Jer. 12. Pu visser vel, ad þeir mundu leida þig sem Lamb til Slaatrunar becksins. Po samt ertu hlijdeñ, og seiger; Siaa eg kiem, i Bookeñe er skrifad uñ mig, þiñ Vilia fullgiøre eg giarnañ miñ Gud, Psalm. 40.

Lofadur siertu DRotteñ miñ Lausnare, ad þu gafst þig so viliuglega i Daudañ fyrer mig. Eg prijsa þig þu Kongur Israels; Pu trwe Pioon DRottens, ad þu giørder so vijslega, og hefur þvi so vel af stad komed, Esa. 52. Eg þacka þier, þu þad allra helgasta Lausnar gialld, þu sem ert Offur Fridarens, ad þu med þijnum Kiærleiks Ilm, hefur stillt þiñ Fødur. Miñ Lausnare JEsu, Upptek þu

mitt Hiarta til saṁarlegs Packlætis. Lꝛat þitt Lof jafnaṅ i mijnum Muṅe vera. Psalm. 34. Gief ad eg hrꝏse þiṅe Giæsku, og þijna stooru Elsku prijse af Hiarta. Uṅ mier, ad aller mijner Lijfdagar sie jafnlegt Packlætis Offur fyrer Mykeleik þiṅar Myskunar, sem þu oss overdugum Prælum, veitt og sijnt hefur, Amen.

## Trwnd Guds Born meiga Mootgængs vænta þessa Heims, og læra Krossen med Christo ad bera viliuglega.

HEr hier nockud mijn Sæl, og siæ til þu gænger i Footspor þijns HErra. Pvi so sem HErraṅ Christur visse fyrer sijna Pijnu, og sagde þad sijnum Postulum, eṅ gaf sig samt viliuglega þar til, Matth. 20. Luc. 18. Marc. 10. So og mijn Sæla, fyrst þu veist þad, ad Guds Born hlioota i giegnum Kross og Mootgæng, og ad lycktum i giegnum Daudaṅ, iṅ i Guds Rijke ad gænga, Act. 14. Pa læt þig ei furda, nær þier DRotteṅ siṅ Kross a Herdar leggur, Pvi þad er eingeṅ nijr Tilburdur, þeink hvad DRotteṅ hefur þier fyrer sagt.

Hiælpa DRotteṅ JEsu, ad eg mig jafnaṅ vid Krosse og Mootgænge bwe, Pvi so er þad æsett, og so bocknast þier; Ad vier tøkum vorn Kross uppa oss og fylginm þier epter. Gief ad eg þar uṅ hure og þar uṁ tale, og dagslega til reidu sie, ecke alleinasta Heimsins Mootkast ad lijda, helldur (ef þad er þiṅ Vilie) eirneṅ þiṅa vegna mitt Lijf ad læta, Amen.

Uṁ

Uñ þa Ogudlegu Raadagiørd Phariſæaña aa moote Chriſto.

HVad hafaſt Phariſæarner ad, þeſs aa mille, og þeir Skriptlærdu? Þeir hafa teked ſig ſamañ (miñ Gud) i moote þijnum Syne Jeſu, hvørn þu hefur ſmurt, Act. 4. Og ſeigia; Vier vilium ſitia uñ þañ Riettlaata, þvi hañ giører oſs opt illt i Giede, og ſetur ſig upp i moote oſs, og kieñer oſs uñ, ad vier ſyndgum i mote Logmaalenu, og kallar vort Lijferne ſyndſamlegt, Sap. 2. Hañ lætur a ſier heyra, ad hañ þecke Gud, og hrooſar þvi ad hañ ſie Guds Sonur, Pſalm. 41. Og aavijtar hvad vort Hiarta yfer bijr, Pſalm. 31. Vier meigum hañ ecke fyrer Augum lijda, þvi hañs framferde er ei ſem añara Maña, hñ helldur vora Side oſæmelega og fordaſt þa ſem Audſtygd, og læſt uñ þad tala hvad gott þeir Riettlaatu eige fyrer Høndum uñ ſijder, og hrooſar þvi ad Gud ſie hañs Fader.

Þvi laatum ſia til hvørt hañ ſatt ſeiger, og reynum hvada enda þetta vill hafa. Sie hañ ſañur Guds Son, þa mun Gud hønum hiaalpa wr Høndum hañs Ovina.

Vier vilium hañ med Kvol og Hardung heim sækia, so ad vier siaaum hvad goodur hañ er; Vier skulum hañ til sinaanarlegs Dauda fordæma; Þa maa þeckia hañ af hañs Ordum.

HErra JEsu Christe, þijn Arfleifd er þier ordeñ sem Leon i Skoge, og greniar á moote þier. Þeir byggiast oaflaatanlega, og þeirra Vde hefur ei enda, Jerem. 12. Og þo þeirra Asetningur være ad laata þetta ecke skie uñ Paaska Haatijdena, so ad ei yrde Upphlaup med Foolkenu, þa var þad þo fyrer sied i Raade heilagrar Þreñingar, ad þeirra Raanglæte vid þig skyllde a þeirre fiolmeñu Haatijd fram koma, og vard med þvi moote þijn Smaan þess stærre, Þijnañ þess Hardungar meire fyrer þeirra Augum, og þiñ Daude þess kuñugre, og openberare øllu Foolke, sem af fiarlægum Stødum urdu til þeirrar Stoor-haatijdar ad ferdast.

Jaa miñ HErra JEsu; Þu utvallder þier eirneñ þeñañ Dauda Tijma, fyrer þa mykla Paaska Haatijd, so þu þar med audsijnder, ad þu værer alleina þad rietta Paaska Lamb, sem fyrer vorar Synder, ætte

aa

# aa Krossenum ad slaatrast.

Heyr Almaattuge Gud Himneske Fader, sem so Daasamlega hefur laated uppfyllast hvad Heilog Ritning um̃ þijns Sonar Pijnu hefur kun̄giort; Kien̄ þu mier ad þeckia þitt Guddoomlega Raad sem þu hefur þier aasett; Ad þu vilier þijna Utvallda, þad er, alla Riett-trwada og lijka Daasamlega leida i giegnum þeñañ Sorgar Dal. Eg veit ad sonu, min̄ Gud, þu hefur kallad mig og tilskickad, ad eg skyllde lijkur verda þijnum Syne, i þvi ad gaanga under han̄s Kross, og med honum ad lijda; Jaa, eg veit þu skamtar mier allan̄ min̄ Mootgaang; Vegur mier han̄ wt med þin̄e gullegu Vigt, og þad Augnablik, hefur þu tilsett, nær han̄ skal til taka, hvad stoor eda þwngur han̄ skal verda, og hvorsu leinge han̄ skule vara. Send þu mier Polenmæde, gief mier hlijdugt Hiarta, og stodugt Sin̄e ad eg giefe mig aavallt viluglega under þitt dasamlega Guddoms Raad og Vilia, og ad eg sie þar viss uppa, ad so sem Daude og Pijna þijns kiæra Sonar, mijns Lausnara, hefur Verolldeñe þad eilijfa Lijfed afrekad, so mune mier og ollum sem þitt Nafn elska, aller Hluter ad goodu verda, Amen.

## Um̃ Kvin̄una sem Smyrslunum hellte yfer Hofud DRottens.

GJef og giæfur ad, mijn Saal, þeirre Konu, sem mijns Frelsara Hofud smurde. Joh. 11. Luc. 7. Hvor Kona, ad var Maria, Syster Lazari og Marthæ i Bethania. Hun wtvalde jafnan̄ þad gooda Hlutskipte, og hefur opt til Foota JEsu seted, heyrt han̄s Kien̄ingar, og sied han̄s Daasemd, þa han̄ reiste af Dauda, hen̄ar Broodur Lazarum, Joh. 11. Og þvi

gat heñar Trw sier ecke leynt, hvoria hun i lioose liet, fyrst med Packlætenu, ad hun hressañ giørde Herrañ Christum, med Ilm þeirra dijrmætu Smyrsla, hañ sem þa var af Ferdum og sijfelldum Predikunum mæddur, lweñ og þreyttur, hvørt Smyrsla Vatn ad verdt hefur vered, nær 37 Dala. Þar næst auglijste hun sijna Trw i Jaatninguñe, ad hun hræddest ecke høfdingia Kieñelijdsins, og þeirra Hatur i moote JEsu, og ei fordadest þa ad þessu, helldur aavijsar med þessare siñe Smurningu, ad JEsus af Nazareth sie Sonur Guds lifanda, Kongur Dijrdareñar og saa riette hædste Kieñemadur, sem vorra Synda vegna munde deya, og vors Riettlætis vegna upprijsa.

O! Herra JEsu, hvad vel þier þocknadest slijkt Packlæte og soddañ Jaatning; Þar þu vitnar og seiger; Ad gott Verk hafe hun giort a þier. Miñ DRottiñ alldrei kuñe hun betur ad koma sijnum Smyrsluñ, Og hvørneñ gastu og betur gladt heñar Saal; Laattu DRotteñ mijna Saal eirneñ jaata og vidurkieña allt hvad þu hefur giort vid mig, so ad

eg

eg þioone þijnu Nafne med Þock og Lofgiørd, so þier lijke. Þvi fyrst Maria var so þacklaat fyrer siñ Broodur Lazarum, hvørn þu af þeim stundlega Dauda uppvaked hafder; Hvad framar ætte eg ad þacka þier miñ Lausnare, hvørn þu hefur af þeim eilijfa Dauda frelsad, og giefed og skyckad þad eilijfa Lijf og Riettlæte.

Hiælpa þu mier DROtteñ JEsu, ad eg þier þioone med Føgnude, og kome fyrer þitt Auglit med glødu Hiarta. Psalm. 100. Gief þu eg þig prijse med Hiarta og Muñe, og Lofgiørd fære þijnu Nafne med Ordum og Giørdum; Laat mig alla mijna Von aa þig setia, og þig af øllu Hiarta elska. Styrk þu mig med þijnum Heilaga Anda, ad eg jaate og vidurkieñe þitt Heilaga Nafn allt i Daudañ, og þijn dyrdlegu Verk prijse, alla mijna Lijfdaga; Laat mig stødugañ standa, so ad hvørke Lijf nie Daude, slijte mig fraa þier, so þu æválllt siert miñ Hiælparskiølldur, i mooté øllum mijnum Ovinum, og ad eg meige christelega deya, og i þier eilijflega lifa, Amen.

## Um̃ Svikarañ Judam, og þa 30 Silfur Peninga.

O! Þu Juda; Þu leide Forrædare; Er þetta sw Þock sem þiñ Lavardur aa ad þier, fyrer sijna otelianlega Velgiørninga? Siaa þu mijn Saal; Þiñ Frelsare giordest hier Joseph, hvørn hañs eigeñ Brædur selldu, Gen. 37. Hier er hañ selldur og forraadeñ vorra Synda vegna;

Psalm.

Psalm. 49. O! Herra Gud, dijrt kostade þad ad kvitta vorar Synder, ad þad mætte ei miña kosta, eñ þiñ einka Son. Siaa hier Kaupskap, Drottiñ JEsu sem er meire eñ Hiinen og Jord, og fullt gialld er fyrer allar Heimsins Synder, hañ er selldur fyrer 15 Dala virde, Zach. 11. O! skal mier þikia þeir hafa meted þig dijrañ. Eñ so var þad aasett, ad saa einskis þotte verdur fyrer Veralldareñar aalite, skyllde so dyrmætur i Guds Auglite vera; Ad hañs Daude skyllde vera fullur Bitalingur fyrer alls Mañkynsins Synder.

Hiaalpa mier DRotteñ, ad eg kyñe þoleñmoodur ad vera, þa Heimureñ metur mig lijtels, og mig forsmaaer; Laat mig ei alleina gaanga epter þeirre Virdingu sem Meñerner aaleggia, helldur eirneñ til þijn huxa, hvad lijtels þeir hafe þig virdtañ, ad eg ei sie fundeñ med þeim, sem helldur vilia Mañaña Metord hafa, eñ hiaa þier, edur i þijnu Auglite. Þviad Mañaña Metord og Virdingar eru einskis verdar, eñ saa er til Æru settur sem þu giefur Virding. Og þo þeir kuñe ad ofsækia mig til Daudans, þa gief þu mier stødugleik; Þvi Daude þiña Heilagra er Dijrmætur fyrer þijnum Augum, Psalm. 116.

## Um Agyrne Forrædarans.

SJaa hier eirneñ (til Dæmis) mijn Saal, af Forrædara DRottins, ad Bwkur þeirra Ogudlegu fyllest alldrei; Þvi so giøra jafnañ þeir Agiørnu, ad eiñ

þvijkur

sviːkur Lijfed af ødrum, þar fyrer skalltu hneygia þitt Hiarta til Bodorda DRottins, eñ ei til Agyrne, Prov. 11. Pvi þeir sem Audeñ stunda, falla i Freistingar, Snorur, og marga skadsamlega Fysn og dærlega, hvør Mońunum steyper i Gløtun og Fordæming, Psalm. 119. Pvi ad Agyrne er Root til alls Jlls, sem Judam og fleire adra hefur sigrad, so þeir eru fra Trwñe falluer. 1. Tim. 6.

Margur er sviñur og adsiall, og rakar samañ med þvi moote, eñ hurar so sijdañ med sier; Nu vil eg hallda mig kræselega og hafa gooda Daga af mijnu; Eñ hañ veit ecke ad hañs Daudastund er so nær, ad hañ hlijtur riettur og sliettur fra ad gannga. Syr. 11. Prv. 10. Par fyrer skalltu Drottne treysta mijn Saala, og muntu a øngvu Breft hafa, Syr. 33. Eñ uñ tijmulausañ Obocka eru misjafnar Rædur, og er riett giørt; Pvi hvad skal Audureñ einum kørgum Hunde?

Gief þu mier DRotteñ JEsu, ad sw illa Agyrnd sie mier af Hiarta leid, og mitt Hiarta þijngest ei med Sorg og Ahyggiu fyrer miñe Lijfs Næring. Sømuleidis uñ þu mier, ad eg jafnañ kieppest epter Riettlætenu, Gudrækneñe, Kiærleikanum, Poleñmædeñe og Lijtelætenu, og þitt Heilaga

laga Ord sie mier kiærara, eñ Pusundfalldar Rægte[r] Gulls og Silfurs, Eigna og Audæfa, Amen, Luc. 21. 1. Tim. 6. Psalm. 119.

# Pridie Capitule.

## Uñ Gydinga Paaskalamb og hvad þad hafde ad þijda, Matth. 26. Marc. 14. Luc. 22.

Nu Fyrsta Deige þeirra sætu Braudaña, þegar Paaskalambenu aatte ad slaatra, geingu Læresveinar JEsu til hañs og sögdu; Hvar villtu ad vier tilreidum þier Paaskalambed? Og hañ sende Petrum og Johañem, og sagde; Gaanged i Borgena, og siaa, þa þid komed iñ, mun eiñ Madur mæta yckur, berande eina Vatns skioolu; Fared epter hönum þaangad sem hañ iñ geingur, seiged Hws-Herranum, Meistareñ lætur þier so seiga: Mijn Stund er naalæg, Hvar er þad Herberge, i hvöriu eg meige med mijnum Læresveinum Paaskalambsins neyta? Og hañ mun sijna yckur eirn prijddañ Sal, þar skulu þier tilreida þad. Og þeir fooru af stad, og fundu so allt sem hañ hafde þeim sagt, og biuggu þar til Paaskalambed.

Eñ

Eñ þa Kvølldeð var komed; Kom JEsus, og setteſt til Bords med ſijnum tolf Poſtulum, og ſagde til þeirra; Mig hefur af Hiarta epter laangad, med ydur þetta Paaſkalamb ad eta, aadur eñ eg pijneſt; Þviad eg ſeige ydur, ad hiedañ af mun eg ecke af þvi neyta, þaangad til þad fullkomnaſt i Guds Rijke. Og hañ took Kaleikeñ, þackade og ſagde; Medtaked hañ, og ſkipted hønum a mille ydar; Þvi ad eg ſeige ydur; Hiedañ i fra mun eg ecke drecka af Vijnvidar Avexte, þar til Guds Rijke kiemur.

## Eintaled.

MErk hier og giæt ad mijn Saal, hvørneñ ad Herrañ Chriſtur etur þad Gydingaña Paaſkalamb med Poſtulunum. Og ſkalltu hugleida aadur, hvørneñ Moyſes Guds þioonuſtu Madur hefur fyrer þvi ſkiled og þad iñ ſett, Exo 12.

Fyrſt tilſetur Moyſes, hvada Lamb þar ſkyllde tiltakaſt, og ſeiger ſvo:

A tijunda Deige þeſs fyrſta Maanadar, take hvør Hwsfader ſier Lamb, eitt Lamb hvør til ſijns Heimelis. Eñ ſie þad

þad nockud Hws sem of-fæatt Foolk er til ad uppeta Lambed i einu, þa take hañ siñ Nægrañа, edur so marga, ad þeir giete Lambenu loked. Eñ þier skulud eitt Flecklaust og Vankalaust Lamb þar til taka, eitt Lamb Ars gamallt, af Saudum eda Kydum, skulu þier velia þad, og geima þad til þess fioortanda Dags, sama Mænadar.

I aññ Mæata skipade Moyses, Nær, og hvørneñ þeir skylldu sama Lambe slæatra; Og hvørneñ þeir skylldu þad Matgiøra og eta.

Hvør eirn Hoopur i Jsrael skal slæatra þessu Lambe moote Kvollde, og taka þess Blood, og rijda þvi a Dyrustafena, og a effta Dyratried Hwssens, þar þeir iñe eru ad neyta Lambsins. Kioted skulu þeir þa Noott steykia, og eta þad vid Osyrdu Braude, og beisku Sallte. Eige skulu þeir þad hræatt eta, og ecke soded i Vatne, helldur a Ellde bakad, med Høfde og Footum, eirneñ Jñiflum, og leyfa eckert til Morguns: Eñ verde nockud epter til Morguns, þad skulu þeir i Ellde breña.

I Pridia Mæata baud Moyses hvada Atferd, Bwnad, Hugsaner, þeir hallda skylldu, medañ þeir æte Pæaskalambed.

Eñ

Eñ at þeñañ Haatt skulu þier þad eta, Gyrda skulu þier Lendar ydar, og hafa Skoo a Footum, og Stafe i ydrum Hondum, og skulu þier þad eta, so sem þeir ed fliootlega vilia ferdast, þvi þad eru Paaskar(þad er Umferdar Dagur) Drottens. Þvi eg vil a þeirre sømu Noottu fara um Egyptaland, og alla Frumburde drepa, bæde Maña og Fienadar, og vil audsijna mitt Straff a Godum þeirra i Egyptalande, Eg er DRottenn, Og Blooded a ydar Dyrastøfum skal vera Merke a ydur, So ad þa eg sie þad, ad eg sneide þar hia, og Plaagañ kome ei a ydur, sem ydur fordiarfe, þa eg slæ Egyptaland.

Merking og Utþijding Paaskalambsins.

SJaa nu mijn Saal, ad epter Gydinga Plagsid, hefur þiñ Lausnare Paaskalambed eted med sijnum Læresveinum. Oh! hvad Agiæter og Heilager Meñ hafa þar til samans vered. Þar stendur Hirdereñ a mille siña Sauda. Þar stendur þad Poleñmooda Lamb Guds, a mille aññara Lamba, Esa. 8. Þar er Fadereñ

 hiaa

hia sijnum Børnum, hvør Gud hafde hønum giefed. Miñ HErra JEsu, þar eru þijn Børn, sem Vidsiniørs Vidar Kvister, vid þitt Bord, Psalm. 128.

Avij miñ Lausnare, hvad feigeñ eg villde mijn Saal hefde þar vered, þier og þijnum Lærefveinum mætt þioona, Og þo eg hefde ei vered, nema Molana sem oñur Hundtijk upp ad tijna. Jaa, mier hefde þad fullt dugad, hefde eg þitt Heilaga Andlit feinged ad siaa, og þijna Heilogu Roddu feinged ad heyra.

Eñ þvi ertu hrygg mijn Saal, og þvi er þier so Orootte? Ps. 42. Siaa, vier høfum og eitt Paaskalamb, sem er Christur DRotteñ fyrer oss offradur, 1. Cor. 5. Hier af skulu þeir Hwngrudu eta og sedjast, so ad þeir i Hallæris Tijdeñe øngvañ Brest hafe, Ps. 33. Miñ goode HErra JEsu, so sem þig af Hiarta laangade epter ad neyta Paaskalambsins med þijnum Lærefveinum, So laangar mijna Saal epter þier, mijnu heilnæma Paaskalambe, og epter þiñe Huggun.

Gief þad HErra JEsu, ad mijn Saal neite, og med riettre Trw þiñar Naadar nioote, So ad eg Saddur verde af rijkuglegum Giædum þijns Hwss, Psalm. 36.

Dryckia þu mig med þiñe Vellysting, so sem med Vätns-Straume, þvi hia þier er sa lifande Lijfsins Bruñur, Añ.

## Paaskalambed, sem var eitt Hrwt-Lamb, merker JEsum Christum, sem er vort rietta Paaska Lamb.

HErra JEsu Christe, þu ert þad Lamb Guds, þad saña Paaska Lambed, eirn Kallmadur. Þu ert sa Madur, epter Hiarta þijns Fødurs, sem allañ hañs Vilia hefur fullgiort, Act. 13. Þu ert sa Madur, og DRotteñ, epter hvørium vorer fyrstu Forelldrar vonudu, Gen. 4. Þu ert sa Madur, er nefnest Zemach, Þvi under þier hefur vaxed, og þu uppbygger Mustere DRottens, Zach. 6.

Miñ HErra JEsu, sem ert sa riette Madur og Meistare til ad hiaalpa, Hiaalp og eirneñ mier, og gief ad mitt Hiarta (þvi þad er Mustere DRottens) vare lijka under þier, og ankest i riettre Trw, og Kiærleika, og þijnu Nafne til Lofs og Dijrdar uppbygt verde, Amen.

## Christur vort Paaska Lamb er Lijtalaus og Flecklaus.

ÞU ert miñ HErra JEsu, Flecklaus, Lijtalaus, Þvi þu hefur øngvum Oriett giort, og eingeñ Flærd er i þiñ Muñ komeñ, Esa. 53. Hvør kañ þier nuñ nockra Synd ad kieña? Joh. 8. Og þo þu visser ecke af nockre Synd, þa hefur þo Gud þiñ

Fader giort þig ad Synd vorra vegna, 2. Cor. 5. Soddañ Paaskalamb, Jaa, soddañ Erke-Byskup, og Edla Kieñemañ hlutum vier ad hafa, sem Heilagur, Saklaus og Flecklaus være, hærre eñ Himnarner, og hvør ei þyrfte fyrer sijnar eigeñ Synder ad offra, helldur þañ er siaalfañ sig, sem þad rietta Paaskalamb, fyrer vorar Synder i Foorn færde, Ebre. 7.

HErra JEsu Christe þu Heilaga Lamb Guds; Giør mig heilagañ og hreinañ af øllum mijnum Syndum, Añ.

## Paaskalambed var af Sauda Hiørdeñe valed.

SO varstu DRotteñ JEsu af Mañkyneñu øllu, hier til wtvaleñ, þvi þu tookst aa þig Þræls-Mynd, og giørdest sem añar Madur, og ert i allre Mañlegre Hegdan fundeñ sem Madur, ad fraatekeñe Syndeñe. Ei hefur þu Einglaña, helldur Abrahams Sæde þier samteingt, og uppa þig teked, Ebr. 2. Og so sem þaug Børn sem þiñ Fader þier gaf, Holld og Blood hafa, eins hefur þu og eirneñ.

Miñ HErra JEsu, þu hid sañа Paaska Lamb, sem so virdtest ad lijkiast oss aumum Møñum i Hollденu; Gief mier ad verda þier lijkur i þvi Eilijfa Lijfe, Amen.

Paaska-

## Paaſkalambed var teked wt af, ſioorum Døgum ꜳdur eñ þvi var ſlꜳtrad, Chriſtur og eirneñ.

ÞU varſt og eirneñ, miñ HErra JEſu, ſo ſem wt af tekeñ, og vandlega vardveittur, ſo þu yrder vort Paaſkalamb; Þvi ad þu varſt ecke ad eins af Gude þijnum Fødur ſkickadur, til ad vera þad rietta Paaſkalamb, og varſt frꜳſkileñ øllum ødrum Syndugum; Helldur ſkømu fyrer þiñ Dauda; þa tooku Kieñemaña Høfdingiarner, Raad med Judas, hvørneñ þeir kyñe ad taka þig af Døgum, Pſ. 41.

Hiꜳlpa þu mier DRotteñ, ad eg eirneñ hallde mier fra Syndum þeſſarar Veralldar, halltu mijnum Footum a þiñe Gøtu, og greid Fætur mijnar a Veg Fridarens.

## Paaſkalambenu var ſlꜳtrad, Chriſtur var og ſo Lijſlꜳtiñ

ÞU varſt lijka lijſlꜳteñ miñ Herra JEſu, þu ſaña og ſaklauſa Lamb Guds; Þad var ſo fyrerhugad, ad Chriſtur ſkyllde uppꜳttur verda. Og ſo villder þu þitt Lijf til Synda offurs giefa, og þig ſem añad Lamb til Slꜳtrunar lꜳta leida; Þu varſt medal þeirra Frañlidnu yfergiefeñ, lijka ſem þeir ed i Grøfunum liggia.

O! þu Lamb Guds fyrer oſs lijſlꜳted, ſem oſs med þijnu Bloode hefur apturleyſt; Lꜳt þijna ſaklauſu Pijnu og þiñ

Dauda, jafnañ vera minna Hiartans Huggun i øllum Raunum og Mootgange.

## Paaſkalambenu var ſlaatrad i moote Kvollde.

SO lieſtu þig eirneñ miñ Lauſnare moote Kvollde lijſlaata; Pad er i moote Heimſins Enda. Pvi þu hefur Hwſe Davids laungu aadur, okomna Hlute fyrer ſagt, ad a ſijduſtu Døgum ſkyllde þad Fiall, a hvoriu ſtæde Hws DRottins, ſtødugt gioraſt, og hærra verda eñ oñur Fiøll. A ſeinuſtu Tijmum høfum vier þetta reynt, 1. Reg. 7. Eſa. 2. Jer. 30.

Eg þacka þier þu heilaga Lamb Guds, ad þu hefur aa þeſſum ſeinuſtum Døgum kient mier ad þeckia þetta, og hefur giefed mier Hlutdeilld j þijnu Heilaga Paaſka Offre; Hiaalpa þu mier, ad eg ſie ecke ſaa ſeinaſte; Helldur med þeim fyrſtu i Trwñe, Kiærleikanum, Voneñe, og til Aſeloka ſtødugur ſtande, Amen.

## Paaſkalambed var a Ellde ſteikt og bakad.

LIJka ſo varſtu miñ Herra JEſu, a Ellde ſteiktur; Pvi þijns Fødurs Reide, hun kramde þig, og þreingde ad þier, med øllum ſijnum ſtraumum, þitt Hiarta var i þijnu Lijfe, ſem kramed (brædt) Var; Piñ Muñur var ſo þurr orden ſem Leirkier, og þijn Twnga lodde vid þiñ Goom, Pſalm. 88. Pſalm. 22.

JEſu

JEsu Christe, þu heilaga Lamb Guds, sem af brennande Elsku til vor, gieckst i þad logauda Baal, Grimdar og Reide þijns Fødurs, og hann blijdkader; Hiaalpa þu og bid fyrer oss, ad þinn Fader sie vor Fader, og þinn Gud vor Gud, so vier af Hiarta seigia meigum, Abba hiartkiære Fader, Amen.

## Lambsins Bein maatte eingenn brioota.

EJ var helldur neitt þitt Bein broted, minn Lausnare, so ad þess gamla Paaska lambsins Þijdingenn lijk være eirnenn i þessu, þinne Pijnu.

O! ODrottenn minn, þu sanna Paaskalamb, vernda þu og lijka øll mijn Bein og Lidamoot; Laat ei mitt Høfudhaar af falla, og øngvann Mootgaang lijda, ann þijns Vilia, Amm.

## Paaskalambed var eted.

SO er og Christur vor Saalar Fæda, hvørs vier eigum ad neyta med Trwudu Hiarta. Þitt Holld Herra JEsu er so rietta Fæda, og þitt Blood saa riette Dryckur fyrer vora Saal. Hvør þitt Holld etur, og þitt Blood dreckur, sa lifer i þier og þu i hønum, og hann hefur þad eilijfa Lijf, Joh. 6.

Herra JEsu þu heilaga Lamb Guds, sem kallar og seiger; Komed og eted mitt Braud, og drecked þad Vijn, sem eg skeinke, Prov. 9. Laat mig giørast reidubwenn, ad eg meige þinn Giestur vera alla mijna Æfe, so mijn Saal endurnærest, og mitt Hiarta med eilijfre Huggun uppfyllest.

## Gydingar maattu eckert af Paaskalambenu leyfa.

SO eigum vier ad taka allañ Christum vort Paaskalamb til vor, þad er, ad þeckia hañ riettelega. Legg þu eirneñ Kapp a Saala mijn, ad þu þitt Paaskalamb Christum allañ til þijn taker, og af Hiarta trwer þvi, ad Drottiñ sie sañur Madur, og sañur Gud, i eirnre oslijtanlegre Personu. Þvi hvor sa Ande sem medkieñer ad JEsus Christus sie i Holldenu komeñ, hañ er af Gude; Eñ sa þad ei medkieñer, hañ er ei af Gude. 1. Joh. 4.

Laattu mig Drotteñ af Hiarta medkieña, og med Muñenum jaata, ad þu alleina siert Christur DRotteñ, sem fæddur ert af Sæde Davids epter Holldenu, og ert opeñberadur Sonur Guds epter Andanum. Rom. 2. So eg fyrer Trwna odlest Lijfed i þijnu Nafne, Amen. Joh. 20.

## Paaskalambed maatte ei siodast i Vatne, so maa Trweñ a Christum ongva Mañaña Setninga lijda.

VAckta þig eirneñ mijn Saal, so ad þitt Paaskalamb sie i ongvañ Maata i Vatne soded, Devt. 4. Þvi þu skallt hvorke vana þad sem DRotteñ þiñ baud þier, og ei þar vid auka. Marc. 7. Þviad til onytis er þad, ad vilia þioona Gude med þeim Kieñingum, sem ei eru nema Mañaña

aña Bod og Setningar, Esa. 29.

Bivara þu mig DRottiñ alla tijma fyrer añarlegum Lærdoome, ad eg ecke Meistara leite, añara eñ þijn, helldur þier i Trwñe æfenlega þioone, Amen.

## Bloodenu Lambsins var brugded a Dyrustafena.

SO audkieñer Blooded JEsu vor Hiörtu, og hlijfer oss fyrer Fordiarfaranum; So hefur þu Drotteñ JEsu yfer marga heidna stöckt þijnu Bloode. Es. 13. Þvi þitt Blood er þad adreyfingar Blood, sem betra hefur ad seigia eñ Abels Blood, Ebr. 12. Þviad þitt Blood hroopar i Hiörtum Trwadra, þijna skiæra Naad og Syndaña Fyrergiefning.

DRotteñ JEsu, stöcktu eirneñ þijnu Bloode a mijna Saal, so hun hrein verde; Þvo mig so eg Sniohvytur verde, Ps. 51. Audkieñ mig þijnu Bloode i mitt Eñe, og insigla mig þiñ Þioon, þier til Handa, so mijn Saal frelsest fraa Glataranum, Amen. Open. 7.

## Osyrdra Brauda var neitt med Paaskalambenu.

SJa þu eirneñ so til Saal mijn, ad þu burt hreinser þad gamla Swrdeig, so þu nijtt Deig verder. 1. Cor. 5. Laat af illu, og lær gott ad giöra. Vert Heilög þvi DRottiñ Gud þiñ er Heilagur; Laat

Syndena ei Drottna i þijnum daudlegum Lijkama, so þu hlijder heñe epter heñar Gyrndum, Esa. 1. Þvi vier erum skullbundner, ecke vid Hollded, ad vier epter þvi lifum, Rom. 6. Þvi ef þu lifer epter Holldenu, þa muntu deya; Eñ ef þu deyder med Andanum Holldsins Gyrnder, þa muntu lifa.

Hiaalpa mier DRotteñ miñ, þu verduga haaleita Paaskalamb, ad eg øllum Stundum strijde Mañlega, og Trwñe og goodre Samvisku verde halldande, allt til enda Dags, Amen.

Gydingarner aatu beiskar Surur vid sijnu Paaskalambe.

GLeym þu ecke helldur mijn Saal þessu beiska Sallte, sem er i Krossburde og Mootgange faled, tak helldur aa þig Herrans Ok, og fylg hønum epter, Matth. 11. Þvi saa er ei so giører, hañ kañ hañs Læresveirn ecke ad vera. Heyr þad mijn Saal; DRotteñ vill ad Christner Meñ skule bera siñ Kross, Gydingar bera hañ ecke, Tyrktar bera hañ ecke, þvi þeir þeckia ecke hañs Nafn. O! HErra JEsu Christe, hvad heilnæmur er þiñ Kross; Þvi þa Hørmungeñ er fyrer Høndum, þa leita Meñ þijn, og þa þu hyrter oss, þa køllum vier graatande til

þijn,

þijn, Es. 26. Þa þu hirter, þa elskar þu, og þa þu lijtelæckar, þa upphefur þu, Apoc. 5.

O! þu þolenmooda Lamb Guds, sem i Kross og Pijnu undan oss ert geingen, og med stoore Hoogværd og Lijtelæte oss Dæme giefed hefur; Gief mier under þitt Ok æævallt viliugum ad gæꝑgna, og þier med allre Hlijdne epter ad fylgia.

## Vorar Lendar skulu vera umgyrdtar Daglega.

SO skalltu lijka mijn Sæl, umgyrda þijnar Lendar med Sanleika, Eph. 6. Riettlæted sie Bellte þinna Lenda, og Trwenn Lynde þinna Nyrna, Esa. 11.

O! DRotten JEsu, gyrd þu mig fast med Bellte þijns Riettlætis, og stijr mier med Anda Sanleiksins, so ad eg kunne jafnan læta æfinlegt mijna Kostgiæfne, hier Alvarlega og Strafflaust ad þioona, i mijnu Kalle og Embætte, ad eg þig i Minne hafe, og sem eirn goodur Strijdsmadur stande, 1. Tim. 2. Læt mig fordast Æskunnar Vellysting, og sækia epter Riettlætenu, Trwnne, Kiærleikanum, og Fridnum. Læt mig æævallt þad eina gyrnast, sem þier vel þocknast, og i þann Mæta sijne og stadfeste, ad þu hafer mig kallad og wtvaled til þess Eilijfa Lijfs.

## Gydingar tooku a sig sijna Skoo, edur Stijgviel.

SO eigum vier ætijd ad vera Skoofatader. Vertu lijka Skooklædd til þinna Foota mijn Sæl, og til Reidu ad reka Erende DRottens, og giøra hanns Skipun,

un, Eph. 6. Gack Forsiaulega hia þeim sem þar fyrer utañ eru, Gal. 4. Hvad Sañarlegt er, Ærlegt, Riettlaatt, Loflegt, Agiætt, hvad Vel fer, sie þar Dijrd nockur i, sie þar Loflegt nockud i, hura þu þar epter.

Gief mier miñ HErra Gud, ad eg so ende mitt Skeid, ad eg Riettlætesins Coronu ødlest, sem þu DRottiñ Riettlaatur Domare mier giefa munt a þeim Deige, Amen.

## Stafureñ skal i Hende vera, þad merker Guds Ord fyrer Augum ad hafa.

HAF eirneñ Stafeñ i Hende þiñe mijn Saal, 1. Tim. 1. Pad er, Haf Guds Ord fyrer Augum, halltu jafnañ a Fyrermyndan þess Hiaalpræðis Ords, sem þu heyrt hefur, af Trwñe a JEsum Christum, auk þar ecke vid, tak þar ecke af. Pvi øll hañs Ord eru Forklaarud, og eru eirn Skiølldur sterkur þim sim a hañ trwa, Pvi þo Himen og Jørd forgaange, þa muntu hañs Ordum samt hallda, þvi Ord Drottens varer Eilijflega, og aller þeir sig vid þad hallda, og þar epter giøra, Esa. 40.

Hiaalpa þu mier DRotteñ, ad ei læte eg velkia mier med Imislegum Añarlegum Kieñingum, Helldur læt þitt Ord Rijkuglega byggia og bwa i mijnu Hiarta, so þad aavallt sie Lioos miña Foota, og Lios a mijnum Veige, Læt þad vera miñ Staf og mijna Stod,

vid

vid hvoria eg mig ſtidic Aſe alla, Amen. Col. 3. Pſ. 119.

## Gydingar ætu ſitt Paaſkalamb Standande, eins og þeir Ferdbwner være.

SJaa þu eirneñ ſo til mijn Saal, ad þu hvorn Tijma, ſiert ſo Reidubweñ, ſem þu ætter ſnøgglega ad fara af ſtad hiedañ, og i þad Eilijfa Fødurland, Pſalm. 91. Laat ei villa þig nie hindra a þijnu Hlaupe, og wtvel þier Veg Sañleikans, 1. Pet. 2. Fylg Orde DRottens, og Footſporum þijns Lauſnara JEſu Chriſti, Eſa. 30. Þvi þetta er ſiv rietta Leid, Añarſtadar ſkalltu hverge vijkia til vinſtre eda hægre Handar. Jaa, mijn Saal, Vier høfum hier øngvañ Laangvarande Samaſtad edur Viſt. Þar fyrer leita þeſſ Okomna Stadar, og vit, ad vor Uñgeingne, vort Heimele er i Himnenum, hvadañ vier væntum Frelſarans JEſu Chriſti, ſem er DRotteñ, hvør ed vora Lijtelmootlega Lijkame mun forklaara, og Samlijka giøra ſijnum Forklaarudum Lijkama, Phil. 3.

Miñ Gud og HErra JEſu Chriſte, Hiaalpa þu mier, ſo ad eg jafnañ vake og bidie, þvi eg veit ei nær Tijmeñ er komeñ, Marc. 13. Gief mier Trwlyndum ad vera allt til Dauda, ſo eg Coronu Lijffins ødleſt, Apoc. 2. Miñ Lauſnare, eg gyrneſt Laus ad vera hiedañ, og vera hia þier. Nær mun eg ſiaa mijna Holldlega Byrde

de af ad leggia, i þiñ Føgnud iñgaanga, og þa riettu Hvijld ad. ødlast? Phil. 2. Nær skal eg ferdast iñ i þijna Dijrdlegu og Eilijfu Borg? Nær aa eg ad naalgast þiñ Heilaga Eingla Koor, so eg prijse þitt Heilaga Nafn, Ebre. 13.

Miñ Frelsare, Laat mig til þijn koma, og þitt Auglit skoda, hia þier vera, og þijna Dijrd lijta. Uñ mier ad eg sie kvittur uñ allt Illt, og Daudans Skielfing ei hitte, Helldur med Abraham, Isaac og Jacob, Jaa, med þier sialfum og øllum þijnum Heiløgum til Bords sitie, og þess rietta Paaskalambs neyta meige, Amen.

# Fiorde Capitule.

## Uñ þa Haaleitu Kvølldmaaltijd DRottens vors JEsu Christi.

Og sem þeir til Bords saatu, a þeirre sømu Noottu, sem JEsus var sviken, Tok hañ Brauded, þackade, braut þad, gaf þad sijnum Læresveinum, og sagde: Taked og eted, Þad er miñ Lijkame, sem fyrer ydur verdur giefeñ, Giored þad i mijna Miñing.

Sømuleides took hañ Kaleikeñ, epter Kvølldmaaltijdena, Þackade, gaf þeim hañ og sagde, Drecked aller hier af, Þesse Kaleikur er þad Nya Testamentum, i mijnu Bloode, sem fyrer ydur og marga wthellest, til Fyrergiefningar Syndaña,

Þetta

Þetta giored, so opt sem þier það drecked, i minna Miñing Og þeir drucku aller þar af.

## Eintaled.

DRottens Kvølldmaaltijd er visselegt Naadarmerke þess nya Testamentis, oss giefed i staðeñ þess gamla Paaskalambsins, i hvørre Maaltijd Christus JEsus oss sedur med sijnum søñum Lijkama og Bloode.

Hvad Dijrdarleg Kvølldmaaltijd er þetta? Hvad aagiætlegt er þaangad ad hyra? Eg kañ ecke noogu frekt ad daadst ad slijku Rijkedæme þiñar Naadar, ÓDRotteñ JEsu, ad þu ossi þvi nya Testamente, edur þeim nya Saattmaala, ad auk þijns Ords miñ vora Endurlausn, Soddañ Naadareñar Teikn og Stadfestu giefed hefur og so dyrmætum Fiesiod med oss skipter? Hvad kuñer þu framar ad giora? Hvørneñ maatter þu vor Hiortu framar hugga? Miñ Gud, O! hvad Kostulegt Testament hefur þu giort, Hvad stoor Gotz hefur þu skeinkt og epter þig laated?

Adrer Høfdingiar nær þeir deya, þa

laata

laxta þeir epter Slot og Borger, Gull og Giersemar. Opt byggia þeir stoor kostuleg Hws, og prijdelega Legstade og Leide, til sin̄ ar Min̄ingar, sem þo er allt Forgeingelegt.

Eñ þu DRotteñ JEsu, þu hefur oss i þijna Miñing, þig sialfañ og þitt Holld og Blood til Testamentis giefed, og til Fædu skickad. Jaa, HErra JEsu, þad er þijn Maaltijd, sem þu hefur iñsett sialfur fyrer þijna Trwada. Þetta er þad veglega Bord, sem þu hefur þijnum Bornum fyrerbwed, þar af þu oss sialfur sedur med þijnum Heilaga Lijkama, og sialfur nærer oss med þijnu sañarlegu Bloode, Ps. 21. Sælertu mijn Saal, sin̄ til þeirrar Lambsins Kvølldmaaltijdar ert kølløð, sem Drotteñ Zebaoth þiñ HErra tilreidt hefur a sijnu Heilaga Fialle, fyrer øllu Folke, Apo. 19. Skunda og kom mijn Saal, þvi ad allt er þar til Reidu bwed. Kaup og et, kom og kaup aan Peninga, og fyrer eckert, bæde Vijn og Miolk, Esa. 55. Þvi eyde þier Peningum, þar sem eckert Braud er til Kaups? Siaa, hier er DRotteñ, þad sañа Lijfsins Braud, hvor til hañs kiemur, mun ei hwngra, og hver a hañ trwer, hañ
mun

munn ei þyrsta, Joh. 6.

Minn HErra JEsu Christe, lat mijna Saal riette lega langa epter þinne Maaltijd, og mitt Hiarta al-varlegt Hungur og Þorsta hafa, epter þessare Himmeskn Fædu. Þu lifande Braud, af Himnum komed, Sed þu mijna Hungrada Saal med þinne Huggan, uppfyll hana med þijnum Gooda, so eg i þijnu Auglite saddur og Gledefullur lifi, Amen.

## Umm Verdugra og Overdugra Berging, Maaltijdar DRottens.

EJNN siaadu til mijn Saal, ad þu ecke Overdug, þad er, aan riettrar Jdranar eter af þessu Braude. Vackta þig, ad þu ei med Vantrwudu Hiarta af Kaleik DRottens drecker. Þvi hvør þar af etur Overdugur edur dreckur, hann etur og dreck ur sialfum sier Dooms Afelle, i þvi hann giorer ei Greinarmun a mille Lijkama DRottens og annarar Fædu. Jaa, mijn Saal, Þu kannt ecke under eins ad drecka Kaleik DRottens, og Diøfulsins, Og ecke under eins ad bergia af Borde Drottens og Diøfulsins, 1. Cor. 10.

Þar fyrer, Bw þig til med einum hreinum og fögrum Silke-Klædum, sem er Riettlæte þeirra Heilögu. Þetta er þad rietta Haatijdar Klæde, sem er Trwenn a

Christum med goodre Samvitsku. Neyn sialfa þig, og kom til þessarar Maaltijdar med saňre Jdran. Dæm þig sialf, so verdur þu ecke af DRottne dæmd.

Miñ HErra JEsu, eg medkieñe mijnar Synder, og mig angra þær i mijnu Hiarta. Eg sie ad mijnar Skiemder eru illar, og mijnar Afomur Banvænar, Þvi snij eg mier til þijn miñ Gud, Snw þu lijka þier til mijn, med þiñe Huggun. Eg trwe a þitt Nafn, styrk þu mig med þiñe Nաd, og laat mig so af þessu Braude eta, og af þessum Kaleik drecka, ad eg med riettre Jdran sie Veroldeñe Fraasnweñ, og þier i allre Eilijfd Samteingdur verde.

Miñ Saaluhiaalpare, eg veit ad þijn Myskun er stærre eñ miñ Overdugleike og þijn Giæska meire eñ mijn Vesolld; Þess veykare sem eg verd og Aumre, þess framar Þarf eg þiñar Naadar; Þar fyrer gief þu mier Drottiñ, ad eg til þijns Bords gaange med siødugu Trauste, og þar af berge med heilogu Hiarta, so eg blijfe i þier, og þu i mier, og eg alldrei fra þier skileñ verde ad eilijfu. Gief framveigis þiñ Heilaga Anda i mitt Hiarta, og giør mig ad soddañ Maňeskiu, sem i þijnum Bodordum gaange; og þijna Dooma (þad er, hvad þu dæmer riett ad vera) hallde og fullgiøre, Ezech. 36.

## Nytsemd og Gagn Kvølldmaaltijdar DRottens.

SO opt sem þu etur af þessu Braude, miñ Saal, edur dreckur af þessum Kaleik, þa skalltu kuñgiøra Dauda DRottens þijns, þar til hañ kiemur.

1 Jaa miñ HErra JEsu Christe, þesse þijn

þijn Heilaga Kvølldmaaltijd, er mier ørugguur Vitnisburdur, ad þu hefur ei Einglaña helldur Mañaña Holld og Naatturu uppa þig teked, miña vegna, og munt heñe æfenlega hallda.

Gief mier miñ Lausnare, ad eg ad þessum Leyndar Doome jafnañ dæest, og af Hiarta mig gledie þar af, ad þu hefur mig so nært, og naakvæmlega samteingt þig vid mig vesæla Mañeskiu.

2 DRottiñ miñ JEsu, þijn Kvølldmaaltijd er mier eirneñ oraskanlegt Jñsigle, med hvøriu þu mier reiknar og eignar þitt Riettlæte sem þu mier med þijnu Bloode afrekad hefur, styrk þu mijna Trw ad eg avallt og eflaust trwe, og stadfastlega vite, ad eg sie viss og obrygdanlegur Erfinge allra þiña Giæda, og þiñar Naadar, Amen, Rom. 4. 1. Cor. 10.

3 DRotteñ miñ JEsu, þijn Kvølldmaaltijd er mier og eirneñ Naadareñar Merke, giorer mig fullvissañ og eflausañ um þad, ad eg sie þier samteingdur, so sem Limerner vid þiñ Lijkama. Siaa þu ert Vijntried, eñ eg er Kvistureñ. Col. 1.

Hiaalpa þu mier, so ad eg jafnañ stødugur

ugur og stadfastur blijfe vid þig, fære Kraꝑt og Mætt af þier, og gooda Averxte fære. Þu ert Hofuded, eñ eg er þiñ Limur; Gief ad eg æwallt af þier Lijf og Anda þigge, so ad mig hvørke komnir nie Okomner Hluter fra þier skilie, Rom. 8.

4 O Nottiñ JEsu, þijn Kvølldmaaltijd er mier øruggur Vitnisburdur, ad þu framveigis vilier i mijnu Hiarta biggia, og mier med þijnum Heilaga Anda krøptuglega stijra.

Lææt mig eirneñ þijna Huggun i mijnu Hiarta fiña, ad eg blijfe i Samfielagskap þijns Heilaga Anda, og ad hañ Vitnisburd giefe mijnum Anda, ad eg sie Guds Barn, Rom. 8.

5 Herra JEsu, þijn Kvølldmaaltijd er mier søñ Bevijsing og merke, ad þu vilier til Heimsins enda, þijna Christne a Jørduñe hafa, sem þijna Maaltijd i þijna Miñing hallda skule, þig lofa, þiñ Dauda kuñgiøra skule, þangad til þu kiemur, 1. Cor. 11.

Miñ HErra JEsu; Halld mier og ødrum i riettre Meiningu og Medferd þiñar maaltijdar; Lææt mig verda riettañ Lim þiñar Christne, og eirn Saud i þijnum Haga,

Haga, hvørn eingeñ kañ wr þiñe Hende ad slijta, Ps. 74.

6 Miñ HErra JEsu, þijn Kvølldmaaltijd er mier og eirn obrigdaulegur Pantur miñar Uppriſu a Dooms deige; Þviad fyrſt þu Fæder mig med þijnu Heilaga Hollde og Bloode, og mig þier ſo ſameinger, þa muntu ecke yfergiefa mitt Holld i Daudanum (þvi þad er eirn þiñ Limur) helldur muntu uppvekia þad, og þijnum dyrdarlega Lijkama ſamlykt giøra, Amen.

7. Miñ HErra og miñ Gud iñſigla þu þeſſar Hugganer i mijnu Hiarta, og gief ad eg mier jafnañ til þijns Vords hallde; So ad mijn Trw til þijn þrooveſt, og Elſkañ til þijn vaxe, mijn Þolenmæde under allrahanda Mootgaange aukeſt, og miñ ſtødugleike i øllu goodu, þier loflegur, mier gagnlegur verde.

## Añad Gagn Kvølldmaaltijdareñar, er Hiartanlegt Packlæte, fyrer alla Velgiørninga DRottens.

VErtu nu glød Saal mijn, vid Bord þijns DRottins, og prijſa þiñ Frelſara ſem ſo dyrdlega Hlute hefur giørt vid þig; Hañ ſem þiña vegna er Madur ordeñ, og i ſmaanarlegañ Kroſſens Dauda giefeñ er. Hañ ſem þig hefur ad ſijnu Barne giørt, fæder og endurnærer þig, ſo ſem Fadereñ ſijn Børn vid ſitt Bord. Pſalm. 2.

Eg þacka þier DRotteñ af øllu Hiarta, i Raade þeirra Gudhræddu, og i þeirra Samkundum; Mykel eru Verk DRottins; Hvør ad þeim gaaer, ſaa hefur Glede af þeim. Hvad hellſt hañ ſkyckar, þad er Lofligt og Vegligt, og hañs Riettlæti varer Eilijflega. Hañ hefur iñſett Miñing ſiña Daaſemda, ſa Naaduge og Myſkunſame HErra, hañ giefur þeim Fædu ſem hañ ottaſt, hañ huxar æfeulega epter ſijnum Saattmaala, hũ ſender Endurlauſn ſijnu Foolke, ſo hũs Saattmaale vare æfenlega.

Myſkunſamur og Naadugur er DRotteñ, þoleñmoodur og næſta Goodſamur. Hañ høndlar ecke vid oſs epter vorum Syndum, og endurgielldur oſs ecke epter vorum Misgiørnijngum. Þvi ſo haatt ſiñ Himeneñ er fraa Jørduñe, ſo lætur hañ ſijna Naad mykla vera yfer þeim ſem hañ ottaſt. So laangt ſem Auſtred er fraa Veſtre, ſo laangt lætur hañ vorar Synder fra oſs. So ſem eirn Fader aumkar ſig yfer ſijnum Børnum, ſo Myſkunar ſig Drotteñ yfer þeim ſem hañ ottaſt. Myſkun Drottens varer fra Eilijfd til Eilijfdar yfer þeim hañ ottaſt, og hañs Riettlæte er yfer þeirra

ra Barna Børnum sem hañs Saattmaala hallda, og epter hañs Bodordum hyra, ad þeir life epter þeim. Lofadur sie DRottiñ mijns Hiaalpræðis, sem so vel til mijn giorer, Amen. Psal. 103.

Pad þridia Gagn, er stadføst Trwareñar Jaatning.

HAf Hyran þar a mijn Saal, ad þu optlega neyter af Bordum þijns DRottins, og med þvi openberlega jaater, i moote Diøflenum, og øllum Helvijtis Borgarhlidum, ad þu Christo tilheyrer, og a hañs Nafn trwer, Marc. 8.

Laattu mig DRotteñ ei vera i Raade þeirra Ogudlegu, og ecke sitia i hia þeim Dramblaatu; Helldur so sem hlijded Barn vera vid þitt Bord, og med þier (sem ert miñ Fader) Naadareñar Maaltijd hallda. Laat mig a þitt Nafn af Hiarta Trwa, so eg Riettlaatur verde; Laat mig þig med Muñenum jaata, so eg hoolpeñ verde, Amen.

Fiorda Gagn, er Aminning til Broodurlegs Kiærleika.

LEgg þad eirneñ i Miñe mijn Saal, þesse Kvølldmaaltijd er þeim Trwudu eitt

Kiærleiks Merke iñbyrdes. Þvi so sem vier aller af einu Braude etum, so erum vier aller eirn Lijkame, hvørs Høfud ad er Christur, sem i oss sijnum Limum Kroptugur er, 1. Cor. 10. Ephe. 5.

HErra JEsu Christe, wthell þijnum Heilaga Anda yfer þaug Børn, sem til þijns Bórds sitia, so ad vier aller med Kiærleiksins Bande Samteingiunst, i Elsku og Fride fyrer þier lifum, og þitt heilaga Nafn samhuga lofa kyñum ad Eilijfu, Amen.

# Fimte Capitule.

Um̃ Foota þvottiñ; Þar um̃ skrifar S. Johañes i 13. Cap.

ENN fyrer Paaskahaatijdena (þad var adfangadags Kvøllded) þa Jesus visse ad hañs Stund var komeñ, ad skiliast vid þessa Verølld og fara til Fødursins, so sem hañ hafde elskad sijna sem i Heimenum voru, so elskade hañ þa allt til Enda.

Og epter Kvølldmaaltijdena, þa ed Andskoteñ hafde Judas Ischariot Simons syne i Hiarta Blaased, ad hañ forriede JEsum, visse JEsus ad Fadereñ hafde allt i hañs Hendur giefed, og ad hañ af Gude være komeñ, og til Guds fære hañ, þa stood hañ upp fra Kvølldmaaltijdeñe, lagde af

sijn

siin Klæde, took Lijndwk og batt um̃ sig; Þar epter steypte han̄ Vatne i Mundlaug, og took til ad þvo Fæturnar a sinum Lære-sveinum, og þurkade þa med þeim Lijndwke, sem han̄ hafde um̃ sig bunded.

Þa kom han̄ ad Simone Petro, og han̄ sagde til JEsum; Skalltu þvo mijnar Fætur? JEsus svarade og sagde; Hvad eg nu giøre veistu ei; En̄ seirna muntu vita þad. Þa sagde Petur til han̄s; Alldrei skalltu mijnar Fætur þvo. JEsus andsvarade hønum; Ef eg þvæ þig ecke, þa hefur þu ecke neitt Hlutskipte med mier.

Simon Petur sagde til han̄s: HErra, Ei ad eins Fæturnar, helldur og eirnen̄ Høfud og Hendur. JEsus andsvarade hønum: Hvør Þveigen̄ er, han̄ þarf ei ad þvo nema Fæturnar, helldur er han̄ allur hrein̄. Og þier erud Hreiner, en̄ ecke aller. Þvi han̄ visse vel, hvør han̄ munde forraada, Þvi sagde han̄: Þier erud ecke aller hreiner.

En̄ sem han̄ hafde nu þeirra Fætur þveiged, took han̄ siin Klæde, setteſt nidur aptur, og sagde til þeirra: Vite þier hvad eg hefe giørt ydur? Þier kalled mig Meist-

ara og HErra, Pier taled þad og riett, þvi eg er þad, Og ef eg ydar Meistare hef nu ydar Fætur þveiged, þa skulu þier og þvo hvør añars Fætur. Eitt Epterdæme hef eg giefed ydur, ad þier giøred so sem eg hefe ydur giørt. Sañlega seige eg ydur, Pioonen̄ er ecke yfer sijnum Meistara, og ecke Sendemaduren̄ yfer þeim hañ sender.

Fyrst þier nu slijkt vited, þa eru þier sæler ef þier þad giøred. Eg seige þad ecke um̄ ydur alla, eg veit hvøria eg wtvaled hefe, helldur so, ad Ritningen̄ uppfylleſt; Sa mitt Braud etur, hañ tredur mig med Footum. Nu seige eg ydur þad fyrer, ædur en̄ þad skiedur, so ad þa þad er skied, ad þier þa trwed, ad eg sie sa same. Sañlega, Sañlega seige eg ydur, hvør sem medtekur þañ eg sende, sa medtekur mig; En̄ hvør mig medtekur, sa medtekur þañ sem mig sendt hefur.

# Eintaled.

## Um̄ Elsku HErrans Christi, til siña Læresveina.

Legg hier fyrst a Hiartad, Saal mijn, Elsku og breñande Kiærleika þijns Lausnara til Postulaña og til

allra hañs sem i Verølldeñe eru. Eñ þeir eru hañs, sem hañs Fødurs Vilia giora, þess sem a Himnum er. Jaa, þeir sem Guds Ord heyra, og breyta þar epter, og af soddañ Oseigianlegre Elsku sem hañ hafde til þeirra, tekur hañ þad til Bragds, ad þvo þeirra Fætur sialfur.

Mijn Saal, hugleid og legg slijkt a Hiarta, Hvad mikel ad er Ast og Elska þijns Lausnara, vid oss Aumar Vesælar Mañeskiur. Hvad er þad hañ hefur epterskiled, eda Ogiørt laated? Miñ HErra, miñ Lausnare, Hvad høfum vier þier ad endurgiallda? Hvørneñ eigum vier ad hegda oss vid þig?

Hvørneñ kuñum vier þier maklega ad þacka, DRotteñ JEsu? Laat mig i stadeñ elska þig Æfenlega. Laat mig i þier einum miñ Føgnud, og mijna Glede hafa, ad eg af þeirre Elsku synge og seige. Af Hiarta kiærañ hefe eg þig DRotteñ, mitt Biarg, mijn Borg, miñ Frelsare, miñ Gud, miñ Styrkur, a hvørn eg treyste, Ps. 18. Jaa, miñ DRotteñ, þu veitst ad eg elska þig; Þu miñ Elskulege veitst ad mijn Saal hefur þig kiærañ, og mitt Hiarta hefur

hefur æavallt Glede og Huggun hia þier Joh. 21. Cant. 1.

O! þu Elskulege HErra, O! goode JEsu mijn Elska og miñ Gud, Lœttu mig breña af þiñe Elsku, þijnum Kiærleika, þijnum Sætleika, Føgnude og Glede, so þad þrioote alldrei i mijnu Hiarta og Miñe. Lœt mig þig elska af Sœl, og af øllum Mætte þig hafa i Hiarta og Muñe, og fyrer mijnum Augum, so ad eingeñ Oþeyreleg Ast nie Elska fiñist, nie Stad hafe i mijnu Hiarta.

## Pad mikla Lijtelæte DRottens i Foota-Þvottenum.

GLeym þu ecke mijn Sœl, þvi mikla Lijtelæte þijns DRottens JEsu, Siœ þu, hañ stendur upp fra Bordenu, leggur af sier sitt yfer Klæde, bindur uñ sig Lijn-Dwk, heller Vatne i Mundlang, og tekur til ad þvo og þurka Fætur siña Læresveina.

O! þu DRottenñ JEsu, þu rietta Lijtelæte, þu hefur allt þetta giørt siœlfur, Þu hefder ad søñu einhvørium þiña Læresveina mœtt skipa þad; Eñ þu hneigder þig siœlfur, og lautst ad þeirra Footum, þvoder og þurkader þa med þijnum eigeñ Høndum. Jhvørn mœta kuñe nockur Þræll eda Þienare Audmiwkare ad vera?

Lœt þier mijn Sœl til Hiarta gœnga

soddañ

soddañ Audmykt, sem og Petrus giørde þa honum: þotte þetta um̃ Of, og sagde: Drotteñ, alldrei skalltu mijnar Fætur þvo.

O! hvilijk Audmykt og Faadæmelegt Lijtelæte er þetta? Eñ hvor er þo so stoor sem DRotteñ vor Gud? Sem sig hefur so hatt settañ, eñ sier þo a þad sim̃ laagt er, bæde a Himne og a Jordu. Jaa, Haatt sitiande er DRotteñ, eñ lijtur þo þad sem laagt er, og þecker ha Stolltu af Fiarlægd. Hañ stendur a moote Dramblaatum, eñ þeim Lijtelaatu giefur hañ Naad. Hañ hrinder þeim Volldugu af Stoole, eñ upphefur Lijtelaata.

Hiaalpa þu mier DRotteñ miñ, so ad eg meige Hiartans Lijtelæte ødlast, Laat mitt Hiarta ecke dramba, og mijn Augn ecke Støllt verda. Þviad Dramblæted er ecke gott, og kiemur alldrei nema Illu af stad. Miñ goode JEsu, Send þu mier Naad, ad eg mig Lijtelæcke under þijna Volldugu Hønd, so þu upphefier mig þa Tijmeñ kiemur. Miñ sæte JEsu, sigra þu miñ Ofstopa med þiñe Hoogværd, og asmaa mijna Drambseme med þijnu Lijtelæte.

DRotteñ hreinsar Postulana med Foota-Þvottenum, og vijger þa til Predikunar Embættis.

SO sem Aaron og hañs Syner þvodu Hendur sijnar og Fætur, þa þeir i Vitnisburdar Tialldbuudena geingu, So giør

de

de og DRottēn vid ſijna Læreſveina. Han̄ þvode þeirra Fætr, og hreina giørde Sonu Levi, þa hū̄ þeim Predikunar Embætted a Hendur befalade, og þa wt un̄ Heimen̄ ſende, til ad kien̄a. Skoda þar fyrer mijn Saal, hvad Elſkuleger eru a Fiallenu Fætur þeirra ſem Friden̄ boda, og þeirra ſem þad Gooda kun̄giøra, og af Hiaalpræden̄u kien̄a, og ſeigia til Zyon: Þin̄ Gud er Kong ur, þar fyrer ſkalltu þeckia þa ſem þin̄a vegna Erfida, og þier Forſtødu veita, i DRottne, og þig aumin̄a, haf þa þeſſ kiærare þeirra Erfides vegna, Medtak þa ſo ſem Eingel DRottens. Jaa, ſo ſem Chriſtum ſiaalfan̄, þvi þeir eru Sendebodar i Chriſti Stad.

Hiaalpa mier þar til DRotten̄, ad eg hlijde mijnum Kien̄eſødur, þvi han̄ vaker yfer min̄e Saalu, ſo ſem ſa, er þar ſkal Reikningſkap af ſtanda. Gief ad eg i Heidre hafe þijna Ordſins Þienara, og þa Olldunga ſem gooda Forſtødu hafa, Tvøfalldrar Æru verduga hallde, einkum þa ſem, Erfida i Ordſins Kien̄ingu.

## Foota-Þvotturen̄ þijder og merker eirnen̄ Hreinſun vorra Synda, fyrer Blooded JEſu Chriſti.

HEyr lijka þad mijn Saal, hvad DRotten̄ ſeiger til Petrum. Þvoe eg þig ecke, ſo

so hefur þu øngva Hlutdeilld med mier. DRotteñ miñ, aller erum vier Ohreiner, og allt vort Riettlæte er sem saurugt Klæde, Esa. 64. Hvad er Madureñ þess, ad hañ kuñe Hreiñ ad vera? Eda ad sa kuñe Riettlaatur ad vera sem af Kviñuñe er boreñ? Siaa, DRotteñ, af øllum þijnum Pioonum, er þar ecke eirn Flecklaus, Pu hefur eirneñ hia Einglunum Raanglæte funded, (Brest) og i þijnu Auglite eru ecke Stiørnurnar hreinar.

Eñ þu ert vort Hiaalpræde, þu sem Zyons Saurende afþvær, og Bloodskulld Jerusalem tekur af heñe. Pu hefur siaalfur afmaad vorar Synder. Pu hefur mig elskad og mig hreinsad af Syndunum med þijnu Bloode, 1. Joh. 1. Ad vijsu, þitt Blood DRotteñ JEsu, þvær og hreinsar mig af øllum mijnum Syndum.

Vert mier Naadugur, miñ Frelsare, epter þiñe Giæsku, og afmaa mijnar Synder epter þiñe mikellre Myskunseme. Pvo vel af mier mijnar Synder, og hreinsa mig af mijnum Misgiørningum. Skapa þu DRottiñ i mier hreint Hiarta, og gief mier eirn nijañ stødugañ Anda, þvo mijna Saal af mijnum Misgiørningum, hvar med eg hefe þig styggdañ, so sent þu hefur mier fyrerheited og tilsagt, Ps. 51: Eg vil þa hreina giøra, og þeir skulu mitt Folk vera, Eg vil þeirra Gud vera, og etc. Ezech. 36.

Foota.

Foota-Pvottureñ þijder eirneñ Endurnij-
ung Lijfdagaña, ad Madur þvoe sig siælfur, Pad
ser, Take sier Vara fyrer Syndeñe.

NU vegna þeß mijn Saal, þu ert þveigeñ og hreinsud i þijnu Hiarta, fyrer Trw rietta, so þvo nu og lijka þijnar Fætur, þvi hver þveigeñ er (seiger D Motteñ) hañ þarf ecke meira ad þvo eñ Fæturnar, þvi hañ er allr hreiñ. Og eckert er fordæmanlegt a þeim sem i JEsu Christo eru, hvorier ecke epter Holldenu helldur epter Andanum ganga. Par fyrer mijn Saal, þvo þu Fætur a þijnum Læresveinum, þad er, þitt Skilningar Siñe, þiñ Vilia, þiñ Hug og Pancka, og alla þijna Lime. Pvi i Sañleika eru þetta þijns Hiarta Pienarar og þrælar, sem þijna Skipun giora, þeir þijns Hollds Vilia avallt giort hafa. Siaa, eingeñ Madur veit hvad opt hañ fellur; Pvi saa Riettlaate fellur sioſiñum, og rijs upp aptur. Psalm. 19. þar fyrer skalltu þvo þa; So ad þeir upphiedañ i Andanum gange, so sem þeir hafa hijngad til Holldenu þioonad. Pvi hafer þu lied aadur þijna Limu og Lidu, til ad þioona Ohreinleikanum, fra einne Synd i adra, þa gief þaa nu og liaa
til

til ad þioona Riettlætenu, so þeir helger verde.

Hiaalpa mier DRotteñ ad eg mitt Hiarta þvoe af allre Illsku, so eg hoolpeñ verde. Laat mig hata þad Vonda, eñ halldast til þess gooda, Jer. 4. Rom. 12. Uñ mier lijka mijn Augu ad þvo, ad eg þaug geyme, so þaug skygnest ecke epter añarlegum onytum Lærdoome, helldur ad eg þeim upp til þijn reñe, þu sem a Himnum situr. Jaa, so sem Þienararner siaa a Hendur siña DRottna, og Ambaattaña Augu a Hendur siña Mædra, sier þadañ Biargar og Næringar væntande, so laat mijn Augu aavallt siaa og horfa a þig miñ DRottiñ, þaangad til þu hiaalpar mier, Psalm. 119. Psalm. 124. DRotteñ, hneyg þu lijka mijn Eyru, so ad þaug heyre Ord þeirra Hyggnu; Þvi þad Eyra sem Umvønduneñe hlijder, mun byggia a medal þeirra hyggnu. Gief mier eirneñ, ad eg mijnar Hendur þvoe, og med Saklevse hreinum hallde; Laat mig þær breida ut fyrer þa Faatæku, og þær rietta ad þeim Þurftugu. Ps. 24. Laat mig aasamt og mijnar Fætur þvo og venia þa aa Veg Fridarens; Laat mig ecke sitia i Raade þeirra Ogudlegu, og ecke gaanga a Veige þeirra Idrunarlausu, Luc. 2. Psalm. 1.

## Foota-Þvotturen þijder eirneñ Broodurlegañ Kiærleika, sem hylur Fiollda Syndaña.

HAf þu og vakt þar aa, miin Saal, ad DRotteñ hefur þetta þier til Fyrermyndar giort, so þu skyllder hañs Footsporum fylgia epter. Þier kalled mig Meistara og HErra (seiger hañ) Og þier seiged þad riett, þvi eg er hñ. Og ef eg ydar Meistare og Herra, hefe þveiged ydar Fætur, þa

skului þier og eirneñ þvo hvor añars Fætur, Þetta Epterdæme hefe eg ydur giefed.

Sæl ertu miin Saal, sem þetta veist, ef þu þad giører. Siaa þar fyrer til, ad þu þvoer Fætur Heilagra, og añest Naudþurfter þeirra. Laat þijna Elsku vera ofalska, og Kiærleikañ Hiartgrooeñ.

Tak vakt a þessum sijdustum Døgum sem nu eru yfer oss komner, og þeink hvad Drottiñ sagt hefur; Ad aa sijdustum Døgum munde Raanglæted yfergaanga, og Kiærleikureñ wt slockna i margra Hiørtum. Siaa þu, vier erum þeir, yfer hvøria þessa Heims Ende komeñ er, þvi fylg nu þijnum Drottne epter, so sem aastwdlegt Barn, og gaack fram i Kiærleikanum.

Laattu mig DRottiñ miñ JEsu ecke launa Jllt med illu, helldur Syndaña fiølld a hylia med Kiærleikanum. Laat mig øllum Stundum heyrelega Virding sijna hvørium Mañe, og fyrre til Vilia vera ødrum. Laat mig hafa allt Kapp aa ad hafa Samhellde og Eining Andans fyrer Band Fridarens, med allre Hoogværd og Lijtelæte.

# Siøtte Capitule.

Hvorneñ DRotteñ giører siñ Forrædara openberañ. Giører Petro Amiñing, um sitt Ostraust aa siaalfum sier; Og þa adra Læresveina aagiætlega huggar og þeim kieñer.

Matth. 26. Marc. 14. Luc. 22. Joh. 14.

OG þa nu JEſus hafde þetta ſagt, vard hañ hrelldur i Anda, vitnade og ſagde. Sañlega ſañlega ſeige eg ydur, ad eirn af ydur, ſem med mier fær Mat, mun mig forraada; Siaa, ad Hønd þeſs ſem mig ſviikur, tekur i Fat med mier. Og Læreſveinarner urdu hryggver, og hvør leit til añars og þeir voru hurande, uñ hvørn hañ þad ſagde. Og þeir tooku til ad ſpyriaſt fyrer ſijn a mille, hvør þad munde vera, og ſagde til JEſum eirn epter añañ, HErra er eg þad nockud? Eñ hañ ſvarade, eirn af þeim tolf, ſem Hendeñe i Fatid med mier tekur, mun mig forraada. Mañſins Sonur mun ad ſoñu fara, ſo ſem ſkrifad er uñ hañ; Eñ vei þeim Mañe fyrer hvørn Mañſins Sonur verdur ſvikeñ. Betra være hønum ad ſaa Madur hefde alldrei fæddur vered. Þa ſvarade Judas (ſaa ed ſveik hañ) og ſagde; Er eg þad nockud Rabbi? Hañ ſagde til hañs; Þu ſagder þad.

Eñ þar var eirn af hañs Læreſveinum, ſem ſat til Bordſins, hvørn ed JEſus elſkade, hønum bente Simon Petrus, ad hañ ſpyrde JEſum ad, hvør ſaa være uñ hvørn hañ hefde talad, af þvi hañ laa þa a Brioſte

JEsu. Og hañ sagde til JEsu, HErra; Hvør er saa? JEsus svarade; Saa er hañ, ad hvørium eg riette vøkvadañ Braudbita; Og þa hañ vøkvade Brauded, gaf hañ þad Judase Simons Syne Jschurioth; Og epter þañ Bita foor Andskotẽ i hañ.

Þa sagde JEsus til hañs; Hvad þu giører, þa giør þad snart. Eñ eingeñ af þeim sem til Bordsins saatu, vissu til hvørs hañ talade. Sumer ætludu þad af þvi ad Judas hafde Fiepingiuna, ad JEsus munde seigia hønum, kaup þad oss er Þorf til Haatijdardagsins, eda ad hũ giæfe nockud Faatækum. Og þa hañ hafde Bitañ teked, gieck hañ strax wt og þa var Nott. Eñ þaa hañ var wtgeingeñ, þa hoofst upp Þræta þeirra a millum, hvør þeirra munde mestur halldeñ verda. Eñ hañ sagde til þeirra; Veralldleger Kongar Drottna, og hvørier Yfermagtena hafa, þeir kallast Naaduger Herrar; Eñ þier skulud ei so; Helldur saa sem mestur er ydar a mille, vere hañ so sem minste, og hiñ ædste sem añar Þienare, þvi hvør er meire saa sem til Bordsins situr, eda saa sem þioonar? Er ecke so, ad hañ sem vid Borded situr? Eg em a millum

ydar

ydar sem saa er pioonade, eñ þier erud þeir, hvørier hiaa mier vorn, i mijnum Freistingum, og eg vil tileinka ydur Rijke, so sem miñ Fader hefur mier þad einkad, so þier skulud eta og drecka yfer mitt Bord, i mijnu Rijke, og sitia a Stoolum, dæmande toolf Kynkvijsler Israels.

Eñ þa sagde JEsus; Nu er Mañsins Sonur Auglijstur, og Gud er Auglijstur med hønum: Er nu Gud auglijstur med hønum, þa mun Gud auglijsa hañ i siaalfum sier, og snarlega mun hañ auglijsa hañ.

Sonakorn mijn, eg em litla Stund hiaa ydur, þier leited mijn, og lijka sem eg sagde Gydingum; Hvørt eg fer, þaangad kuñe þier ei ad komast. Og nu seige eg ydur; Eitt nijtt Bodord þa gief eg ydur, ad þier elsked hvør añañ, lijka so sem eg elska ydur, so skulu þier elskast iñbyrdes; Og af þvi þeckia aller, ad þier erud nuijner Læresveinar, ef þier hafed Kiærleikañ ydar a mille.

Simon Petrus seiger til hañs, HErra, hvørt fer þu? JEsus svarade hønum: Þaangad sem eg fer, maattu nu ad siñe ecke fylgia mier. Petur sagde til hañs: HErra, þvi maa eg ecke nu fylgia þier? Eg

vil ſetia mitt Lijf wt fyrer þig. JEſus ſvarade hønum: Hvad muntu ſetia þitt Lijf wt fyrer mig? Simon, Simon, Siaa þu, Andſkoteñ hefur girnſt, ad hañ mætte ſælllda ydur ſem Hveite; Eñ eg bad fyrer þier, ad þijn Trw þrotnade ecke. Og þa þegar þu ſnijſt aptur, þa ſtyrk þu Brædur þijnar. Eñ hañ ſagde til hañs: HErra, Reidubweñ er eg med þier i Fiötur og Dauda ad gaanga. Eñ hañ ſagde: Petre, Eg ſeige þier, ad i Dag gelur Haneñ ecke Tvisvar, aadur eñ þu hefur Þrisvar Afneitad þvi, ad þu þecker mig.

Og hañ ſagde til þeirra: Þa eg ſende ydur wt aan Pwngs eda Tøſku eda Skoo-Fata, hvørt braſt ydur þa nockud? Eñ þeir ſøgdu, alls eckert. Þa ſagde hañ til þeirra: Eñ nu; Hvør ed Pwng hefur, ſa take hañ, lijka og eirneñ Tøſkuna, og ſa er ei hefur, ſelie hañ Kyrtel ſiñ, og kaupe Sverd, Þviad eg ſeige, þad hlijtur a mier ad Fullkomnaſt hvad ſkrifad er. Hañ er a medal Illvirkia reiknadur, Þvi hvad af mier ſkrifad er, hefur nu Enda. Eñ þeir ſøgdu: HErra, ſiaa, Tvø Sverd eru hier, Hañ ſagde þa til þeirra: Þad er noog.

## Eintaled.

DRotteñ er Hiartaña Ransakare, og veit allt fyrer, bæde hvad Petrus og Judas mundu giøra hønum.

HUgg ad mijn Sæl, hvad þiñ Lausnare talar med hrelldu Hiarta, Eiñ af ydur mun svijkia mig. O! miñ HErra JEsu, hvad Illt mun þijnum Læresveinum hafa orded vid þessa Rædu? Hvad Sorgbitner munu þeir hafa lited hvor til añars? Miñ Lausnare, Þu ert sa sem sier hvad huled er, og þecker vor Hiørtu i giegnum; Þu fornemur vorar Hugsaner, og veitst alla Hlute fyrr eñ þeir verda, Þvi þu ecke ad eins visser fra Upphafe hvør þig munde forráda, helldur og eirneñ sáást u fyrer þad hryggelega Fall Petri, og sagder hønum fyrer, ad hañ munde Þrísvar afneita þier.

Þañeñ ransakar þu og þecker eirneñ miñ Gud, hvørt eg sit eda stend upp, þa veitstu þad. Þu sier hvad eg huxa, allt af Fiarlægd; Hvørt eg geing eda ligg, þa ertu Umhverfis mig, og sier alla mijna Vegu. Þviad siaa, Ecke er so eitt Ord a miñe Tungu, ad þu viter þad ecke Drott-

eñ allt samañ. Þijn Augu sau mig, ad-
ur eñ eg var skapadur, og aller mijner
Dagar voru þa i þiñe Book skrifader sem
koma attu, þa þegar eg var eingeñ.

Eg bid þig miñ Gud, Kieñ þu mier avallt ad giøra
þad hvad þier þocknast, Þvi þu ert miñ Gud, og þiñ
Ande fører mig a riettañ Veg; Vijsa mier hvøria Gø-
tu eg skal gaanga, og leid mig jafnañ med þijnum Aug-
um. Stijr þu og stiovorna mijnu Hiarta, og lat mig
ecke Villustigu rasa. Miñ Gud og Frelsare, rañsaka
mig, og reyn mitt Hiarta, Proofa mig og rein hvad eg
meina, og hvad eg hørse, og hvørt eg er a Illum Vei-
ge, og leid mig a Stig eilijfs Lijfs, Amen. Ps. 123. og 139.

## Um þañ Lærersvein, sem JEsus Elskade.

GJef Gaum ad, Saal mijn, þeim Lære-
sveine, sem um Kvølldmaaltijdena laa
a Brioste JEsu, sem var Johañes Gud-
spiallamadur, hvørn JEsus hafde so kiær-
añ, ad hñ sagde honum hvør siñ Forræda-
re munde vera.

Siaa þu til mijn Saal, ad þu siert riett-
ur Lærersveirn þijns Lausnara, Trw þu a
hañs Nafn, og elska hañ af Hiarta; Þa
muntu eirneñ a hañs Brioste hvijla og i
hañs Fadme sofna. Þu munt i hañs El-
sku stodug blijfa, og hañs Hønd mun þitt
Skiool avallt vera.

DRott-

DRotten JEsu, Laat þijna Elsku vera sem eitt Tialld yfer mier; Legg þijna Vinstre Hønd under mitt Høfud, og fadma mig med þiñe Hægre Hende; Uñgyrdtu mig med þiñe Giæsku, og kryn mig med þiñe Naad so sem ødrum Skillde. Laat mig ei hallda Vinskap vid Verølldena, helldur vid þig, þvi Veralldareñar Vinskapur er Guds Fiandskapur; Og hvør Veralldareñar Vinur gioreft, sa gioreft Guds Ovinur.

HErra JEsu, miñ allra beste Vinur, þu ert miñ, og eg er þiñ, Laat mig jafnañ sitia under Skugga og Skiöle þiñar Hægre Handar, og laat þitt Ord og þijnar Hugganer vera Sætleik mijns Hiarta.

## Uñ þad nya Bodord DRottens.

GLeym þu og ecke mijn Saal, þvi nya Bodorde þijns Lausnara, sem hañ sijnum Læresveinum giefur, so þu þad riett Alvarlega halldir; So seiger hañ: Eitt nytt Bodord gief eg ydur, ad þier ydur Iñbyrdes so elsked, sem eg ydur elskad hefe, þar af munu Meñ vita, og etc.

Siaa þu mijn Saal, þar eru øll Bodord þessa nya Testamentis, ad vier skulum elska hvør añañ Iñbyrdis; Ei so sem Ca-

in, sem af þeim Hreckviſſa eirn var, og drap ſiñ Broder. Hvør ſiñ Brodur elſkar ecke, ſa blijfur i Daudanum, og hvør ſiñ Brodur hatar, er eirn Mañdrœpare. Og þo nockur kuñe ad ſeigia: Eg elſka Gud, og hañ hatar ſiñ Nœunga, ſa er eirn Liwgare. Þvi hvør ſiñ Brodur elſkar ecke, þañ hañ ſier, hvørneñ kañ ſa Gud ad elſka, hvørn hañ ſier ecke? 1. Joh. 4. Eñ Kiærleikureñ hefur i ſier iñefaldar allar Dygder, Jœ, hañ er Løgmœlſins Uppfylling, þviad Kiærleikureñ er Bidlundar-goodur og Vingiarnlegur, er ecke Meinbœgeñ nie Illgiarn, Upphrokaſt ecke, er ecke Otierlegur, leitar ecke ſijns eigenlegs Gagns, verdur ecke uppertur, hyxar ecke illt, fagnar ecke yfer Rœnglœtenu, ſamfagnar Riettviiſ-eñe, uñlijdur allt, trwer øllu, vonar allt, lijdur allt, og héfur ecke Enda. 1. Cor. 13.

Hiœlpa oſſ DRottiñ JEſu, ad vier ecke Jñbyrdis reitum hvør añañ, ſo vier ei verdum Fortærder vor a mille, Helldur veit oſſ ad vier elſkum hvør añañ, ſo vier blijfum i þier, og þijn Elſka ſie Fullkomeñ i oſſ; Lœt oſſ og eirneñ vorn Kiærleika audſijna, ei med Ordum, edur Tungune eirne, helldur og ſo med Verkunum, og i Raun og Sañleika, ſo vort Lioos lijſe fyrer Møñunum, og ad hvør Madur ſkilie, ad vier ſieum þijner Lœreſveinar.

uñt

Um̃ Andskotans Flærdar List, hvørn DRotteñ sigrad hefur, og oss moote hønum stadsest, og bryniad.

SKoda hier Saal mijn, sniduga Flærd þijns Ovinar Diøfulsins, og heyr hvad DRotteñ seiger til Petrum: Andskotañ um hefur vered Hugur aa þier, ad hañ mætte sikta þig sem añad Hveite; Eñ eg hefe beded fyrer þier, so þijn Tru bilade ecke.

Jaa, Saal mijn, Andskoteñ er Mañdraapare allt fraa Upphafe, og hefur ei stadfastur staded i Sañleikanum; Af þvi ad Sañende eru ecke i hønum; Þa hañ lijgur, talar hañ af siaalfum sier, þvi hañ er eirn Ligare, og Lijgeñar Fader; Hañ er þiñ Sakaraabere, og Mootstandare, og geingur i kring sem greniande Leon, leitande ad þeim hañ svelge. Hañ lætur sem hañ sie Lioossins Eingell, og gegngeingur Verølldena. Hañ viller Heimsins Kringlu alla. Hañ tekur Guds Ord wr Mañaña Hiørtum, og saaer sijnu illu Sæde þar i stadeñ aptur.

Þar fyrer mijn Saal, vert vakande og vør um̃ þig, þvi þu hefur ecke einasta vid Holld og Blood ad beriast, helldur vid Magtarhøfdingia Veralldareñar, sem er

vid

vid þa illſku Anda i Loptenu, og þær ſem i Veralldareñar Myrkrum drottna. Þar fyrer ſkalltu iklædaſt Herſkrwda DRottins, ſo þu ſtandeſt Diøfulſins Aræſer ſlægar. Stattu hønum ſtødug a mote i Trwñe, ſo flijr hañ fræ þier. DRottiñ ſtraffe þig Satan, DRottiñ ſtraffe þig, ſem þar til hefur ſig openberad, ad hañ þitt Rijke og þijn Verk nidur brioote. 1. Pet. 5. Jac. 4. Zach. 3.

Eñ vertu med glødu Hiarta mijn Saal, og ottaſt ecke; Þvi hañ er wtſkufadur ſem þig æklagade Nott og Dag; Siæ, Drottiñ JEſus hefur fyrer þier beded, ad þijn Trw ſkyllde ecke bila. DRotteñ hefur hañ yferuñed, og ſkeinkt þier Sigureñ. Sæ ſame DRottiñ er eñ nu til Guds hægre Handar, og bidur fyrer þier, Rom. 8.

HErra JEſu Chriſte, ſem ert miñ Gud Æſenlega; Eg trwe ad ſøñu æ þig, eñ hiælpa þu miñe Vantrw; Lææt hañ rivkanda Hør, ecke i mier ſlockna, og hañ veika Reyrlegg ecke brøtna; Medtak þu mig Veykttrwadañ, og leid mig ſem Ungbarn, og ſtyrk þu mijna Trw, og haf ei þijna Hønd af mier; Stadfeſtu mig hiæ þier, ſo eingeñ næe mier wr þijnum Høndum: Miñ Frelſare, þu munt (eg veit viſſelega) þad vardveita, ſem þu hefur mier tiltrwad, allt til þeſſa Dags; Þvi þad er Vilie þijns Føđurs, ad þu ecke miſſer neirn af þeim hañ þier giefed hefur; Styrk þu mig Gud miñ, og vernda jafnañ fyrer þeim vonda Diøfle, ad

hañ

hañ fyrer øngvañ Stig nie Gøtu nææ til mijn, og øngvum sijnum Vilia edur Ofbellde fraḿ vid mig kome. Þu ert Mæattugur þæ Gudhræddu fræ Freistinguñe ad leysa.

O Mottiñ miñ JEsu, sem trwr og Sañordur ert og lætur øngvañ freistast yfer sitt Megn fraḿ; Læt mijnar Freistingar ecke þijngre verda, eñ þad þu giefer mier Krapt undir þeim ad rijsa, Amen.

# Siøunde Capitule.

## Stutt Yferferd þess 14. 15. og 16. Cap. S. Johañis, sem var HErrans JEsu Predikun, nærsta merkeleg fyrer hañs Lærefveinum høfd, ædur hañ gieck til Fiallsins Oliveti.

OG hañ sagde til sijña Lærefveina; Hryggest ecke i ydar Hiarta; Trwe þier æ Gud, þæ trwe þier æ mig. J mijns Fødurs Hwse eru margar Vistarverur; Eñ ef ei so være þa segda eg, ad eg fære ad tilbwa ydur Stad. Og eg fer hiedañ ad tilbwa ydur Stad, þa vil eg þo aptur koma, og taka ydur til mijns sialfs, so þier sieud þar sem eg er, og hvert eg fer þad vite þier, og Veigeñ vite þier.

Thomas sagde til hañs; HErra vier vitum ei hvørt þu fer, og hvørneñ meigum vier þa Veigeñ vita. JEsus sagde til hañs; Eg er Vegureñ Sañleikureñ og Lijfed. Eingeñ kiemst til Fødursins nema fyrer mig

mig. Ef þier þecktud mig, þa þecke þier og miñ Fødur. Og nu hiedañ i frá þa þecke þier hañ, og hafed sied hañ.

Philippus sagde til hañs: HErra, Siýn oss Fødureñ, þa nœger oss. JEsus sagde til hañs: So leinge er eg hia ydur, og þu þecker mig eige? Philippe, Hvør mig sier, sa sier og Fødureñ: Og hvorneñ seiger þu þa? Siýn oss Fødureñ. Trwer þu eige, ad eg em med Fodurnum, og Fadereñ med mier? Þaug Ord eg tala til ydar, þaug tala eg ei af sialfum mier. Fadereñ sa sem med mier biýr, hañ giører þaug Verk. Trwed mier, ad eg er med Fødurnum, og Fadereñ er med mier; Ef ei añars, þa trwed mier þo fyrer Verkaña saker.

Sañlega, Sañlega seige eg ydur, Hvør hañ trwer a mig, sa mun giøra þaug Verk sem eg giøre, hañ mun og giøra þessum meire; Þviad eg fer til miýns Fødurs. Og hvørs þier bidied Fødureñ i miýnu Nafne, þad vil eg giøra so ad Fadereñ dyrkest i Synenum.

Ef þier elsked mig, þa hallded miýn Bodord, Og eg mun bidia Fødureñ, ad hañ giefe ydur añañ Huggara, þañ er bliýfur med ydur

ydur Æfenlega, þañ Sañleikſins Anda, hvørn Heimureñ fær ecke medteked, þvi hañ ſier hañ eige, og þecker hañ eige; Eñ þier þecked hañ, þvi hañ er hia ydur. Eg mun vera med ydur; Eige læt eg ydur Fødurlauſa, Eg kiem til ydar.

Jñañ ſkams Tijma þa mun Heimureñ ecke ſiaa mig, eñ þier ſkulud ſiaa mig, þviad eg life, og þier ſkulud og lifa. A þeim Deige kieñe þier, ad eg er med Fødurnum, og Fadereñ med mier, og eg med ydur.

Hvør hañ hefur mijn Bodord, og hellður þaug, hañ er ſa ſem mig elſkar. Og hvør hañ elſkar mig, hañ elſkaſt af mijnum Fødur, og eg mun elſka hañ, og eg mun openbera mig fyrer hønum.

Þa ſagde Judas, (ecke Jſcharioth) til hañs: HErra; Hvad er þad, ad þu villt openbera þig fyrer oſſ, eñ ecke fyrer Heimenum? JEſus ſvarade og ſagde til hañs; Hvør hañ elſkar mig, ſa vardveiter mijn Ord, og miñ Fader mun elſka hañ, og vid munum til hñs koma, og hia hønum Viſtarveru giøra. Eñ hvør hañ elſkar eige mig, ſa vardveiter eige mijn Ord. Og þad Ord þier heyred, er ei mitt, helldur Fødurſins,

þeſs

þess sem mig sende. Þetta sagda eg ydur, med þvi eg var hia ydur. Eñ Huggareñ hiñ Heilage Ande, þañ er miñ Fader mun senda ydur i mijnu Nafne, hañ sialfur mun kieña ydur alla Hlute, og miña ydur aa allt hvad eg sagda ydur.

Miñ Frid læt eg hia ydur, miñ Frid gief eg ydur. Ei so siñ Heimureñ giefur, þa gief eg ydur. Ydvart Hiarta hryggest ei ne skielfest. Þier heyrdud þad eg sagda ydur; Eg fer burt, og kiem til ydar aptur. Ef þier elskudud mig, þa gleddust þier vid þad; ad eg sagda: Eg fer til Fodursins, þviad Fadereñ er mier meire. Og nu sagda eg ydur þad fyrr eñ þad skier, so ad þier trwed þa þad er skied.

Hier epter mun eg ei tala margt til ydar; Þvi Høfdinge þessa Heims kiemur, og med mig hefur hañ eckert, Helldur þad, ad Heimureñ vite, þad eg elska Fødureñ, og þad eg giøre, so sem Fadereñ hefur mier boded. Støndum upp og gøngum hiedañ, 1 Cap. Joh 15.

Eg em sañur Vijnvidur, og miñ Fader er Vijngards Madureñ. Hvørn Kvist aa mier sem ad ei færer Avøxt, mun hañ af-

kvista-

kvista. Og hvørn han̄ sem Avøxt fæter, nuun han̄ hreinsa, so ad han̄ fære meire Avøxt. Þier erud nu hreiner fyrer saker þess Ords sem eg talade vid ydur. Blijfed i mier, og eg med ydur. Lijka sem Vijnkvisturen̄ fær ecke fært Avøxt af sialfum sier, nema han̄ sie a Vijnvidar-Trienu, So eige helldur þier, nema þier blijfed a mier.

Eg em Vijnvidar-Tried, en̄ þier Vijnvidar-Kvisterner. Hvør han̄ blijfur i mier og eg med hønum, sa fæter miken̄ Avøxt, Þviad aan mijn fære þier eckert giørt. Hvør sa ei blijfur i mier, han̄ er wtkastadur, sem an̄ar Villekvistur, og uppþornar, og þeir samanlesa þa, og kasta a Elld og bren̄a. Nu ef þier blijfed i mier, og mijn Ord blijfa i ydur, bidied þa hvørs þier vilied, og þad skal ydur veitast; Þar med verdur min̄ Fader dyrkadur, ad þier færed miken̄ Avøxt og verded mijner Læresveinar.

So sem elskade mig min̄ Fader, lijka so elska eg ydur; Blijfed i min̄e Astseind, Ef þier vardveited mijn Bodord, þa blijfe þier i min̄e Astsemd, lijka sem eg vardveitte mijns Fodurs Bodord, og eg blijf i han̄s Astsemd. Þetta tala eg þvi til ydar, ad

F min̄

miñ Fognudur blijfe hia ydur, og ydar Fognudur uppfylleſt. Þad er mitt Bodord, ad þier elſkeſt ydar aa millum, ſo ſem eg elſkade ydur.

Eingeñ hefur meire Aſtſemd eñ ſo, ad hañ ſetur ſitt Lijf wt fyrer ſijna Vine. Þier erud mijner Viner, ef þier giøred þad eg bijd ydur. Hiedañ af kalla eg ydur ecke Þienara; Þviad Þiooneñ veit ei af þvi, hvad HErrañ giører. Eñ ydur ſeige eg Vine; Þviad allt hvad eg heyrda af mijnum Fodur, þad hefe eg kuñgiørt ydur. Eige wtvøldu þier mig, helldur hefe eg wtvaled ydur, og eg ſkickade ydur, ad þier gaanged og fœred Avoxt, ſo ad ydar Avoxtur blijfe til þeſs, ad hvørs þier bidied Fodureñ i mijnu Nafne þad giefe hañ ydur.

Þad bijd eg ydur, ad þier elſked hvør añañ. Ef Heimureñ hatar ydur þa vited, hañ hefur mig fyrre hatad eñ ydur. Ef þier værud af þeſſum Heime þa elſkade Heimureñ hvad hañs være. Eñ med þvi þier erud ecke af þeſſum Heime helldur wtvalda eg ydur af Heimenum, fyrer þad hatar ydur Heimureñ. Miñeſt a mijn Ord er eg ſagda; Þiooneñ er ecke meire ſijnum HErra; Ef

þeir

þeir hafa offookt mig, þa munu þeir ydur offækia eirneñ; Hafe þeir geymt mijn Ord; Pa munu þeir og geyma ydar Ord.

Eñ allt þetta munu þeir giøra ydur, fyrer mijns Nafns Saker, þvi þeir þeckia ecke hañ, þañ er mig sende. Ef eg være ei komeñ og hefde ei sagt þeim þad, þa hefdu þeir øngva Synd; Nu hafa þeir ecke, hvar þeir vernde sijna Synd med. Hvor sem mig hatar, sa hatar og miñ Fødur. Ef eg hefda ei giort þau Verk a medal þeirra sem eingeñ hefur añar giort, þa hefdu þeir øngva Synd; Eñ nu hafa þeir sied þaug, og hata þo bæde mig og miñ Fødur; Helldur þad sio Maalsgrein sem skrifud er i þeirra Løgmaale, uppfyllest: Fyrer eckert hofdu þeir mig ad Hatre.

Eñ þa sa Huggareñ kiemur sem eg mun senda ydur af mijnum Fødur, sem er Sañleiks Ande, hvør af Fødurnum framgeingur, hañ mun bera Vitne af mier; Þvi þier hafed i Upphafe hia mier vered.

Joh. 16.

Eñ allt þetta hefe eg talad til ydar, so ad þier hneyrlest ecke. Þviad þeir munu forboda ydur. Og sa Tijme kiemur ad hvør

ydur lijflætur, hañ meinar ſig giora þægt Verk Gude. Og þetta giora þeir ydur, þviad þeir þeckia hvørke Fødureñ nie mig. Eñ þetta tala eg þvi til ydar, ad nær ſu Stund kiemur, þa ſkulu þier miñaſt þar aa, ad eg ſagda ydur þad. Eñ þetta ſagda eg ydur ecke i Upphafe, þvi eg var hiaa ydur.

Og nu fer eg til hañs ſem mig ſende, og eingeñ ydar ſpyr mig ad, hvørt fer þu? Helldur af þvi eg talade þetta til ydar, þaa uppfyllteſt ydar Hiarta af Hrygd. Eñ eg ſeige ydur þo Sañleikañ; Pad batar ydur ad eg fa re hiedañ; Pvi ef ad eg fer ecke i burt, þa kiemur ei Huggareñ til ydar; Eñ ef eg fer hiedañ, þa mun eg ſenda hañ til ydar. Og þa hañ kiemur, ſtraffar hañ Heimeñ fyrer Syndena, og fyrer Riettlæted, og fyrer Doomeñ, fyrer Syndena, þvi þeir trwa ecke aa mig; Eñ fyrer Riettlæted, þvi eg fer til Fødurſins, og þadañ af ſiaae þier mig ei. Eñ fyrer Doomeñ, Pviad þeſſa Heims Høfdinge er dæmdur.

Eg hefe margt ad ſeigia ydur, eñ þier faaed ei allt ad ſiñe bad bored. Nær ad kiemur ſa Sañleiks Ande, þa mun hañ kieña ydur allañ Sañleik, Pviad ei tekur

hañ

hañ af ſiaalfum ſier, Hilldur hvad hañ heyrde, þad talar hañ, og hvad Okomed er, þad kuñgiører hañ ydur. Hañ ſame mun auglijſa mig, þviad af mijnu mun hañ þad taka og kuñgiøra ydur.

Uñ lijteñ Tijma munu þier ei ſiaa mig, Og eñ aptur uñ lijteñ Tijma munu þier ſiaa mig, Þviad eg fer til Fødurſins. Þa ſøgdu hañs Læreſveinar ſijn a mille: Hvad er þad hañ ſagde oſſ, Uñ lijteñ Tijma þa munu þier ei ſiaa mig, og eñ aptur uñ lijteñ Tijma munu þier ſiaa mig, þviad eg fer til Fødurſins; Hvad er þad hañ ſeiger, Jñañ lijtels Tijma, Vær vitum ei hvad hañ ſeiger? Þa fornam JEſus, ad þeir villdu ſpyrja hañ ad, og ſagde til þeirra: Þier ſpyried ad þvi ydar a mille, ad eg ſagda: uñ lijteñ Tijma þa munu þier ei ſiaa mig, Og þa eñ aptur uñ lijteñ Tijma munu þier ſiaa mig. Sañlega, Sañlega ſeige eg ydur: Þier munud graata og ſyrgia, eñ Heimureñ mun fagna. Þier verded Hryggver, eñ ydar Hrygd mun ſnwaſt i Fognud.

Konañ, nær hun ſkal fæda, þa hefur hun Hrygd, þviad heñar Stund er kom-

eñ; Eñ þa hun hefur Barned fœdt, miñ-
est hun ecke þess Harmkvœlis leingur, fyrer
Fagnadar saker, þviad Madur er i Heim-
eñ boreñ. Þier hafed nu Hrygd, eñ eg skal
siaa ydur aptur, og ydar Hiarta skal fag-
na, og ydar Føgnud skal eingeñ af ydur
taka, Og aa þeim Deige munu þier mig
Einskis spyria.

Sañlega, Sañlega seige eg ydur, Hvørs
þier bidied Fødureñ i mijnu Nafne, þad
mun hañ giefa ydur; Hijngad til hafe þier
Einskis beded i mijnu Nafne, Bidied, þa
munu þier medtaka, so ad ydar Føgnudur
fullkomnest.

Þetta hef eg talad i Ordskvidum til yd-
ar. Sa Tijme kiemur, ad eg tala ei i Ords
kvidum til ydar, helldur kuñgiøre eg ydur
berlega af mijnum Fødur. A þeim Tijma
munu þier bidia i Mijnu Nafne. Og ei sei-
ge eg ydur, ad eg mune bidia Fødureñ fyr-
er ydur, þviad sialfur Fadereñ elskar yd-
ur, af þvi þier elskudud mig og trwdud þad
eg sie af Gude wtgeingeñ. Eg em af Fød-
urnum wtgeingeñ, og komeñ i þeñañ He-
im, og eg forlœt aptur þeñañ Heim, og
fer til Fødursins.

Hañs Læresveinar seigia þa til hañs; Siaa, nu talar þu berlega, og mæler øngva Ordskvidu; Nu vitum vier, ad þu veist alla Hlute, og þarft ei þess vid ad nockur spyrie þig; Fyrer þad trwum vier, ad þu siert, af Gude wtgeingeñ.

JEsus svarade þeim; Nu trwe þier. Siaaed; Sw Stund kiemur, og er nu þegar komeñ, ad þier twistrist i sundur, hvør til siña, og læted mig einsamañ; Eñ eg er þo ei einsamañ, þviad Fadereñ er med mier. Þetta tala eg þvi til ydar, ad þier hefdud Frid i mier. J Heimenum hafe þier Hørmung, eñ vered þo hughrauster, þviad eg hefe yferuñed Heimeñ.

# Eintaled.

Skoda þu Saal mijn, allt hvad hier er skrifad; Þviad allt er þad skrifad oss til Lærdooms, og Amiñingar; Ad vier fyrer Þolenmæde og Huggun Ritningaña, hefdum Vonena, Rom. 15.

O! þu allra kiæraste HErra JEsu Christe, sañlega eru þijn Ord (sem þu hefur talad) Ande og Sañleikur. Þad fieck S. Petur ad skynia, þa hañ sagde; Þu hefur

Ord eillijfs Lijfs. Slijkt hid sama medkiendu þeir Pioonar Høfdingiaña sem sender voru til ad faanga þig, þa þeir sogdu ; Alldrei hefur nockur Madur so talad sem þesse Madur, Joh. 7.

Miñ Gud, þu aagiætaste Mælsku Meistare, þijn Ræda er hrein, þijn Ord eru sætare eñ Hunang, þeim sem þig elska. Þijnar Varer eru sem driwpande Hunangs Seimur. Hunang og Miolk er under þijnum Tungu-rootum. Þijn Predikun er sætare eñ Hunang, og þijnar Varer sætare eñ Hunangs Seimur. Hvør smack ar þar af, hañ þyrster þar epter jafnañ.

Vidurkieñ þu mijn Saal, Raad þijns Frelsara, sem sijn Ord so rijkuglega giefur med Fiølda þeirra sem þaug frañflytia ; Ecke er þad Tungumaal, i hvøriu ei heyrest hañs Raust. Hañs Ord wtbreidast uñ øll Lønd, og hañs Ræda til Heimsins Enda. Jaa, Saal mijn, þad er Raust þijns Vinar, sem kallar og seiger : Statt upp Uñusta, mijn aagiæta, kom hier, jaa, Drott eñ JEsu, þad er þijn Raust, uñ hvøria þu hefur sagt : Hvør ydur heyrer, hañ heyrer mig. DRotteñ miñ Gud, Hier er eg, og

eg

eg hefe med Maria þad Gooda ad mier teked, og sit til þiña Foota, og hlijde a þijna Rædu. Miñ Frelsare, opna þu mijn Eyru, ad eg heyre og skilie. Laat mig ei Ohlijdeñ vera, nie til Baka ad gaanga. Gief mier hlijded Hiarta, og uppvek mijn Eyru, ad eg heyre til og hluste siñ goodur Læresveirn. Miñ Frelsare, tilbw þu mitt Hiarta med heilogum Anda þijnum, so þad goodur Akur giørest, i hvørium þad Heilsusama Sæde þijns Ords stadar neme, og Avoxt gøodañ fære.

So siaa nu til, mijn Saal, ad þu halldest fast a þvi heilsusama Orde sem þu hefur af DRottne feinged, og fordast Fals-Lærdoma, sem ecke er añad eñ Mañaña Setningar. Fordast þu þa sem siaalfer smijda sier Kieñingar, snwa Eyrum fra Sañleikanum, og snwast ad lognum Dæmesøgum. Samlaga þig ecke þeim sem sitia fyrer sijnum Kieñefedrum i Samkundu sem Guds Folk, heyra Guds Ord, eñ breyta þar ecke epter, Helldur blijstra epter þeim, og daara þá i morgu, og lifa samt i siñe Agyrnd, hvøria Gud mun straffa a sijnum Tijma, og þiñ mz Hræsnurum Laun giefa.

DRotteñ miñ JEsu Christe, Lœt mig œvallt heyra þijna Raust; Þvi hun er harla Fögur. Lœt mig vera Saudarkind i þijnu Haglende; þviad þad er mijn Huggun i miñe esstu Neyd, ad þitt Ord mune næra mitt Hiarta. Jœ, hefde þitt Heilaga Ord ecke mijn Hugg. un vered, þa være eg nu Forgeingeñ i miñe Neyd og Angist. Tak ei þitt Sañleiks Ord wr mijnum Muñe, þviad þitt Ord er mijnum-Muñe sœtara eñ Hunang. Lœt þijna hægre Hönd leida mig i mijnu Hwse, og ad eg mig jafnañ reide uppœ þitt Heilaga Ord, og ad eg þad vardveite i mijnu Hiarta, so eg syndge ecke i mooti þier. DRotteñ miñ, eg gledst og fagna yfer þijnu Orde, sem yfer miklu Herfœnge goodu. Þvi Ord Drottens er ecke utañ Sañleikureñ. Vona þu a hañs Ord, mijn Sœal, þvi þad er Obrygdullt, og hvad hañ lofar, þad helldur hañ. Jœ, Himen og Jörd munu Forgœnga, eñ hañs Ord Forgœnga eige. DRotteñ JEsu, uppvek þu mitt Hiarta, so sem þu giörder þeirre Kviñu Lydis, þa Paulus heñe œheyrande predikade, so eg þad heyre, skilie og Rootfeste, og þar epter breyte. Lœt mitt Hiarta ecke vera sem lekañ Pott, sem ei kañ Lærdoomenum ad hallda. Lœt mig ei vera sem gœlausañ Tilheyrara Ordsins, helldur ad eg mætte eirneñ þar epter lifa og breyta. Uthell yfer mig Anda Sañleiksins, og lwk upp mijnum Skilninge, so eg þitt Ord heyre, Rootfeste og Avört fære i Poleñmœde, Amen.

# Attunde Capitule.

## Um þa Huggunarsömu og Hiartnæmelegu Bæn DRottins.

NN þetta talade JEsus; Og hoof upp sijn Augu til Himens og sagde, Fader, Stundeñ er kouteñ, ad þu auglijser

auglijser Soneñ, so ad þiñ Sonur auglijse og þig. So sem þu gafst honum Valld yfer øllu Hollde, ad hañ giefe þeim øllum, er þu gafst honum, eilijft Lijf. Eñ þad er eilijft Lijf, ad þeir vite þig einañ sañañ Gud vera, og þañ þu wtsender Jesum Christum.

Eg auglijste þig a Jordu, og fullkomnade þad Verk siñ þu fieckst mier ad giøra, Og nu auglijs mig Fader, hiaa siaalfum þier, medur þeirre Dijrd er eg hafda hiaa þier, aadur eñ Heimureñ var. Eg hefe openberad Nafn þitt hiaa Møñunum, þeim er þu gafst mier af Heimenum. Þeir voru þijner, og þu gafst mier þa, og þeir geymdu þijn Ord. Nu vita þeir ad allt hvad þu gafst mier sie af þier; Þvi þaug Ord er þu gafst mier, þa gaf eg þeim, og þeir hafa þaug medteked, og sañlega vidurkient, þad eg er af þier wtgeingeñ, og þeir trwa þvi ad þu sender mig.

Eg bid fyrer þeim; Eige bid eg fyrer Heimenum, helldur fyrer þeim, hvøria þu gafst mier, þvi þeir eru þijner. Allt hvad mitt er, þad er þitt, og hvad þitt er, þad er mitt, og i þeim er eg auglystur. Og eg er ei nu meir i Heimenum, eñ þeir eru i Heimenum

enum, Og eg kiem til þijn, heilage Fader, geym þa i þijnu Nafne, hvøria þu gafst mier, ad þeir sieu eitt so sem vid. A medañ eg var hiaa þeim i Heimenum, þa geymda eg þa i þijnu Nafne. Og hvøria þu gafst mier, þaa vardveitte eg, og eingeñ af þeim er glatadur, nema saa eirn Glotunar Sonur, so ad Ritningeñ uppfylleſt.

Eñ eg kiem til þijn, og þetta tala eg i Heimenum, so ad þeir hafe þiñ fullañ Føgnud, med siaalfum sier. Eg gaf þeim þijn Ord, og Heimureñ hatar þa, þviad þeir eru ecke af Heimenum. Eg bid ecke ad þu taker þa af Heimenum; Helldur ad þu geymer þa fra illu. Þeir eru ei af Heimenum, so sem eg er ei af Heimenum; Helga þu þa i þijnum Sañleik, Þijn Ord eru Sañleikur. Lijka sem þu sender mig i Heimeñ, so sende eg þa i Heimeñ, fyrer þa helga eg siaalfañ mig, so ad þeir sieu og heilager i Sañleikanum.

Eg bid ei einasta fyrer þeim, helldur jafnvel, fyrer þeim sem trwa mune aa mig fyrer þeirra Ord, so ad þeir sieu aller eitt; So sem þu Fader ert medur mier, og eg medur þier, ad þeir sieu og eitt medur ockur,

ur, so ad Heimureñ trwe þad þu sender mig. Og þa Dijrd sem þu gafst mier, þaa gief eg þeim, ad þeir sieu og eitt so sem vid erum eitt, og eg med þeim, og þu medur mier, so ad þeir sieu fullkomner i eitt, og þad ad Heimureñ kieñe ad þu sender mig, og þad þu elskader þaa so sem þu elskader mig.

Fader, hvoria er þu gafst mier, þa vil eg ad hvar sem eg er, þa sieu þeir med mier, so þeir siaae mijña Dijrd, þa þu gafst mier; Þviad þu elskader mig fyrr eñ Heimureñ var skapadur. Riettvijse Fader, Heimureñ kieñer þig eige, eñ eg þecke þig, og þesser vita þad þu sender mig, og þitt Nafn giørda eg þeim kuñugt, so ad siw Astsemd, med hvørre þu elskader mig, sie i þeim og medur þeim.

# Eintaled.

SIaa þar mijn Saal, þad er siw Bæn og Hiartans Andvarpan, sem DRotteñ þiñ Frelsare hefur a Deige sijns Hollds, med sterku Kalle og Taarum fyrer þig Gude offrad, og fyrer alla siñ hañs Fader hønum giefed hafde. Og þesse hañs

hañs Bæn er ei ad eins Kiærleikans Verk, so sem þa eirn Christeñ bidur fyrer ødrum, Helldur er hun eirneñ sw rietta Foornfæring, og eirn Partur af þvi Fridþægingar Offre, sem Guds Reide stillt hefur, og oss vid Gud forlijkad, Hvøria Bæn JEsus i Paradijs byriade, og aa Fiallenu Oliveti framfærde, eñ aa Krossenum endade, og med hvørre hañ fyrer oss framme stendur, hia Fødurnum eñ i Dag. Hier bidur ecke einsamall Mañdoomureñ, helldur og eirneñ Guddoomureñ, sem er sw rietta Persona JEsus, vor Medalgaangare Gud og Madur, sem hefur lagt sig a millum Guds og vor Syndugra Maña, Pessvegna nær so laangt og vijdt Kraptur þessarar Bænar, sem Verølldeñ er vijd.

Laat þad nu vera þijna Huggun (mijn Saal) ad JEsus Christur er til Guds hægre Handar, og bidur fyrer þier, hañ er vor Twlkur hia Fødurnum, og ja riette Kieñe-Madur, sem Eilijfur er; Og þvi er hañs Kieñemañsskapur Eilijfur, Hvar af hañ Hoolpna giører þa, sem med hañs Fulltijnge til Guds komast. Vertu nu glød af Hiarta, mijn Saal, i þijnum DRottne, þvi

þvi hañ hefur so vel beded fyrer þier, sem fyrer sijnum Postulum þa Naalægum, og so fyrer ollum þeim, sem fyrer Postulaña Ord og Kieñingar a hañ trwa.

DRotteñ JEsu, eg trwe Fastlega aa þijn Ord, þad veitstu, og eg Efast ecke, ad þu muner Bænheyrdur verda, Hvar fyrer eg trwe, ad Gud mune mier vid Sañleikañ hallda, so eg blijfe i þier, og þu i mier, og ad Fadereñ hafe þa Elsku a mier, sem hañ hafde a þier, fyrer Heimsins Upphaf, fra hvørre Elsku eingeñ kañ mig slijta.

Hañ hefur lijka giefed mier Rijkuglega af sijnum Anda, sem hañ hefur Yfersliootanlega wthellt yfer þig, þad er Pantur miñar Arfleifdar, og ber Vitne mijnum Anda, ad eg sie Guds Barn.

Jaa, eg veit og eirneñ, ad eg mune Æfenlega vera þar sem þu ert, mun og siaa þijna Dijrd, sem þier þiñ Fader giefed hefur.

O! DRotteñ JEsu, Jñsigla þu þessa Samvitskuñar stødugu Huggun i mijnu Hiarta, med Krapte þijns Heilaga Anda, ad eg stødugur þar vid blijfe, allt til Enda, so ad eg Æfenlega Hoolpeñ verde. Þvi kiem eg nu Daglega fyrer þitt Auglit, DRotteñ miñ Himneske Fader, og aakalla þitt Nafn, i Nafne þijns kiæra Sonar, mijns Frelsara, sem er miñ Æfenlegur Medalgaangare, og Arnadar Madur. Bænheyr þu mig. fyr-

er

er saker Elsku þijns kiæra Sonar, og fyrer hans Bænastad. Þvi han er sa þu jafnan Bænheyrer. Han er sa sem þu hefur giefed Heidingiana i sijna Arfleifd, og Veralldarenar Enda til Eignar. Han er sa þu hefur skipad oss ad hlijda. En han seiger vid oss. Sannlega, Sannlega seige eg ydur. Hvørs þier bidied Fødurenn i mijnu Nafne, þad mun han veita ydur, Joh. 16.

J þessu Nafne kiem eg nu til þijn, og stend hier, og bid þig, fyrer saker þijns Eingietna Sonar, og þier samlijka Sonar. J hans Nafne DRottenn Bænheyr mig. O! DRotten vert mier Lijknsamur. Eg bid þig vegna Fyrerboonar þijns Hiartans kiæra Sonar, sem til þinar hægre Handar situr, Hneyg þu þitt Eyra til mijn, og heyr, Læt upp þitt Auga og sia; Heyr þu mijna Bæn og Andvarpan, sia og ælijt mig Naadarsamlega i mijns Frelsara Nafne, Amen.

# Nijunde Capitule.

## Hvørnen Drottenn JEsus epter Lofsaungenn, gieck til Vidsmiørs Fiallsins og hvad han a Veigenum talade vid sijna Læresveina.

Og þa þeir hofdu Lofsaungenn sunged, Gieck JEsus wt sem han var vanur, yfer um Lækenn Kedron til Fiallsins Oliveti.

En hans Læresveinar fylgdu hønum epter. Þa sagde han til þeirra: A þessare Noottu munud þier aller hneixlast a mier, Þviad skrifad er, Hirderenn mun eg sla, og Sauder Hiardarenar munu i sund-

ſundur twiſtraſt, Eñ nær eg rijs upp aptur, þa mun eg ganga fyrer ydur i Galilæam. Petur ſvarade og ſagde til hañs: Þo aller hneixle ſig a þier, þa ſkal eg þo alldrei hneixl aſt. JEſús ſagde til hañs: Sañlega ſeige eg þier, ad i Dag aadur eñ Haneñ galar tvíſvar, muntu afneita mier þriſvar. Eñ hañ, Petur, talade þa eñ frekar, Jaa, þo eg ætte ad deya med þier, þa ſkal eg ecke afneita þier. Slijkt hid ſama ſøgdu aller Læreſveinarner.

Þa kom JEſús med þeim i þad Akurgierde ſem hiet Gethſemane, þar var eirn Grasgardur, þar gieck JEſús iñ og hañs Læreſveinar, Eñ Judas ſa ed ſveik hañ, viſſe og þeñañ Stad, þviad JEſús ſafnadeſt opt þangad med ſijnum Læreſveinum. Þa JEſús kom i þañ Stad, ſagde hañ til ſiña Læreſveina: Setied ydur hier a medañ eg fer burt og bidſt þar fyrer.
Bidiedſo ad þier falled
ecke i Freiſtne.

## Eintaled.

DRottiñ kieñer oſs, ad vera backlaatum, þegar ad vier høſum medteked Guds Laan og Gaafur.

G  Hluſta

HLusta þu til, og legg i Minne mijn Saal, hvornenn þinn Lausnare, ad Kvølldmaaltijdenne endadre, giører Packer, og Lof seiger sijnum Himneska Fødur. Enn þesser Lofsaungvar voru, saa 113. 114. 115. 116. 117. 118. Psalm. Hvoria sex Psalma Gydingar voru vaner ad lesa, hvorn epter annann, umm Paaska tijmann; Einkum þa þeir høfdu Paaskalambed eted.

Skoda nu mijn Saal, hid mykla Lijtelæte þijns DRottins; Þvi þo hann være HErra yfer allre Skiepnu, liet hann sier ecke Mijnkun þikia med sijnum Læresveinum, Bord-Psalmenn ad lesa, og Matenn eda Maaltijdena ad packa. Og hier med hefur hann þier Epterdæme giefed, ad þu skuler hanns Footsporum fylgia. Þess vegna; Hvort sem þu etur eda dreckur, eda hvad þu giører med Ord og Verk, þaa giør þad allt i Nafne Drottens JEsu, til Dijrdar Gude, og packa Gude Fødur fyrer hann, 1. Pet. 2. 1. Cor. 10.

Og so opt sem þu yfer þijnum Bordum villt Lof giøra Gude, þaa þeink aa þetta Epterdæme DRottens, og muntu þess Hiartan-

Hiartanlegar þad giora. Bid þu og þacka Gude aan aflaats, og hallt kostgiæfelega til Bænareñar øllum þeim i þijnu Hwse eru, so sem Drotteñ giorde vid sijna Lære-sveina. Þvi eingeñ tekur þad hønum er ecke giefed, þvi hvad hefur þu þad þu hafer ei þeiged? Eñ hafer þu þad þeiged, þvi villtu þier hroosa, so sem þu hefder þad af siaalfum þier til? 1. Cor. 4.

Miñ Himneske Fader, þu ert ad søñu saa sem vor Hiørtu uppfyller med siñe Fædslu, og med Glede. Allra Skiepna Augu vona aa þig DRottiñ, og þu giefur þeim þeirra Fædslu i hæfeleguñ Tijma; Þu upplætur þijna millda Hønd, og sedur allar lifande Skiepnur med þiñe Blessañ Ps. 145. Nær þu giefur þa safna þær, og nær þu þijna Hønd upplætur, þa verda þær mettar, Psalm. 104. Blessa þu og metta mig eirneñ; O! DRotteñ miñ, og alla þa i mijnum Hwsum eru: Þa vil eg æfenlega færa þier Offur miña Vara, og þacka þier fyrer allt þad þu hefur giefed mier. Eg vil þitt Nafn lofa og prijsa, þad frekast eg kañ og maa, þo ertu eñ meire og ædre; Eg vil prijsa þig af øllum Mætte, og ei uppgiefa, og þo fæ eg ei upptaled til fulls þijna Giæsku, so er hun omælanleg, Amen.

## DRotteñ tekur sijnum Læresveinum vara fyrer þeirre Hneixlan, af hañs Pijnu.

I Þessare Noott (sagder þu) munu þier aller hneixlast a mier. Þvi þu visser vel (DRotteñ) ad Petur munde þier afneyta, og aller Læresveinarner þig forlaata. Þvi þu varst settur i Zion, til eins Hyrningar

Horn-Steins, og til Hneixlunar Hellu, til Snøru og Falls Jerusalems Borgar-Moñum; Og marger af þeim hafa reked sig a þig, og eru i sundur fallner, i Snøruñe faster og faungner ordner. Þvi þu varst næsta Osijnelegur ad lijta hia ødru Folke, og þu varst sa Forsmaadaste, og mestOvirdtur, fullur Sorgar og Siwkleika. Þu varst so Foraktadur, ad Meñ byrgdu sig fyrer þier, þvi hafa þeir ecke sint þier, Esa. 53.

Jaa, Drotteñ JEsu, so hneixlast marger a þier eñ i Dag, so ad þu ert þad Teikn, sem miøg er i moote mællt, af øllum þeim þitt Nafn þeckia ecke. Þeir hneixlast a þiñe Personu, og mæla a moote þijnum Kieñingum; Þeir hneixla sig a þiñe Pijnu, og steita sig a þijnum Dauda. Eñ þu ert sañur Gud, og sañur Madur i eirnre Personu, þvi gieta þeir ei trwad. Þu bodar og veiter Syndaña Fyrergiefning af þiñe skiærre Naad, eñ þeir vilia hana med siñe Forþienustu hafa. Þu villt þeir skule þitt Ok og þiñ Kross epter þier bera, Eñ þeir fylgia Vellystingum þessarar Veralldar, og forsaka so þitt sæta Ok.

Eñ mier ertu riettur og sañur Grund-
volle

volls Steirn, DRottenn minn JEsu, eirn stødugur Hyrningar Steirn, sem avallt riettur er; A þig trwer mijn Sæl, og treyster i Lijfenu, og Daudanum. Þar fyrer mun eg alldrei til Skammar verda.

Gief mier þig riett ad þeckia, sannan Gud og sannan Mann, þig ad prijsa, þijn Ord ad læra, skilia, og mier til Sælu-hialpar ad færa, og mig af þinne Pijnu ad hugga alla tijma, og þitt Ok viliuglega ad draga þvi sæll er sa sem ecke hneyxlast a þier Amen. Marc. 11.

## Sa riette Hirder Christus var sleigenn sinnar Hiardar vegna.

ÞU varst ad sønnu sa goode Hirder Drottenn JEsu, sa Einka og Ædste Hirder, sa Vollduge Hirder, sem þijnum Saudum beiter, og þa bæler sialfur, sem leitar þeirra ef vantar, og hefur þa upp sem villast, þu sem þa Særu læknar, og giæter þeirra Veiku, verndar þa Mettu og Røsku, og hefur riettelega Umhyggiu fyrer þeim, Ezech. 34. Ebre. 13. 1. Pet. 5.

Enn hvada Særum eru þad, minn ágiæte Hirder, i þijnum Hondum? So ertu særdur i Hwsum þeirra sem þig elskudu, og þu hefur fyrer þijna Saude, þitt Lijf lated. So hefur Drottenn þinn Gud plagad þig, med Siwkdome, og allra vorra

Syndum a þig hladed, Esa. 53.

Þu Sverd, giør þig Reidubwed (seiger Drotteñ Zebaoth) yfer miñ Hirder, og yfer þañ Mañ mier Naakomnastur er, slaa þu Hirdereñ, so mun Hiørdeñ tvistrast.

O! miñ DRotteñ og miñ Hirder, Hvad kiærar hefur þu þijnar Saudakindur? Þu þolder Sverd þijns Fødurs, og leidst þaug Sløg sem vier høfdum forþient; Med þijnum Benium erum vier Læknader, Hegningeñ liggur a þier, so vier hefdum Frideñ, Esa. 53.

Miñ DRotteñ JEsu Christe, beit þu mier jafnañ i þijnu grænn Haglende, þiña Heiløgu Orda, og laat mig naa Fersku Vatne, þiñar Huggunar. Leita þu ad mier, þa eg villest i burtu, og græd þu mig þa eg fæ Akomur; Laat mig aavallt vera eirn af Saudum þijns Haglendis, og þig miñ gooda Hyrder riett ad þeckia, og þike Røddu ad hlijda, frelsa þu mig af þeim Helvijska Ulfe; Endurnær þu og æfenlega vernda þu mijna Saal og mitt Lijf til eilijfs Lijfs, Amen.

## Uñ Tvistran og Offsookn Saudaña DRottins.

MJñ Herra JEsu so sem þijner Læresveinar tvistrudust og flwdu, þa þu faangeñ varst og bundeñ, sem þu þeim aadur sagt hafder; So eru eñ i Dag þeir sem aa þig trwa, halldner sem Sauder, sem

sem øngvañ Hyrder hafa. Vier erum so nær at oß komner, sem þeir minstu, og Daudanum undergiefnu; Vier erum Verølldeñe ad Sioonarspeigle ordner; Einglunum lijka og Møñunum; Vier erum Darar halldner, þiña vegna; Vier erum jafnañ sem Bølvan Veralldareñar, og Landhreinsunar Offur øllu Foolke. Þiña vegna er oß slaatrad Dageñ wt, og erum halldner slaatrunar Fie, Ps. 44.

O! DRotteñ miñ Gud og Fader, þu munt ad søñu þijnu Foolke ecke wtskwfa og þijna Arfleifd ecke forlaata, þeß biddium vier DRottiñ; Hirtu oß ecke i þiñe Reide, og ei Plaaga oß i þiñe Grimd, so þu þitt Foolk ecke eydelegger. Uthell þiñe Reide yfer Heidingiana, sem þig ecke þeckia, og yfer þær Kynkvijsler, sem þitt Nafn ecke aakalla. Eñ myskuna þu oß sem erum Sauder þijns Haglendis? Þvi þu verndar Slatrunar Fied, sokum þiña vesalings Sauda; Þo þu tvistrer þiñe Samkundu, þa gietur þu haft hana samañ aptur, og munt hana bijvara, so sem Hyrdereñ sijna Hiørd, so ad þijn Hiørd verdur taleñ wt og iñ. Oh! fagned nu Saudakorn Hyrd-

erſins JEſu Chriſti, og verid gladir; Þvi ad þier hafid dyggvañ Hyrder, hañ kañ ad deyda og ad lijfga aptur. Hañ kañ ad ſæra og græda aptur. J ſiñe Reide ſærer hañ, eñ i ſiñe Naad Myſkunar hañ ſig yfer þaa.

O! DRottiñ JEſu, þu allra trwaſte Hyrder, hamla Ulfenum ſem þijna Hiørd vill ſundur ſlijta, og beit þiñe Hiørd i Naadum, hallt oſs ſamañ, og vernda oſs ſem þiñ Auga Stein, og tak oſs þijna Hiørd wr wtlegd þeſſare, iñ i þad Eilijfa Sauda Hws, Amen.

## Um Gaang DRottins yfer um Lækeñ Cedron.

ÞEſſe Lækur, hañ reñur a mille Jeruſalem og Fiallſins Oliveti, ofan epter einum Dal, hefur Nafn feinged af myrkre, og ſem lijklegt er af Dimmu Vatne, eda vegna þeſs hañ hefur ruñed i diwpum Dal, og med Skooge vaxnum tveim meigeñ.

Hier hlijtur þu Saal mijn ad lijta a Bak aptur i þad gamla Teſtamented, til Kong Davids, hvør ed var Fyrermyndan Herrans Chriſti, þa hañ af Achitophel ſijnum ædſta Raadgiafa og kiæraſta Vin, forraadeñ og ſvikeñ var, og af ſijnum eigeñ Syne fraa Lande og Lijdum wtrekeñ, þa gieck hañ eirneñ med ſijnum Vinum og footgaangande Þienurum yfer um þeñañ

myrkva

myrkva eda svarta Læk Cedron, til þess Vidsiniørs vidar Fialls, sem alment nefndest Oliveti. Hañ gieck med allskonar Piinu og Hrygd, med skiildu Andlite, griet saarlega, og bar upp siina Neyd fyrer Gude; Vad og i moote Achitophel, eñ gaf sig þo audmiwklega under Guds naadugañ Vilia, þolde Bølvan og Haardyrde Simei, hvør David gryta villde, og Bloodhund kallade, og eiñ Trwlausañ Mañ, vid hvørium hñ þagde siñ añad Lamb, 2.Sam. 15.

Siaa miin Saal, þañ sama Gaang geingur hier þiñ Frelsare, saa riette Israels Kongur, og saa elskuadur DRottins og fullkomnar þessa Fyrermyndan, i allañ Maata: Par hañ af siinum Læresveine svikeñ var, og af sialfs siins Foolke til Dauda dreigeñ. Nun þu þig Saal miin, gleym ecke þessum hrygdar Gaange Davids, og Herrans Christi; Pvi Christur er undañ geingeñ, þvi hliitur þu ad fylgia hønum epter.

O! þu Myskunsame JEsu Christe, hvad margañ Hrygdargaang aa Madur Christeñ fyrer Høndum, i giegnum Freistingar og Krossburd, Sootter og Vesølld,

 Hwngur

Hwngur og Anaud, Smaan og Spott; Jaa, i giegnum Neyd og Dauda, fyrr eñ hañ komest þeñañ Eymdardal Heimsins aa Enda, sem so næsta dimmur og þraungur er.

Hiaalpa þu mier DRottiñ JEsu Christe, ad eg þolckmoodur sie aa mijnum Veige og i Lijtclætenu þier fylge, so sem þijner Læresveinar. Og þa eg geing i Myrkrañа Dal, laat mier lijsa Geisla þiñar Huggunar; Fær mig þa aptur i Lioosed, so eg mijna Lyst meige Æsenlega hafa a þiñe Naad.

## DRotteñ aavijtar Petur fyrer Ostraust,
### sem hañ hefur a siaalsum sier, og seiger hønum fyrer sitt hryggelega Fall.

HJer skalltu adgiæta, mijn Saal, hvad miøg S. Petur, og adrer treystu uppa sig; Siaa hier hvad Holld og Blood giører. Pvi þa Drotteñ liet aa sier heyra hvørsu ad aller þeir mundu aa sier hneyxlast, og yfergiefa sig, þa laa þad S. Petre þwngt, lijka sem JEsus tryde hønum so lijtt, bijdst þar fyrer til, ad hañ vilie fyrer þaa alla Herranum Christo, lijka vel i Daudanum fylgia; Og slijkt hid sama søgdu aller Læresveinarner. Eñ litlu sijdar þa adframm kom, þa reyndust þeir i Neydeñe, so sem Hiereñ reynest sijnum Ungum.

Þar af sier þu Saal mijn, hvad miøg vier meigum treysta uppa vort Holld og

Blood.

Blood. Sañlega er Mañsins Hiarta stollt, eñ þo blautt og hrætt, hvor kañ þar uñ ad hura? Stollt er þad a medañ vel geingur, þvi þad er ecke hægt ad temia edur stilla, þad fylger sijnum eigeñ Vilia, og lætur sier ecke seigiast; Eñ ragt og blautt er þad, þa illa geingur, i þvi er ecke añad eñ Vijl og Volgur, þa reñur þad fyrer einu þiotande Laufblade, og ef mogulegt være i giegnum eiñ Jarn-Mwr.

Eñ þu DRottiñ JEsu ert sa sem vor Hiørtu grundar, og vor Nyru rañsakar, þu þecker oss alla, þu þarft ei vitna ad leita uñ neirn. Eingeñ þecker siaalfañ sig, eñ fyrer þier erum vier aller odulder. Þu þecker miñ Gøtustijg, og veitst hvad eg mun laxta giørt edur ogiørt, allt til Endadags.

Greid þu Gøtu mijna epter þijnu Orde, og laat eckert Ranglæte drottna yfer mier, leid mig i þijnu Riettlæte, og laat mig ecke falla i Synd a Synd ofañ. Tak fra mier hvad mier skadlegt er, og gief mier hvad mig bata kañ. Gief mier þad Hiarta, sem þig óttast; Þad Siñe sem þig elske, þad Vit og Skin, sem uñ þig huxe, þaug Eyru sem þier hlijde, þau Augu sem jafnañ a þig horfe. Eg bifel þier a Hendur i Dag og alla Tijma mijna Saal og Lijf, Sijn og Heyrn, og øll Skilningar vit, og alla Saalareñar Krapta; Ord og Giørder, allt hvad eg hefe iñra og ytra; Miñe og Siñe, Trw og Traust, og alla Lijfs og Saalar stadfeste, fel

eg

eg i þijna megtuga Milldahønd, vernda þu þad og vardveit Dag og Natt, hvørn Tijma og Augnablik, hiedañ i frá og ad eilijfu, Amen.

## Uñ þañ Grasgard Gethsemane sem þijdist Vidsmiørs Pressa.

JPessum sinnum kom JEsus med sijnum Læresveinum, til Vidsmiørs Pressunar, Gethsemane, i þañ Alldingard sem þar var, ei þad hañ villde fordast sijna Pijnu, helldur ad þeir skylldu þess snarara siña hañ. Þvi bæde Judas og næalega hvør Madur visse, ad hañ var vanur optlega ad vera i þessum Grasgarde, i hvørium hñ eflaust opt hefur bedist fyrer, og sig til siñar Pijnu bwed.

Hier skalltu athuga, Saal mijn, ad þad er eingeñ Markleysa, ad HErrañ Christur er med sijnum Læresveinum til Vidsmiørs Pressuñar geingeñ; Þvi þar med aavijsar Christur, ad hañ eine hafe Vijnþrwguna troded, og eingeñ af Foolkenu medur hønum. Þar var hañ pressadur med Guds Reide, og so fergdur under Byrde vorra Synda, ad hañ sveittest Bloodenu.

O! Drotteñ JEsu, þu ert ad soñu Kongur allra Konga, og DRotteñ allra Drott-

na, eñ þu hefur þo troded Vijn-Prwgu þeirrar hrædelegu Grimdar Reide Guds Fødurs. Þu ert ſa riette Vijn-Vidar Klaſe, ſem Joſua og Caleb af þvi Fyrerheitna Lande wtbaaru, og ſo varſtu preſſadur og fergdur, ad Vatn og Blood rañ af þijnum Lijkama. Þetta er ſa edla Vokve ſem vor HiørtuEndurnærer og Lijfgar; Endurnær þu mig DRotteñ med þijnum Vokva, og dreif þonum a mijna mæddu Saal, og lijfga hana med Lijfſins Vatne, og hreinſa mig med þijnu Bloode.

Eñ ſkalltu hier athuga, mijn Saal, ad ſo ſem DRotteñ leidde ſijna Læreſveina til Vidſiniørs Preſſuñar, ſo leider hañ opt og Oſialldañ ſijn Børn til Mootlætis Preſſu, Kroſſog Mootgangs, under hvørre Preſſu þaug ſo fergiaſt, ad Taara Lækerner Oſpart giøra ad reña.

Þar fyrer ſkalltu mijn Saal hlijdeñ vera, nær ſem DRotteñ ſetur þig i þeſſa Preſſuna, og leggur þig under þetta Motgaangs Farg, epter ſijnum Raadugum Vilia; Þvi þad mattu vita, ad þad er þier fyrer beſtu. Jaa, DRotteñ JEſu, So kreiſter þu wt mijnar Andvarpaner, og

kleñ-

kieñer mier ad bidia; So lætur þu mier leidast þetta forgeingelega Lijf, og lánga epter þvi Eilijfa.

Gief þu mier DRottenñ, under þijnu Farge og þiñe Pressu Poleñmoodum ad vera, og þitt Ok Viliuglega ad bera. Kieñ þu mier ad þeckia, ad vier i Verolldsñe Angist hliotum ad hafa, og giegnum marghaattadar Hormungar hliotum vier i Guds Rijke ad gaanga. Eñ þo þu mier Byrde a Herdar legger, þa hiaalpar þu mier ad bera hana, Amen.

## Uñ þañ Grasgard, i hvorium DRotteñ vard faangeñ.

HVort er nu þiñ Uñuste geingeñ Saala mijn? Vid vilium leita ad honum. Miñ Kiæraste hañ er nu geingeñ wt i siñ Gras-Gard, Jaa, i eiñ Aldengard er hañ geingeñ, ad hañ skiemte sier i Grasgardenum og plocke Lilliurnar. Siaa hier mijn Saal, Eins og þijn Eimd upphofst i Aldengardenum Paradijsar; So lijkade DRottne sijna Pijnu i Grasgardenum ad uppbyria, so hañ med sijnum Blodugum Sveita afrekade þier Rwm og Vist i Paradijs.

Pad er og sumra Meining, ad KieñeMeñ Gydinga hafe aatt þeñañ Grasgard, og hier laated geima sitt Slaatrunar Fie, til Daglegra Foornfæringa. O! JEsu Guds Son, þu saña Guds Lamb, Hvorsu Viliug-

Viliuglega þu Naalægder þig ødrum Slaatrunar og Foornfæringar Saudum? Pu villder ecke vanda þad ødruvijs, eñ laata sækia þig þaangad i Grasgardeñ. Þesse þiñ Hrygdar-Gardur, er mier fagur Aldengardur, og i þijnum Angistar-Garde gledur sig mijn Saal, hvar ad hun safnar Huggunar Bloomstrum, og Liliun Fagnadarens.

Haf þig til Vegar mijn Saal, og fylg þijnum Uñusta, Gack med þijnum Uñusta til Vidsmiors Fiallsins, med þijnu Hiarta, og arka i haňs Aldengarde, hugga þig med hňs Angist, og gled þig med hňs Hrygd, þvi haňs Hrygd færer þier Eilijfa Glede, og haňs Angist Eilijft Riettlæte.

Laattu DRotteñ miñ, Saalu mijna i þijnum Vidsmiors Garde optlega miňast, og hura uñ þijna þrædelegu Heliar Pijnu og þitt Dauda Strijd, sier þar iñe i Lijfe og Dauda ad Hugsvala, Amen.

DRotteñ hlijfer þeim veiku Læresveinum,
Eñ took med sier þria, þa Hellstu i siñe Angist.

ÞEsser þrijr voru, Petur, Johaňes og Jacob, þeir sem aadur a Fiallenu Tabor høfdu sied þa Himnesku Dijrd Herrans Christi, og haňs Dijrdarlega Vellde, og þa haň Jairi Dotter af Dauda vakte.

Þesser

Þesser voru þeir hellstu Lærefveinar, Petur sa Hellste, Johañes sa Kiæraste, sem med sijnum Brodur Jacob naut Boonar siñar Moodur Salome, ad þeir mættu gaanga næst HErranum Christo, eñ ecke i Veralldareñar Haavegum, sem þeir mein tu, helldur i Pijnuñe, Ecke i Stundlegre Vellysting, helldur i Krosse og Mootgaan ge, so þeir sig med Skijrn DRottens skijra liete, og hũs Kaleik drycke, hañs Daudans Angist og Mañlegañ Veikleik sæe, Eñ hina þa Veikare voru af sier, liet Drott eñ hia Gethsemane bijda og hvijlast, þvi þeir voru eñ þa Veiker, Sorgbitner og Svefnþurfande.

O! Drotteñ JEsu, þu kallast med riettu Dasamlegur, Þvi øll þijn Verk eru Furduleg, og þu fer Furdulega med þijna Heilaga. Þa þu elskar, þa agar þu, og Doomureñ byriast a þijnu Hwse. Þess Heilagre sem þijner eru, þess meire er Mootgaangur. Þess sterkare sem Trweñ er, þess øflugre er Freistingeñ; Þess kiærare þeir eru Christo, þess meire er Sorgeñ. Þvi þijner Heilogu eru þijner Strijds Kappar, og Christner Riddarar; Þu setur þa i øndverdre

verdre Filkingu, og leggur uppaa þa þaug hellstu Pijngsl af þijnum Krosse. Ad sønu ÐRotteñ JEsu, þad er þiñ Vilie, ad þeir skule lijda med þier, og med þier til Vegsemdareñar upphafder verda, ad þeir næst þier berjest, og med þier þa Dijrdareñar Koronu ødlest.

ÐRotteñ miñ JEsu, þu þeker mig allra best og veitst miñ Vanmaatt. Ef leggur þu miked uppaa mig, þa ertu Trwr og bregdst ecke, og þu hiaalpar mier ad bera þad; Legger þu mier Lijted uppaa, þa veitstu samt, ad aan þiñar Hiaalpar kañ eg ecke ad bera þad. Miñ Gud, Laat mig ei Freistast yfer Megn fram, og ecke framar eñ þijn Millde mier hiaalpar under ad rissa, Amen.

# Tijunde Capitule.

Uñ þad Kvalafulla Daudans Strijd Christi, hañs Grraatlega Bæn, og Bloodugañ Sveita, a Vidsmiørs Fiallenu.

OG hañ took med sier Petrum og Jacobum og Johañem, þa tvo Sonu Zebedæi, og took til ad Hryggiast, titt: af Hrædslu og Harmþrwngeñ ad verda, og þa sagde hañ til þeirra: Mijn Saala er Hrigg allt i Daudañ, bliised hier og vaked med mier.

Og hañ sleit sig i burt fra þeim, og gieck litlu fram leingra nær einu Steinsnare,

og kraup a Knie, fiell fram̃ a ſijna Aſioonu til Jardar, og bad: Ef þad mogulegt være ad ſu Stund hia ſier lide, og ſagde: Miñ Fader, ef mogulegt er, þa vijke þeſſe Kaleikur fra mier, Abba Fader miñ, allt er þier Mogulegt; Tak burt þeñan Kaleik fra mier, Þo ei hvad eg vil, helldur hvad þu villt. Og hañ kom til ſiña Læreſveina, og fañ þa Sofande, Og ſagde til Peturs: Simon, Sefur þu? Formaatter þu ecke eina Stund ad vaka med mier? Vaked og biddied ſo þier falled ecke i Freiſtne; Andeñ er Reidubwẽñ, eñ Hollded er veikt.

J Añad Siñ gieck hañ eñ burt aptur, badſt fyrer, talade þeim ſømu Ordum, og ſagde: Miñ Fader, Ef þad er ecke Mogulegt ad þeſſe Kaleikur vijke fra mier, utañ eg drecke hañ, þa verde þiñ Vilie; Og hañ ſnere aptur, Kom og fañ þa eñ Sofande, þviad þeirra Augu voru þrwngeñ af Svefne, Og þeir viſſu ecke hvoriu þeir ſvørudu hønum. Og hañ ſkilde vid þa, og gieck burt aptur, og bad i Pridia Siñ med ſømu Ordum, og ſagde: Fader, ef þu villt ſo, þa tak þeñan Kaleik fra mier, þo ecke miñ, helldur verde þiñ Vilie. Eñ hønum birteſt Ein-
gell

gëll af Himne, Sa ed styrkte hañ. Og þa hañ var staddur i Daudans Strijde, took hañ Akaflega ad bidia; Eñ hañs Sveite vard so sem Blood-Hniklar, þeir ed fiellu a Jordena. Og hañ stood upp fra Bæneñe, og kom til siña Læresveina i Pridia Siñ, og fañ þa Sofande ut af Hrigd, og sagde til þeirra: Sofed þier nu þad epter er og hvijlest. Hvad sofed þier? Þad er noog, standed upp og bidied so þier falled ecke i Freistne. Siaaed, sù Stund tekur ad naalgast, og er komeñ, ad Mañsins Son mun ofurseliast i syndugra Hendur, standed upp og gaungum hiedañ, Siaaed, sa ed mig svijkur, hañ er i Naand.

## Eintaled.

Hvada Merke sie til þess, ad DRottiñ hafe vid Daudañ og Helvijtis Kvøl barest i Grasgardenum.

HEyred til allar Þiooder (seiger DRottiñ i siñe Angist) og skoded mijna Hrelling, þier sem fram hiaa gangid og athuged hvort nockur Kvøl er slijk, sem mijn Kvøl, sem mig spent hefur, Tren. 1.

Avi, DRottiñ JEsu, þu mæte Hiaalpar Mañ; Hvada Mañe være nu saa, sem

þijn beiſka Pijna geingur ecke til Hiarta? Jaa miijn Saal, þad er vel ſatt, ad þijns Frelſara Kvøl og Angiſt ſem hañ hafde at Vidſiniørs Fiallenu, kañ eingeñ riettelega ad hugleida, auk helldur med Ord ad hafa. Eñ þo vill hñ, og þvi hefur hañ læted hana uppſkrifa, ad vier ſkulum þad leſa og þar uñ hura. Þar fyrer, Saal miju, giør þig reidubwna, les þetta med Gaumgiæfne, og læt þier til Hiarta ganga hañs LijfSøgu, og þier i Miñe ſetier þau Audkieñe, ſem hañs Kvøl og Angiſt audſijna, hvøria hañ leid a þvi Vidſiniørs Fialle, og eg vil nu upptelia.

1. Þad fyrſta Audkieñe, edur Mark til hañs Hiartans Angiſtar, eru þau hryggelegu Ord Gudſpiallamañaña, med hvørium þeir villdu hañs bitru Hiartans Pijnu wtmaala, og ſeigia. Og hañ (JEſus) tok til ad verda hryggur, Titra og Kveliaſt. Þar verdur ei med Ordum nær komeſt. Þvi þungt er hryggur ad vera, þijngra ad Skiælfa og Titra; Þad þijngſt ad Kveliaſt i Hug og Hiarta. Drottiñ miñ Jeſu: Hvad hryggur varſtu miña Synda vegna? Hvørſu Titrader þu fyrer þeirre griñu

Daudans

Daudans Angist; Og hvørsu Kvaldest þu i Huga og at piñe Saalu, fyrer Grimdar Reide þijns Fødurs!
2. Pad aňad Mark og Audkieñe til haňs Hiartans Pijnu, voru þesse haňs eigeñ Ord. Mijn Saal er hrygg allt i Daudaň. Ach! Drottiň miň JEsu, Helviitis Bond laau at þier, og Fiøtrar Daudans hafa Magt feinged yfer þier.
3. Pad þridia Mark og Audkieñe hier til, er þad hørmulega Kall, og sw saargrætelega Bæn, sem haň hafde i þriar Reisur, seigiande: Abba miň Fader, allt er þier møgulegt, tak þeňan Kaleik fra mier, þo ei sem eg vil, heilldur sem þu villt.
O! DRottiň JEsu; Hvad miňhurunarsamleg eru þesse þijn Ord, þar þu oskader og badst, sokum þess hrædelega Kvijda, ad þiň Himneske Fader villde med ødru moote Maňkyned endurleysa, so þier hlijfst yrde. O! þu allra helgasta Asiaana, hvoria aller Einglar tilbidia; Hvørsu lagder þu þig nidur a Jørdena; Hvørsu følnader þu af Kvøl og Angist? Jhvada Eymd ratader þu?
4. Pad fioorda Mark og Audkieñe hier til, er þad; Haň stood so opt upp af Bæneñe,

eñe, gieck so fraa og til siña Læresveina; med stoorre Angist og Sorgarviile, vitande ei hvad hañ skyllde giora, gieck aptur og fram fyrer Harme, gieck upp og nidur, laangt og þvert um̃ Grasgardeñ i Svartnættenu, þootte gott ad Læresveinarner skylldu skrafa nockud, og villde þar med Huggunar leita aa siñe hrædelegre Kvøl og Angist, og skipade þeim ad vaka og bidia, þar sig so Hørmulega, og leitade Hvijldar, so sem eirn Daudsiukur Madur, leitar sier tiju eda toolf Hægenda a einum Deige, edur eirnre Stundu.
5 Pad fimta Mark og Audkieñe er þad; Ad eirn Eingell af Himne kom nidur og styrkte hañ. O! Siaa þar mijn Saal, hvørsu DRotteñ hefur sig lijtelæckad; Skapareñ þiggur Styrk af Skiepnuñe HErrañ af sijnum Pienara. Ad vijsu, þaa ertu nu miñe haattar ordeñ eñ Einglarner. Og þijn Hiartans Angist var so stoor, ad þu gast ei leingur aan Huggunar og Styrks, under heñe stadest.
6 Pad siotta Mark og Audkieñe hañs Angistar er þetta, sem skrifad stendur; Hañ hafe strijdt vid Daudañ. DRottiñ JEsu,

JEsu, þu ert ſꝛo Hind, ſem ſneñtindis var epter ruñed, og þeir Helvitſku Hundar ſlycktuſt utañ uiñ þig, Dioſulleñ med ſijnu Spioote, Daudeñ med ſijnum Brodde, og Løgmaaled med ſiñe Bølvan, þeſſer ſooktu ad þier, og Helvijte villde ſvelgia þig i ſig.

7 Pad Siøunda Mark og Audkieñe hañs Angiſtar er; Ad hañs Sveite var ſem Blooddropar fallande aa Jørdena. Heyr þad og Athuga mijn Saal; Soddañ Dæme eru ecke ſkied, fraa Heimſins Upphafe. Par var Hrygd yfer allt fram, Angiſt og Hiartans Kvol Oumñrædeleg, laangt yfer allañ Menſkañ edur Einglaña Krapt og Maatt. J þeſſum hañs Sveita, hefur allur hañs Maattur og Megn ſliteſt, hiadnad, og þornad, ſo ſem þurt Leirkier, og hañs Twnga hefur klemd vered vid hañs Goom.

Eg helld ad ſoñu, mijn Saal, ad þetta ſie noog Mark og Audkieñe til hañs hrædelegu Hiartans Kvalar, ſem hañ i Grasgardenum þolde fyrer oſs. Bølvader hlioota þeir fortøpudu Villumeñ ad vera, fyrer hvorra Muñ Dioſulleñ hefur Pijnu þij-

ns Lausnara spottad, og seigia lærted; hun hafe ecke vered nema ad Yfervarpe, eñ eingeñ Alvara. Ef einum kraunkum Mañe svijdur, þa nockur mistrygger, og eige vorkieñer hañs Veikleika; Mun þad þa ecke svijda þier DRottiñ miñ JEsu, ad slijkt þier nockur giora skule, þu sem þad hrædelega Helvitska Bloodbad saklaus þolder fyrer oss?

O! DRottiñ miñ JEsu, miñ Liufe Lausnare; Hvad stoor var þijn Hrygd? Hvad hrædeleg var þijn Titran og Angist? Hvad Ognarsamleg var þijn Hiartans Kvøl? O! þu goode Herra Gud; Hvad Eckafullur varstu? Hvad þung er þijn Pijna? Hvad saarer voru þijner Harmar? Hvad Hørmulegar voru þijnar Pijsler? Jaa, allt þetta var meir og frekara eñ nockur kuñe þad riett ad hugsa, eñ sijdur ad tala þar um.

## Sok og Efne til slijkrar Hrygdar Angistar og Harmkvælingar DRottins.

HVad hafder þu þad giort, DRottiñ JEsu, ad þu þyrfter so ad bera þig? Hvad hræddest þu? Hvadan kom þijn mykla Hrygd? Hræddest þu Daudañ? kvijdder þu vid Pijnuñe? Varstu ecke til þess i Heimeñ komeñ? Hafder þu ecke þess vegna teked vort Holld a þig, ad þu med þijnum Dauda skyllder yfirviña vorn Dauda, og giora þad hoolped sem tapad var? Hvad hefde

oss

oss stodad þijn Holldgan, ef ad Endurlausneñ sem med þijnu Bloode ordeñ er, hefde ecke þar med fylgt? Hefder þu ecke Drottiñ smackad þessa Daudans Kvøl og Helvijtis Angist og þolad þetta Bloodbad; Hvør hefde oss fra Helvijte frelsad? Hefder þu ecke Daudañ lided; Hvør hefde þa leist þa sem þu elskader so frekt. Laangade þig ecke epter þijnum Dauda? Þu sagder vid þañ sem þig sveik; Hvad þu ætlar ad giøra, þad giør þu snart, þvi skelfest þu nu so miøg? Jaa HErra JEsu, miøg ertu olijkur þijnum Heiløgum Pijslarvottum sem med storre Glede hafa geinged til sijns Dauda, og so sem hlæande sitt Lijf laated. Eg bid þig DRotteñ miñ, seigdu og syn þu mier Søk og Efne til þessa, ad þu varst so faadæma hryggur og Hiarta kvaleñ; Laat þiñ Heilaga Anda kieña mier þad ad skynia, og i Miñe leggia.

1. Sw Fyrsta Sok til þeirrar hrædelegu Angistar, DRotteñ miñ Lausnare, hefur vered sw Edlelega Skielsing, vid Daudanum, sem Mañlegre Naatturu er med fædd, hvøria Skielsing þu eirneñ (þo ad Syndlausu) i þijnu Hiarta fornumed

hefur; Þvi þu hefur vort Holld jañarlegá a þig teked, mz øllum Naatturlegum Veik leika, ødrum eñ Syndeñe. Og so sem nu Guddoomureñ, uñ Stund þessarar Kvalar, villde samþyckia slijka Oumræđelega Hlijdne, og lijda ad soddañ Skielfing, Otte, Angist og Kvøl skyllde yfer Mañdomeñ gaanga; Þa er ecke Furdande, þo þitt Holld hafe ecke haft Girnd til Daudans; Þvi þad er Naatturuñar Edle, ad þikia miked fyrer ad skilia vid þetta Lijf, þvi fordast Naatturañ Daudañ, þvi hun er i Upphafe skøpud til Lijfsins, eñ ecke til Daudans, Hvør ad er Skiemd og Spilling Naatturuñar. Þar fyrer kvaldest þu i þijnu Hiarta, ad Daudans Skielfing er yfer þig komeñ.

DRotteñ JEsu, gief þu mier þijna Naad og styrk mig i miñe Daudans Neyd, ad eg skilie Vilingur hier vid, og deye frøslega. Eñ af þvi ad slijkt er ecke i miñe Hende, eda under mijnu Hollde og Bloode komed, þa bid eg þig, ad verka þad i mier, med þijnum Heilaga Anda, sa mier kieñe ad leggia mig med Lijfe og Saalu þier einum i Valld Æfeñlega, Amen.

2. Þiñur Søk til þiñar hriggelegu Angistar, Drotteñ miñ JEsu, var sw hrædelega og þwnga Byrde vorra, og alls Heimsins Synda, hvøriar Gud Fader a þig lagt

lagt hafde; Pvi þo þu værer øngrar Syndar valldur, þa hefur þo samt Gud Fader allar vorar Synder, og vora andstygge-lega Glæpe þier til reiknad; Pu barst vorn Siwkdom, og vorum Hørmum hloodstu a þig; Pu hefur sockt þier nidur i þañ diwpa Saur vorra Synda, sem Botnlaus er, Pu varst staddur i þeim diwpu Vøtnum, og Vatnsfalled villde dreckia þier, Esa. 53. Psalm. 69.

Cain hafde ecke nema sijnar sialfs Synder ad bera, og var þo Raadlaus med øllu, og sagde: Mijn Synd er stærre eñ hun verde fyrergiefeñ. Achitophel og Judas ørvingluðust, ecke nema af þvi ad þeirra eigeñ Synder vøknudu. Eñ a þig Drotteñ JEsu, var øllum vorum Syndum safnad, þær laau þier a Haalse, og þvi hefur þu vered so Harmþrwngeñ.

Siaa hier mijn Saal, Hvad þeir Vondu høfdu forþient, Hlaut sa Saklause ad lijda, vid þvi sem Prælleñ hafde til uñed, hlaut HErrañ ad taka, Hvad Madureñ hafde broted, þad hlaut Gud sialfur ad bitala og bæta. DRotteñ JEsu, eg hef ad soñu syndgad, eñ þu tookst vid Refsingu-

uñe:

uñe; Eg hefe broted, eñ þu gallſt þeſſ; Eg var Drambſamur, eñ þu giordeſt Lijtelaatur, eg var hræddur um̃ mig, eñ þu tookſt vid Pijnuñe, eg var Ohlijdeñ, eñ med þiñe Hlijdne hefur þu bætt mijna Ohlijdne.

3. Þridia Søk og Efne til þiñar hrædelegu Neydar, Kvalar og Angiſtar, Drotteñ miñ, var ſw breñande Ognar Reide þijns Fødurs a Himnum, ſem hañ hafde aa øllum Heimſins Syndum. Þeirre ſiñe Reide hefur hañ allre wt yfer þig auſed, þar þu til þeſſ eins komſt i Holldenu, ad taka a þig þa Pijnu og þad Synda Straff, ſem oſſ Møñunum yfer Hofde hieck. Hañ lypte upp ſiñe Hende, ſem þijngre var eñ allt Veralldareñar Jarn og Bly, og ſloo, knoſade, kramde og þiaade þig, ſo þu Bloodenu ſveitteſt.

O! Herra Gud, þwngt laa þad a vorum Forfødur Jacob, þa Gud glijmde vid hañ og lietſt vera Reidur. Hvad Aumlega bar David ſig, þa Gud ad eins liet hañ fiña nockud til ſiñar Reide? Eñ þu DRotteñ JEſu, hafder allar Heimſins Synder, og alla Guds Grimdar Reide ad bera. Þijn Augu Taarfelldu, eñ ſa var ei neirn ſem þig ſkyll-

skylldе hugga. O Rotteñ giørde þig so fullañ Eymdar a sijnum Reideñar Deige.

Hvad Undarlegur Urskurdur, Hvad diwpur Leindardoomur er þetta? Ad sa Rannglaate syndgar, eñ sa Riettlaate tekur vid Refsinguñe; Sa Ogudlege giører Illt, eñ sa Heilage fær Afellis Doom þar fyrer.

4. Siw Fiorda Søk og Efne til þijns Blooduga Sveita, O Rotteñ JEsu, var siw hrædelega Araas, Astrijda og Angist sem Diøfulleñ og hañs Arar þier veittu; Þviad Gud þiñ Fader yfergaf þig uñ Stundar saker, og kastade þier i Helvijtis Angist; Hañ hefur yfergiefed þig i allra Ovina Hendur, So ad þeir plaagudu og slæe þig, søkum vorra Synda, Psalm. 8.

Þvi hafde Diøfulleñ allt i frañe, þvi hañ kuñe og neitte siñar Þusundføllдu Flærdar þier i moote. Løgmaalsins Bølvan dunade fyrer þijnum Eyrum, og Daud ans Broddur er i giegnum þijna Saal geingeñ. Helvijte villde svelgia þig, og eingeñ var siñ þijna Saal huggade. Jaa, mijn Saal, þar fyrer ber hañ sig so Hryggelega, og er lijkur þeim sem fara til Helvijtis, og

Hiaalp

Hiaalp ongva hafa. Hañs Yferbragd er Hryggelegt af Angist, Hañ er Vesæll og Vanmegna, af þvi hañ er utskufadur, og hañ lijdur soddañ Skielfing, ad hønum liggur vid ad Vanmegnast.

Drotteñ JEsu, þu varst Harmþrwngeñ, eñ þar var eingeñ sem þig Huggade. Aller þijner Oviner heyrdu þad og gløddust. Otte og Skielfing, Ogn og Hrædsla voru yfer þier. Bond Daudans lagu at þier, og Læker Belias skielfdu þig. Pad giørde allt samañ DRotteñ Gud þiñ, sem vorum Syndum hafde a þig hladed, og þig hafde seldt i þvilijka Pijnu, Ps. 55.18.

5. Hier ad auk kiemur nu sw Fiñta Søk og Efne, miñ Lausnare, sem þijna Saal og Hiarta so kvalde, sem var þetta: Pu visser og sæst þad fyrer, ad þesse þijn Oumrædelega Kvøl og Bloodsveite, mundemørgum Otelianlegum Lijd til einskis Gagns koma, hvørier þitt Blood mundu med Footum troda, og þijnu Evangelio ecke trwa. Peir reña hvør epter ødrum, þad mun þeim Sorger ebla, þeir vilia ecke taka þig fyrer siñ Lausnara, þvi munu þeir i sijnum Syndum deya. Ef Jardnesk-

neſkium Mañe þiker miked, þa hañ vill nockrum Gott giöra, og ſa ſame kañ ecke ad þeckiaſt þad; Hvad mun þier þa þikia miñ Lauſnare, um̃ þa, ſem þijna Velgiörninga, Trygd og Hiaaſtod ecke ackta, nie aa þig trwa vilia?

Gief Raad Lauſnare miñ, og hiaalpa ad þijn Pijna Vijdfrægeſt til Veralldareñar Enda, ſo ſier til þijn ſnwe, og þig tilbidie allar Piooder Jardareñar. Laat þier epter verda nockud Sæde ſem þier þioone, og laatta þa kuñgiöra wt af þier, hvørn eirn ſijnum Epterkomendum, ſo þeir kome og um̃ þitt Riettlæte kieñe. O! DRotteñ vert mier Aumum Syndara Naadugur, og laat þijna hrædelegu Daudans Kvøl ecke verda mier Gagnlauſa.

## Hvør Mismunur ſie aa mille Pijnu
Guds Sonar, og añara Pijſlarvotta ſem glader hafa geinged til ſijns Dauda.

Saal mijn, þar ſier þu, af þvi ſem nu er upptaled, ad añara Pijſlarvotta Kvaler eru ecke ſamañ reiknande vid Pijnu þijns Lauſnara; Þvi þijn Pijna DRotteñ JEſu, var þad rietta Synda Offur og Forlijkunar Offur vid Gud Almaattugañ. Eñ Pijſler þeirra Heilögu eru ecke añad eñ Packlætis Offur, fyrer þijna Velgiörninga, til ad prijſa þitt Nafn. Þu DRotteñ JEſu, varſt ſo ſem Bølvadur, og af Gude

For-

Forlateñ, eñ þeir eru jafnañ i Guds Fogn-
ude, Naad og Fride. Yfer þig gieck þad
hrædelega Flood Syndaña og Guds Rei-
de; Eñ þeir hofdu Guds Vingan og Fogn
ud, i ſijnu Hiarta, og þvi gaanga þeir ſo
glader til ſiña Pijſla.

Þu barſt þa hrædelegu Byrde allra vor-
ra Synda, Eñ þeir eru med þiñe Pijnu
Synda frij, og ſiña øngvañ Synda Þwn-
ga. Þig kvalde Løgmaalſins Bølvan; Eñ
þa hefur þu giort kvitta af heñe. Þu mætt-
er hrædelegum Freiſtingum Diøfulſins;
Eñ þeir hafa Huggunar Anda Naadareñ-
ar, og fulla Hiartans Glede. Þu ſmack
ader Gall og Beiſkleika Daudans; Eñ þe-
ir ſmacka Sætleika þijns Heilaga Nafns.
Þu varſt kvaleñ bæde a Saalu og Lijkama;
Eñ þeir ecke nema a Lijkamanum. Þu
ſmackader Helvijtis Angiſt, og Eilijfa For-
dæming, eñ þeir hafa Smeck eilijfs Lijfs.

Hvad Chriſtum þvijngade til þeſs, ad hañ villde lijda ſoddañ Kvøl Pijnu og Angiſt.

HVad droo þig nu til þeſs, miñ Lauſna-
re, og þvi ſøkter þu þier ſo viluglega i
þeſſa hrædelegu Kvøl og Angiſt?

1. Þad giørde fyrſt þijn ſonarleg Hlijd-
ne

ne vid þiñ Himneſka Fodur, þvi hañs Vilia giører þu giarnañ, og ſeiger ; Eg hefe ſagt til DRottins; Þu ert ad ſoñu Drottiñ ; Eg hlijt epter þijnum Vilia ad pijnaſt, Pſalm. 40. 16.

2. Þar næſt var þijn omæleleg Elſka og Kiærleike til vor aumra Mañа, i þvi þu hefur elſkad oſs allt i Daudañ, og ſagt ; Vegna þeirra Hellogu ſem a Jørduñe eru, og vegna þeirra Soomaſamlegu, æ þeim hef eg alla mijna Þocknan, Pſ. 16.

Þar fyrer hefur þu Mañlega ſtrijdt, og Hofdinglegañ Sigur uñed. Þad var wtgiørt med mig, og eg var ſo ſem i burtu ; Eñ þu ſellder ſialfañ þig miña vegna, ſo þu feinger mig leyſtañ, þu elſkader mig ſo frekt, ad þu gafſt þitt eiged Blood mier til Lauſnar, og Elſkader mig meir eñ ſiælfañ þig, þar þu gafſt þig i Daudañ fyrer mig.

Lauſnare miñ, hvørneñ kañ eg þier ad Endurgiallda, þad þu hefur mier ſo freklega til Gooda giørt, Pſ. 126.

Nu koma Agiætar Kieñingar og Huggunar Greiner, ſem vier ſkulum taka oſs til Lærdooms, af þeſſu Dauda Strijde Chriſti. Og þar næſt, hvad føgur Alldin

vier meigum plocka wr þessum Alldingardenum HErrans
JEsu Christi Pijnu og Angistar.

Fyrst er þetta Daudans Angur Christi oss eirn Speigell, i hvorium vier lærum ad skoda Syndena, og Guds Reide i giegn Syndeñe.

So talar DRotteñ miñ Lausnare: Mier hefur þu Armædu giort med þijnum Syndum, og hefur mier Mædu auked med þijnum Misgiorningum. Eg er hañ sem af maaer þijnar Yfertrodslur, sökum mijn, og miñest ecke a þijnar Synder, Es. 43.

Heyr þu hier mijn Saal, og laat þier gaanga til Hiartans þesse Ord DRottins, jaata a þig þijnar Synder, og ydrast þeirra af Hiarta. Siaa DRottiñ seiger þier þad liooslega, og dregur þad ecke fyrer þier, ad þu hafer hönum þessa Daudans Angist bakad med þijnum Syndum, og þetta Blood-Bad med þijnum Misgiorningum tilreidt. Ad söñu DRottiñ JEsu; Eg hefe þier þessa Armædu auked; Eg var Sök og Efne til þiñar Hrygdar; Oll þijn Kvöl og Pijna kom af mier til.

Nu sie eg þad, DRottiñ miñ, og Lausnare miñ, hvad þoleñmoodur þu hefur

vered

vered vid mig, allt til þessa Dags, ad þu et hefur refsad mier epter mijnum Verkum. Avi Drottiñ miñ JEsu, Hvad opt hefur þu mætt med riettu diwpt i Helvijtis Afgruñ mier nidur steypa, og hefur ecke villad? Þu hefur mier so næsta Naadugur og Lijknsamur vered. Miñ Lausnare, eg jaata þier allar mijnar Synder, og dyl ecke mijnar Misgiørder fyrer þier, med þeim hefe eg þig til Reide reitt, og þijna Grimd verskulldad.

Nu sie eg uñ sijder, hvad stoor og mikel ad er vor Synd; Nu skynia eg hvad alvarlega Gud Reidest vorum Syndum; Þvi sijnum eigeñ Syne hefur hañ ei hlijft, helldur hañ fyrer ossi Daudañ giefed.

DRottiñ miñ JEsu, þad være eingeñ Undur, þo mitt Hiarta sprijnge i sundur af Harme og Jdran, þa eg uñ slijkt hura. Helvijtis Pijna kañ ecke so stoor ad vera, ad eg hafe ei stærre forþient med mijnum Illgiørdum. Eg er ei verdugur ad kallast þijn Skiepna og ei verdugur ad Jørdeñ hallde mier uppe, og mier Næring giefe. Eingeñ Undur være þott allar Skiepnur Guds a Himne og Jørdu, hefnde þess

 ami-

a mier, sem eg hefe þier a moote giort med mijnum Syndum.

Jaa, ad sönu mijn Saal; So sem þiñ Launsnare i Grasgardenum hafde stundlega Hrygd, Hrædslu og Kvalaña Angist, eins hlioota allar ydrunarlausar Mañeskiur i Helvijte ad hafa æfenlega Hrygd, æfenlega Hrædslu, æfenlega Kvol, Pijnu og Angist; Jaa ad vijsu, uñ Alldur og Æfe faa þeir alldrei neina Froo nie Roo a siñe Angist.

Eins sem DRottenñ hroopade og sagde; Mijn Saal er hrygg allt i Dauðañ; So munu þeir Ogudlegu og Jdrunarlausu eilijflega hroopa og hrijna seigiande; Eg lijd hrædelega Pijnu i þessum Loga. Þeir munu leita ad Daudanum, og hañ ecke fiña, þeir munu feigeñ vilia deya, og Daudeñ mun flya fra þeim.

Eins sem Lausnareñ bad naakvæmlega, og vard þo ei i þad siñ Bænheyrdur af sijnum Himneska Fødur, so munu þeir Ogudlegu æfenlega yla og æpa og þo alldrei huggader verda. Øll Naad og Myskun er þa wte og a Enda komeñ, þeir eru eilijflega iñeluckter i sijnum Kvølum.

Eins

Eins sem Lausnaren bardest vid Daudañ med Hrelling og Angist, gieck aptur og frañ, hijngad og þanngad, hafande øngva Roo nie Froo a siñe Hiartans Kvøl og Sorg. So munu þeir Ogudlegu eilijfa Angist bera, ad Hvijld leita, og fiña hana ecke; Eyturpøddurnar munu þeirra Underdijna vera, og Ormarner þeirra Abreida.

Jaa, eins og Lausnaren i sijnu harda Daudans strijde sveittest Bloodugum Sveita, so munu aller vantrwader i Helvijtsku Bloodbade Sveitast Eilijflega aan Enda, i omælanlegum Kvølum og Pijslum Andar og Lijkama. Þeir munu ei añad fiña, eñ Angist og Hrædslu; Ei añad heyra eñ Vach og Vei, Oop og Jlbran, ei añad siaa eñ þañ griña Diøful, og Elldebranda þeirra Ogudlegu; Ei añad Lyckta, hefa eda Smacka, neina Brælu og Breñesteins Yldu og Oþeckt. Þeirra Ormur mun ei deya, og þeirra Elldur ecke slockna, Guds Reide er yfer þeim. Syndeñ þrycker þeim nidur, Daudeñ nagar þa, Diøfulleñ pijner þa, Samvitskañ bijtur þa, Løgmaalsins Bølvan hræder og skielfer þa; Og Helvijte

ſvelger þa eilijflega fyrer utañ Enda.

O! JEſu Chriſte, O! þu trwfaſte Hiaalpare, O! þu goode HErra, O! miñ Lauſnare, og miñ Saaluhiaalpare; Laattu mig ecke deya i mijnum Syndum, leingdu Alldur miñ, og hiaalpa mier til ſañrar alvarlegrar Ydranar, ſo þijn Dijrmæta og bitra Daudans Kvøl og Pijna kome mier til Hiaalpar, eñ ecke til Gløtunar.

Þu hid harda Stein-Hiarta, hvønær ætlar þu ad vakna? Þu Jarn-Hiarta; Laat þijns Lauſnara Hørmung og hañs Angiſt, ſem hañ leid þiña vegna, gaanga þier til Hiarta. Ef kieñer þu ecke til þiña Synda, þa gack til Vidſmiørs Fiallſins, og ſkoda þar þiñ Lauſnara, hvorneñ hañ ſveitteſt under þijnum Syndum; Þike þier Syndeñ liett og lijtels verd, þa gack til Oliveti Fialls, Og ſiaa þar þad dyrmæta Lauſnargialld fyrer þijna Ohlijdne, ſem er Blooded HErrans JEſu Chriſti. Hygg ad og ſiaa, þar er eingeñ Synd ſo lijtel til, ad hun hafe ei forſkulldad eilijfar Helvijtis Kvaler, ſem þier ad vijſu eru fyrerbwnar, og ætladar, utañ þu i Tijma ydreſt þiña Synda og Misgiørda af Hiarta, og giører Yferboot.

Daudans Angiſt HErrans Chriſti, er vor Huggunar Speigell, i hvorium vier meigum ſkoda Guds

Elsku og Giæsku til vor, og þar med ad faa Syndaña Fyrergiefning.

ENN fagna þu mijn Saal, og vert glød vid, Þviad þiñ Lausnare hefur frelsad þig, af þijnum Ovinum, og af Hende þeirra sem þig høtudu.

DRotteñ er þad saña Leon af Kyne Juda, og hefur Sigureñ uñed aa þvi grenianda Leone Dioflenum, sem þijna Saal villde giarnañ svelgia. So hefur vor saññe David Christus, þañ ognarlega Goliath ad Velle lagt. So hefur DRottiñ saa riette Michael, yferstijged þañ gamla Dreka. So hefur hañ hreinsad þijnar Synder, med sialfs sijns Bloode, og stillt sijns Fødurs Reide. So hefur hañ afteked Løgmaalsiñs Bølvan, og þig leyst wr þeim Helvitska Pitte, þar sem eingeñ Huggun var.

O! JEsu, þu Eilijfe Guds Sonur, Hvad Vreñande er þiñ Kiærleike til vor? Hvad rijk er þijn Raad? Hvad Omæleleg er þijn Giæska? Hvad stoor er þijn Vinaatta? Hvad Vegleg er þijn Trwfeste? Jaa, miñ DRotteñ JEsu, þu giekst i Borgun fyrer oss, og lofader þijnum Fødur ad bitala

fyrer oss, og bæta vora Syndaskulld. Þar fyrer sellder þu sialfan þig i Daudan fyrer oss, og bitalader med þijnu dijra Bloode fyrer vorar Synder, Jaa, ecke ad eins fyrer vorar Synder, helldur fyrer alls Heimsins Synder. Daudan og Diøfulen hefur þu siñe Magt svipt.

Vert med goodu Giede, mijn Saal, þvi ad þu hefur øruggva Hiaalp. DRotten er sialfur komen ad hiaalpa þier, og Kviñuñar Sæde hefur Hoggormsins Høfud sundur knosad; Sonur Guds, þitt Hiaalpræde, hefur openberad sig, og hefur Diøfulsins Verk nidur broted.

DRotten miñ JEsu Christe, sem so miøg varst hrelldur under miñe Synda Byrde; Forda mier þeirre Eilijfu Hrellingu i Helvijte, Og laat mijna Stundlega Hørmung snwast i Eilijfan Føgnud, Þvi þijn Hrygd hefur mier Eilijfa Glede wtvegad. DRotten JEsu, sem hrædelega titrad og skolfed hefur, under Grimdar Reide þijns Fødurs, Forda mier þeim Eilijfa Skiaalfta; Hugga þu mijna skielfda Samvitsku, Laat mig i Hiartanu fiña, ad eg hef nu Frid vid Gud þiñ Fødur, fyrer þig, þvi þijn Hrædsla frelsade mig fra þeirre Eilijfu Hrædslu. DRotten JEsu, sem so hrædelega kvaldest i þijnu Hiarta, þa Helvijte reif upp sitt Gin, til ad svelgia þig vegna miña Synda, Forda þu mier þeirre Eilijfu Kvøl og Pijnn; Fyll mitt Hiarta med lifande Huggun, so ad eg alldrei i Orvijlnan falle. Þvi þijn Hiartans Kvøl og Pijna hiaalpar mier af allre Orvæntingu og Astrijdu. DRotten JEsu, sem under Grimd-

ar

ar Reide þijns Fødurs, miña Synda vegna, Bloodenn sveittest so allur þiñ Maattur og Megn var i burt; Styrk þu mig i allre miñe Anaud, Hugga mig i allre miñe Angist, og lækna øll mijn Synda Saar. Þvi þiñ Hrygdar Sveite frelsar mig af Eilijfre Hrygd og Angist. DRotteñ JEsu, Þu sem þijna Blood-Dropa, lietst falla a Jørdena; Laattu þijns Ords Krapt falla i mitt Hiarta, sem lijka er Molld og Jørd, so eg aavallt þijna Sætu Huggun smacke, ad allt sie nu kvitt og saatt fyrer þitt Blessada Blood. DRotteñ JEsu, sem vegna miña Synda giørdest hryggur allt i Daudañ; Gief þu mier stoduga Huggun allt til miña Æfeloka; Laat mig med Glede i burt sofna, og Daudañ ei smacka, og fyrer þijna Naad til Lijfsins i Himnana iñgaanga.

DRotteñ JEsu, sem bardest vid Daudañ, og miña vegna hefur smackad hañs Brodd, Hiaalpa þu mier, so ad eg Mañlega strijde, og ad eg i giegnum Daudañ komest til Lijfsins, Þvi med þijnum Bardaga hefur þu mier Sigureñ feinged og afrekad. DRotteñ JEsu, þu sem i þijnum Daudans Bardaga so badst Akaflega fyrer, og alvarlega, Foll þu mitt Hiarta med Bænareñar Anda, so ad eg aan Aflaats bidie þig millde Lausnare, uñ gooda og Gledelega Heimfør, So eg ødlest goodañ og Christelegañ Afgaang af þessum Heime; Og þa mijn Dauda-Stund er fyrer Hende, þa uñ þu mier ad eg þig af Hiarta aakalle, og þig med Muñenum jaate, So mitt Lijf endest med Trwareñar Andvarpan, og Saaleñ i þiña Eingla Høndum boreñ verde i þitt Himneska Rijke, Amen.

## Daudans Christi Angist kieñer oss, ad Medalgaangareñ sie sañur Gud og sañur Madur.

HJer skalltu læra mijn Saal, ad þiñ Medalgaangare og Lausnare, sie bæde

saman Natturlegur Madur, og saman Natturlegur Gud, i eirnre Osundurskilianlegre Persónu. Þad han sie saman Madur, þad sier þu af Otta og Natturlegum Kvijda, sem han hafde fyrer Daudanum og af þeim stora Veikleika, sem hans Blod ugur Sveite at hønum audsijnde. Ad han sie og lijka eirn Eilijfur Gud, þad kantu þar af ad vita, ad han af slijkre Helvijtis Angist, og Oseigianlegre Astrijdu, vard ei yfersttijgen, helldur stood han þad af sier, yfervan þessa Astrijdu, og afrekade stooran Fagnadar Sigur.

Jaa, mijn Saal, Slijkan Almattugan Medalgangara hlutum vier aller ad hafa, sem bæde være Gud og Madur, ellegar hefdum vier eilijflega i Syndenne daaed. Madur hlaut han ad vera, so ad Guds Riettlæte yrde Fullnægia giørd. Þviad søkum þess ad Madur hafde syndgad, þa hlaut sa Madur ad vera, sem þar fyrer skyllde lijda. En sa same hlaut og lijka Gud ad vera; Þvi eingen einføllð Skiepna, hvørke a Himne nie a Jordu, kune Guds grimdar Reide ad bera, Syndena burt ad taka, Diøfulen ad sigra, Daudan ad yfersttijga,

Hel-

Helvijte nidur ad briota, og þar i moot GudsFodurs Reide ad stilla, Eilijft Riett læte aptur ad giefa, vid Gud ad tala, til hañs Hægre Handar ad sitia, hañ Heilaga Anda ad senda, þad Eilijfa Lijf ad giefa, Trwadra Bæner og Andvarpaner ad heyra, Mañaña Hiortu ad ransaka, Christelegre Kyrkiu ad safna, hana ad vernda og Saaluholpna ad giora Eilijflega.

Og þo nu slijkur Kvijde og Angist, Hrigd og Blood-Sveite Eigenlega til heyre þeirre enu Mañlegu Naatturuñe, þviad hun ein kañ ad lijda, eñ Guddomleg Naattura ecke, þa hefur þo samt Guddomureñ eda sw Guddomlega Naatturañ sier þad sama tillagt og eignad, Pviad aa Angistar og Hrigdar Tijmanum hvijldest hun, þad er, giordest so frekt Vilug og Hlijdeñ, ad hun liet slijka Hrigd og Pijnu koma yfer Mañdoomeñ, edur yfer þa Mañlegu Naatturu Christi, og under þvilijkre þungre Byrde, studde og vid hiaalpade Guddomleg Naattura, so hun geinge ecke til Gruñs. So er nu vor Endurlausn, allre Personuñe, þad er, bæde Gude og Mañe JEsu Christo ad þacka.

Lofadur

Lofadur sierlu Mottenn JEsu, Sañur Gud og Sañur Madur, sem þig i Daudañ fyrer oss hefur giefed, og oss Eilijft Hiaalpræde hefur afrekad, Amen.

## Dauda-Strijded Christi er Speigell allra Trwadra, hvorier sijna Æfe længa verda eirneñ ad strijda, og skulu med Christi Hiaalp Sigureñ viña.

MJJN Saal, So sem vor liwfe Lausnare hiellt Strijd a Vidsiniørs Fiallenu, vid alla sijna Ovine, med storre Hrygd og Alvøru, og Atburdum. So skalltu vita mijn Saal, ad þu hlijtur ad strijda þijna Æfe læanga, i moote þijnum Ovinum, þvi hafe Syndeñ setst ad þijnum Mottne, þa lætur hun þig ei Hlutlausañ. Hafe Guds Reide þvijngad hañ, þa kiemur hun fram vid þig. Hafe Diøfulleñ freistad hañs, þa mun hañ ecke hlijfa þier. Hafe Daudeñ hreillt þiñ Lausnara, þa mun hañ og hrella þig. Hafe Helvijte viliad svelgia hañ, þa mun þad og vilia gleipa þig. Hafe þiñ Lausnare Kross og Mootgæng lided, hier a Jørduñe, þa æattu þad eirneñ fyrer Høndum. Hafe Holld og Blood þijns Lausnara haft Kvijda og Hrelling i hañs hrædelega þwngu Daudans Strijde, þa muntu eirneñ til þijns Veikleika

sinna verda.

Siaa þar miin Saal, Aller þesser eru þijner openberer Fiand-Menn og Oviner, sem Daglega vid þig Hoolmgongu hallda, og aa þig strijda.

O! JEsu, Sannlega hefe eg ecke ad eins vid Holld og Blood ad beriast, helldur vid Stoor-Høfdingia, þa sem i Heimsins Myrkrum rijkia, Jaa, vid þa Illsku Anda under Himnenum. Enn þu DRotten minn Frelsare ert sa riette Jonathas, sem Philistæis hefur Slag veitt; Eg er ad eins þinn Skialld-Sveirn; Hiaalpa mier, so ad eg brwke riettelega þijn Vopn, og Mannlega fylge þier. Þu ert minn riette Meistare, unn mier ad eg lære Strijds Atferdena af þier, og med þinne Hiaalp mijna Ovine yfervinne. Iklæd þu mig þijnum Herskrwda, og styrk mig so eg giete stadest, þa O-stundenn ad Høndum kiemur, og ad eg kome ollu til Leidar, og Hoolmenum hallde.

## Hvada Vopn og Veriur Herrann Christur hafe haft, þa hann bardest vid Daudann, Diofulenn og Syndena, Guds Reide og Helvijte; Og hvoria Adferd hann hafe, ad koma Vopnum fyrer sig, sem vier skulum af honum læra.

## Strax sem Orustunne took, þa tekur hann til ad bidia.

LEgg þad vel a Hiarta miin Saal, ad ef þu ratar i nockra Astrijdu, þa kalla þu a DRottenn. Drag ecke undann þijna Bæn, og vert ecke Sofande i þinne Neyd; Stattu upp og kalla a Gud þinn, þa mun DRottenn þier ad goodu Athvarfe verda. Akalla hann

i þinne

i þiñe Neyd, og mun hañ frelsa þig. Þvi-
ad Bœn þeirra Naudstøddu og Aumu
smijgur i giegnum Skyeñ, og nemur ei
Stadar fyrr eñ sa Hædste ælijtur hana.

O! DRotteñ JEsu, Uthell yfer mig þijnum Anda,
Anda Naadareñar og Bœnareñar, so ad eg Daglega
beyge mijn Knie fyrer þijnum og mijnum Fødur, sa sem
kallast hiñ riette Fadereñ yfer øllum þeim sem Børn kall-
ast a Himne og Jørdu. Laat mig fyrer hønum beyg-
ia Knie mijns Hiarta i allre miñe Neyd og Naudþurft,
og Heiløgum Høndum til Himna hallda, ææn Reide og
Møglunar, med stødugu Trauste, og þeirre Trw, ad
allar mijnar Bœner verde af þijnum Fødur, Bœn-
heyrdar i þijnu Nafne, Amen.

Hañ giørde sijna Bœn Afsijdis Alleina.

HAñ skillde vid sijna Lærespeina, og gieck
fra þeim, so sem eitt Stein-Kast, kraup
þar nidur og fiell til Jardar aa sijna Asio-
nu, og badst fyrer. So skalltu giøra, mijn
Sæl, þa þu bidur til Guds i þiñe Neyd,
Far þu ecke sem Hræsnarar, hvørium
giarnt er ad standa og bidia i Samkund-
um og aa Gatnamootum, so adrer siææ
þeirra Heilagleik. Eñ þa þu villt bidiast
fyrer, Gacktu i þitt Leyndar Herberge, og
laat Dyrnar aptur epter þier, og æakalla
so þiñ Fødur i Leindum Stad, og þiñ Fad-
er sem sier þad i Leyne er, mun þier uñbu-
na

na Openberlega.

Hañ bad med faum Ordum, eñ þo
miøg Hiartgroonum.

EJ var þiñ Launare Margtaladur i ſiñe Bæn mijn Saal. So ſkalltu og giøra: Pa þu bidſt fyrer, ſkalltu ecke ſlapra margt ſem þeir Heidnu, Þvi þeir meina þa ſie þeirra Bæn veitt, ef þeir eru margorder; Þeſs vegna ſkalltu ecke lijkiaſt þeim, þvi þiñ Fader veit hvørs þu þarft, fyrr eñ þu tekur til ad bidia.

DRotteñ hiellt a ſiñe Bæn; So ad
hañ bad þriſvar.

HEr þad mijn Saal af hønum, a þiñe Bæn ad hallda, og æ Hiaalp DRottins ad vona. Sia þiñ Lauſnare badſt fyrer þriſvar, med ſømu Bæn, og þeſs leingur hañ bad, þeſs æxkaflegar bad hañ.

Hiaalpa mier DRotteñ JEſu, ad eg a miñe Bæn hallde, og ei aflaate. Siaa, eg bid DRottiñ JEſu, læt mig ødlaſt; Siaa eg klappa a Dyrnar DRottiñ JEſu, laattu upp fyrer mier, þvi þu hefur ad ſøñu ſagt; Hvør ſem bidur, mun ødlaſt, hvørſem leitar mun fiña; Fyrer þeim ſem aakrijr, mun upploked verda.

HErrañ Chriſtur vænte og beid epter
ſijns Fødurs Hiaalp.

ÞO bier þike Hiaalp DRottins freſta, mijn Saal, þa ſkalltu ſamt vona heñar,

þvi

þvi hun mun eflaust koma. Þvi ſiaa þu hier; Þo Gud Almaattugur Fader, hefde ſo aaſett, og ſiñ Son i ſlijka Dandans Angiſt koma laated, þa ſende hañ ſamt ſiñ Eingel af Himne, til ad ſtyrkia hañ. Þvi ſkalltu aavallt hafa ſlijka Von til DRottins; Vert ørugg og okvijdeñ, og væntu DRottins, og ſlepp þu hønum ecke, þaangad til hañ bleſſar þig. Kalla þu efalauſt, þaangad til hañ ſnijſt vid þier, og frelſar þig. Hañ er naalægur øllum þeim hañ aakalla, hañ giører hvad þeir Gudhræddu uñ bidia, og heyrer þeirra Kall, og hiaalpar þeim.

Frelſe hañ þig ecke ſo ſnart ſem þu villt, þa ſender hñ þier ſamt einhvøria Huggun. Þvi hañs Einglar eru i krijngum þig, þegar þu giører þijna Bæn, ſo ſem þeir voru i krijngum Herrañ Chriſtum, ſem færa þijna Bæn frañ fyrer hañ, ſo ſem Eingilleñ ſagde til Tobiam. Eg bar þijna Bæn frañ fyrer DRottiñ, Tob. 12.

O! DRottiñ miñ JEſu, laat þijna Heilaga Eingla mier alla Tijma naalæga vera, ſo þeir ſtyrke mig, og mijna Bæn fyrer þig bere, og mig vardveite a mijnum Vegum.

J añañ Maata ſetur hñ allt ſitt Trauſt til ſijns Fødurs, og vonar alleina uppa hañ.

Hygg

HYgg ad þvi eirneñ mijn Saal, hvorſu faſta Trw HErrañ i ſiñe Baraattu hafde til ſijns Fødurs. Bardveittu mig DRottiñ (ſeiger hañ) þvi eg treyſte aa þig. Þar fyrer hefur Gud frelſad hañ wr Angiſtiñe.

O! mijn Saal, Forlaat þu þig med ſama moote uppa DRottiñ, af øllu Hiarta og forlaat þig ecke uppa þijna Vitsmune; Þviad gott er ad treyſta DRottne, og ecke Moñunum; Jaa, ad forlaata ſig uppa DRottiñ, eñ ei uppa Høfdingiana. DRottiñ er ſem eitt Biarg, hañs Verk eru oſtraffanleg, þvi allt er þad riett hvad hañ giører, Trwfaſtur er Gud, og ecke er illt til hia hønum.

Skoda Dæme þeirra gømlu;. Hvør hefur nockurn Tijma til Skañar orded af þeim ſem a DRottiñ hefur vonad. Vei þeim ſem miſtreyſta DRottne, og ecke eru ſtadfaſter vid hañ. Vei þeim Ogudlega ſem hijngad og þaangad veiklaſt; Vei þeim ſem ørvænta, þvi þeir trwa ecke, og þvi faa þeir eckert Berndar-Skiool.

Giefmier Lauſnare miñ, ad eg ſetie alla mijna Von aa þitt Nafn; Laat mig ei reida mig uppa Meñena, þvi þeir bregdaſt i Neydeñe, og ecke uppa ſiaalfañ mig; Þvi Holld-

og Blood er til einskis, Helldur ad eg forlaate mig olldungis uppa þig, þu sem kant þa Daudu ad lijfga. Þitt Nafn er sem oviñañlegt Slot; Mijn Saal flijr þaangad, og hefur þar vrugt Athvarf.

Mijn Saal, vona aa hañ, fraa einum Morgne til añars: Vona a DRottiñ (seige eg) Þvi hiaa hønum er Naad og Endurlausn margfalldleg, Amen.

## Christur wtriette vel allt þad sem Fadereñ hafde hønum bifalad, og var hañs Vilia hlijdeñ.

O! DRotteñ JEsu, hvad hlijdeñ þu giør- dest þijns Fodurs Vilia? O! Fader (sagder þu) Eige sem eg vil, helldur sem þu villt. Þu varst hønum hlijdeñ allt i Daudañ; Jaa, allt i Krossins Dauda: Og þvi hefur hañ upphafed þig, og þier Nafn giefed, sem er yfer øllum Nøfnum.

Lærdu hier af Saal mijn, og legg þar Kapp aa, ad þu briootest ecke þijns Himnesta Fødurs Vilia aa moote; Helldur fws lega gaanger under hañ. Siaa, þu ferdast i giegnum þeñañ Eymdardal, og aatt mørgum og megtugum Ovinum ad mæta aa baadar Hendur, sem uñ þig vilia villa, og af Gøtu DRottins leida. Fyrer þier situr Syndeñ sem lockar þig til Jllgiørda; A Bake þier er Andskoteñ, sem þig eggiar ad laata Syndena raada vid þig. A hægre Hlid er Veralldeñ med sijn vond Epterdæme.

dæme, A vinstre Siidu Holld og Blood, med øllum sijnum Breiskleika.

Hvorneñ villtu nu mijn Saal, komast i giegnum þeñañ Eymdardal, so þu villest ecke? Eg vil (DRottiñ JEsu) aavallt hafa þitt Heilaga Ord mier fyrer Augum, og jafnañ þiñ Vilia giøra. Syndena og syndsamlegar Tilteigingar vil eg fordast, Diøflenum vil eg i Trwñe mootstødu veita, og þig uñ þiñ Heilags Anda Styrk bidia, Verøllduñe vil eg hafna, Holld og Blood vil eg med þiñe Hialp underleggia, þvi eg veit ad ecke er gott i þvi, 1. Cor. 9. Rom. 7.

DRotteñ JEsu miñ Lausnare, Gief mier jafnañ hlijded Hiarta, sem þijnu Løgmaale ecke gleyme, helldur þijn Bodord hallde. Þad þiker hvøriuin sem hañ sie aa riettum Veige. Eñ þu DRotteñ giører Hiørtun O-esud; Kieñ mier ad vita, ad Hlijdneñ er betre eñ Offur, og Gaumgiæfne betre eñ þad Feita af Offrenu; Leid mig med þiñe Hægre Hende, og slepp mier ecke fyrr eñ þu hefur komed mier i þañ eilijfa Føgnud, Amen.

## J Fioorda Maata, þa gleymde Christur ecke Kiærleikanum, i þvi hañ liet sitt Lijf fyrer oss.

O! HErra JEsu Christe, Allt hefur þu þetta giort wt af Hiartans Ast og Elsku, vid oss aumar Mañeskiur, fyrer þa Heilogu sem eru a Jørduñe, og fyrer þa Dijrdlegu, aa þeim hefur þu alla þijna

Pocknan. Pu hefur framar elskad oss eñ þig sialfañ, þar fyrer hefur þu giefed þig i þessa bitru Daudans Baraattu, og hefur hana yferstaded.

Fylg eirneñ þessum hañs Footsporum epter, mijn Saal, sem oss hefur so freckt elskad, þa vier vorum eñ hañs Oviner; Og laat þad Vonda ecke yferstijga þig, helldur sigra þu þad Vonda med Goodu. Gialld ecke Illt fyrer Illt, ei Lastyrde fyrer Lastyrde, helldur Blessa þu i stadeñ, þvi so skipar DRotteñ. Elsked ydar Ovine, Blessed þa ydur Bølva, Giored þeim Gott sem ydur Hata, Bidied fyrer þeim sem ydur Illt giora, og Offsækia, so ad þier sieud Børn ydars Fødurs a Himnum, þvi hañ lætur sijna Sool, skijna yfer Illa Meñ og Gooda, og giefur sijna Døgg yfer Raanglaata sem Riettlaata. Pyrste þiñ Ovin, gief hønum ad drecka, nær þu þad giorer, muntu hønum Ellds Glood yfer Hofud safna, og DRotteñ mun umbuna þier þad.

Laattu mig Drotteñ miñ þessu þijnu Dæme fylgia, og þar epter breyta.

I Fimtu Grein, þa giefur Christur sig med øllu i sijns Fødurs Hendur, og yferviñur alla Angist og Pijnu med Poleñmæde.

O!

O! HErra JEsu Christe, Hvorsu Poleñmoodlega barstu þijna Kvøl, og lietst þiñ Fødur rauda, eins og Lambed, siñ leidt er a Bloodvolleñ. Hañ hefur uñ litla Stund laated þig af Gude yfergiefeñ verda. Eñ med Dijrd og Heidre hefur hañ þig Koronad, Ps. 8.

Hier skalltu læra mijn Saal, ad þu ecke ad eins trwer a þiñ Lausnara, helldur og eirneñ, (ef so kañ skie), ad þu lijder hañs vegna, hvad sem uppa kañ ad koma.

Vilier þu Gude þioona, þa maattu bwast vid Mootgaange. Hallt þig vid Gud, og vert Poleñmoodur i øllum Mootgaange, Þvi so sem Gull er i Ellde klaarad og reynt, so verda þeir sem Gude þioona, i Mootgaangsins og Anaudaña Ellde profader og reynder. Eñ stattu stødug i Poleñmædeñe, þvi hun þocknast Gude. Gief þig ølldungis i Guds Vilia, og tak vid þvi sem ad Høndum kiemur, þvi þad giøra gooder Kappar, ad þeir gaanga under Høggeñ og taka vid þeim, og viña þar med Sigur.

DRotteñ JEsu Christe, sem alla þijna Ovine hefur med Poleñmæde yferuñed og med þijnum Krosse og Dauda þa sigrad, Vardveit mitt Hiarta fyrer Obol-

eñmæde, so ad eg ecke framar þig til Reide reyte, og mier Olucku stofne. Laat mig giefast þier Viliuglega i Valld med Poleñmæde, i allre miñe Asiriidu; Veit mier Styrk og Hiaastod med þijnum Heilaga Anda, ad eg um̃ siider med þier Sigrenum halde, Amen.

## J Sijdasta Maata er hier ad merkia, hvørsu Trwlega HErrañ JEsus hañ aamiñer sijna Læresveina, so ad þeir skulu vaka og bidia, ad þeir falle ecke i Freistne.

GLeim ecke þeirre tñelegu Amiñingu þijns Lausnara, mijn Saal, ad hañ Prisvarsiñum tekur til Ords, og seiger: Vaked og bidied, so þier falled ecke i Freistne, Andeñ er reidubweñ, eñ Holdded er veikt, etc. Avi mijn Saal, Villtu nu sofa og hvijlast? Þvi sefur þu? Siaa, sw sijdasta Stund er komeñ, um̃ hvoria þiñ Lausnare hefur fyrer spaad og sagt, ad aa heñe skule stoor Hormung koma, Siaa, Andskoteñ er laus, Olmur og galeñ, og veit þad ad hañ aa skamt epter, Verollldeñ er full af Prettum, og lockar þig til Syndareñar, og ad þu faller fra Gude, Holld og Blood er veikt, og fyseft jafnañ aa moote Andanum.

Vakna af þijnum Svefne, Statt upp af þijnum Dauda, og hegda þier vijslega epter Tijdeñe, þvi þetta er vond Olld; Vert

Vert ecke Gaalaus, helldur lær ad skilia, hvad ad sie DRottens Vilie.

Pioona Gude med Vökum og Bænum, Dag og Noott, og vert bweñ vid Freistingum; Lijd Polenmoodlega allt þad sem ad Höndum kiemur, og skeika ecke, so þu ær sterkare og stödugre verder. Strijd Kallmañlega, og kieppst epter Sigrenum, mijn Saal, medañ þu ert hier. Hier er Hlaup ad þreyta, eñ añars Heims er Koronañ. Hier stendur Bardageñ, eñ þar takast Launeñ. Halllt þig þar fyrer Hoofsamlega i öllu, og Athugasamlega, sem goodur Guds Kappe; Vak og haf grandvarañ Anda. Siaa til þu þockenst Gude, hvöriunn þu þioonar. Þijn Skijrn sie þier siñ eirn Skiölldur, þijn Trw sem Hiaalmur, Elskañ eda Kiærleikureñ sem Gladiel, Poleñmæde sem Brinia.

Hiaalpa mier med þiñe Raad, DRotteñ JEsu, ad eg læte þijna alvarlega Amiñing mier til Hiarta gaanga; Gief mier Krapt þijns Anda, ad eg aavallt stödugur sie i Trwñe, Voneñe, Bæneñe, med öllum Athuga og Andvarpan, so Freistingarnar yferstijge mig ecke, stattu mier hiaa, og hiaalpa, ad eg Diöfuleñ yferviñe med Trwñe, eñ Veröldena med Poleñmædeñe, Holld og Blood med Piaaning og riettre Agan; Gief mier þa Stadfeste, ad eg i þiñe Pioonnstu stande stödugur til Æfeloka, so eg Eilijflega Saaluhoolpeñ verde, og

þeirre Lijffins Koronu halldi, Amen.

# Ellefte Capitule.

## Hvørneñ Drotteñ var forrædeñ i Grasgardenum, Og hvad fleira þar vid bar.

OG Jafnsnart sem hañ var eñ ad tala um̃ þetta, Siaa, Eirn af þeim Tolf, sem Judas hiet, þa er hañ hafde nu til sijn teked Flock Maña og Þienara Kieñemaña Hofdingiaña og Phariseaña, kom hañ þaangad og med hønum Flockur mikell, med Blijsum, Lempum, Sverdum, Staunguñi og Vopnum, wtsender af Kieñemaña Høfdingium, Skriptlærdum og Ølldungum, og hñ gieck fyrer þeim.

Sem JEsus visse nu allt hvad yfer hañ ætte ad koma, Gieck hañ fram̃ og sagde til þeirra: Ad hvørium leited þier? Þeir svørudu hønum, ad JEsu af Nazareth. JEsus sagde til þeirra: Eg em hañ. Eñ Judas sa ed sveik hañ, stood eirneñ hia þeim, eñ sem JEsus sagde til þeirra: Eg em hañ, hørfudu þeir bak aptur og duttu til Jardar. Hañ spurde þa eñ Einusiñe, ad hvørium leited þier? Eñ þeir søgdu: ad JEsu af Nazareth. JEsus svarade: Eg sagda ydur

ydur þad, Eg em hañ; Par fyrer, ef þier
leited ad mier, þa laated þessa i burtu fara.
So ad uppfillteſt þad Ord, hvad hañ hafde
ſagt: Ad aungvum glatade eg af þeim
ſem þu gafſt mier, (Joh. 17.)
Eñ Svikareñ hafde giefed þeim Sam-
eigeñlegt Teikn, og ſagt: Hvørn hellſt eg
kiſſe, ſaa er þad, grijped hañ og leided i burt
Vareigdarlega. Og þa hañ kom, naalgad-
eſt hañ JEſum ad hañ kiſte hañ, og jafn-
ſnart gieck hañ til hañs, og ſagde: Heill
ſiertu Rabbi og kiſte hañ. Eñ JEſus ſag-
de til hañs: Vinur, hvar fyrer ertu komeñ?
Juda, ſvijkur þu Mañſins Son med Koſſe?
Þa geingu þeir þaangad, og løgdu ſijnar
Hendur a JEſum og gripu hañ. Eñ þa ed
þeir ſem hia hønum voru, ſaau hvad verda
villde, ſøgdu þeir til hañs: HErra, ſkul-
um vier ſlaa med Sverde? Og ſiaa, ad eirn
af þeim ſem med JEſu voru og þar ſtoodu,
Simon Petur, hafde eitt Sverd, riette wt
Høndena, og rickte þvi, og ſloo til Preſta
Høfdingians Þienara, og hioo af hønum
hañs hid hægra Eyra; Og ſa Þienare hiet
Malchus.
Eñ JEſus ſvarade, og ſagde: Leifed

þeim ad giøra eñ frekar, og ſagde til Pet-
urs: Sticktu þijnu Sverde i Slijdrer, þvi-
ad hvør ad Sverded tekur, ſa mun fyrer
Sverde faraſt. Eda meinar þu ad eg kuñe
ecke nu ad bidia miñ Fødur þad hañ ſende
mier meir eñ toolf Legion Eingla? Skal eg
ecke drecka þañ Kaleik hvørn ed miñ Fader
hefur mier giefed? Eñ hvørneñ ſkylldu þa
Ritningarnar uppfylldar verda: Þvi þad
hlijtur ſo ad ſkie. Og hañ aahrœrde hañs
Eyra og lœknade hañ.
A þeim Tijma ſvarade JEſus og ſagde
til Folkſins, og þeirra Preſta-Høfdingia,
og Høfuds mañа Muſtereſins og Olld-
ungaña, ſem til hañs voru komner. Þier
erud ſo ſem til añars Rœningia wtgeing-
ner med Sverdum og Staungum ad grij-
pa mig. Daglega hefe eg hia ydur vered,
ſeted og kient i Muſterenu, og þier hafed
aungvar Hendur a mig lagt, og ecke grip-
ed mig, Helldur er þetta ydar Tijme og
Magt Myrkraña, ſo ad Ritningarnar
uppfylldust. Eñ allt þetta er ſkied ſo ad
uppfylleſt Ritningar Spaamañaña. Þa
forlictu hañ aller Lœreſveinarner og flijdu.
Og þar var eirn ungur Mañ ſa ed hønum
epter-

epterfylgde, hañ var med Lijne klæddur yfer bert Hørund, Og Ungmeñe grypu hañ. Eñ hañ snarade Lijnklædenu og flyde Nakeñ i burt fra þeim.

# Eintaled.

## Uñ Flærd Svikarans Judæ, og hañs Ogudlega Tiltæke.

Heyrdu Sæl mijn, hvad Judas er ad hafast ad. A medañ þiñ Lausnare var i siñe hrædelegu Angist og Daudans Strijde, under þeim þwnga blooduga Sveita, þa tekur Judas til sijn Flock Maña, og Þienara Kieñemaña Høfdingiaña og Phariseaña, Olldungaña og þeirra Skriftlærdu, geingur undañ þeim sem eirn Sporhundur, til ad hafa uppe a Sporunum þa Hund DRottins, sem er miñ Lausnare Christus, so hun yrde i Syndugra Hendur, rekeñ og ellt.

Eñ Søkum þess, ad eirn af Postulunum sem var Jacob hiñ yngre, var miøg svipadur Herranum Christo ad Andlits falle, hvørs vegna hañ sierdeilis var kalladur Christi Brooder; Þa hafde nu Svikariñ Judas giefed sijnum Fielogum og Fylgiurum

um, þad til merkis, ad hvørn hañ kyste, þad være JEsus, þañ skylldu þeir grijpa og leida forsiælega.

Siaa, hvad kynduger eru þessarar Veralldar Syner i siñe Kynslood, þvi þeir vissu ad JEsus hafde optsiñes wr þeirra Høndum komest aadur, þvi hyxudu þeir ad þeir skylldu ecke taka villt til.

O! Juda, hvad giører þu? Þu forliest DRotteñ Himens og Jardar, sem þier kuñe þad eilijfa Lijf ad giefa, og hefur giefed þig til Diøfulsins, sem þier alla þijna framestødu med þeim Helvitska Ellds-Loga uñbunar. Þu hefur hafnad Fielage Heilagra, sem sitia munu aa Stoolum, og dæma tolf Kynkvijsler Israels, og hefur giefed þig i Raad þeirra Ogudlegu, hvørla Gud mun med þier æfenlega til Helvijtis dæma. Fra þijnum Lausnara ertu horfeñ, sem hefur Ord Eilijfs Lijfs, eñ hefur samlagad þig Kieñemaña Høfdingium, sem Daudans og Gudlastanar Ord høfdu, og hefur med þeim hlauped Stijg Fordiørfunareñar.

Eñ þu mijn Saal, Vakta þig vid samlage þeirra Ogudlegu, og Stallbrædraskap

skap þeirra sem Gud hæda. Skeyt ecke um̃ þeirra Magt, og ackta ecke þo þeir nockra Stund hafe gott Geinge. Þvi so seiger DRottiñ. Selskapur þeirra ogudlegu er so sem añar Ellds Matur, þeirra Aar munu stittast, og Bølvan DRottins er i þeirra Hwsum. So sem Gras munu þeir visna. Syr. 23. Prov. 3. Eg sa eirn Ogudlegañ sem var stolltur, og þande sig sem Laurberia Trie; Eñ sem þar var ad hønum spurt, þa var hañ allur i burt, eg spurde epter hønum, þa fanst hañ hvørge. Ps. 37.

Hallast ævallt mijn Saal, ad þeim Gudlegu, sem þu veitst ad Ord DRottins og hañs Bodord hallda, haf Gud fyrer Augum og þier i Hiarta alla þijna Æfe, og fordast, ad þu vijsvitande stygger þiñ Gud med nockre Synd. Þacka jafnañ Gude, og bid ad hañ vilie stijra þier og stiorna, so þu i øllu þijnu Athæfe, og Uptektum, hañs Orde fylger.

DRottiñ JEsu; Vernda þu mig fra Diøfulsins Børnum, sem full eru Flærdar og Pretta, eñ svarner Oviner alls hins gooda, i hvørium Andskotiñ er krøptugur, skijnande sem Livossins Eingill, so hañ giete komest fyrer mig, so sem Ormureñ sveik Evam. Einfalldleike og Riettlæte geyme mig, þvi eg vona a þig DRottiñ, Amen. Ps. 26.

Um̃

Um̃ Falſaran̄ Judam, og han̄s Svikræde ſem forried ſin̄ HErra med Koſſe.

O! Hvilijk ſkiemdar Flærd, ſem ſnijr Elſkun̄ar Merke til Hreckvijſe. O! þu Guds Lamb ſaklauſa, hvad hafder þu med þeſſa Ulfa? Hvør Mök hefur min̄ DRottin̄ Jeſus vid Belial? Avi; Hvad fiarlægt er ſlijkt? Ad San̄leikſins Mun̄ur ſkyllde af Hreckvijſen̄ar Mun̄e verda kyſtur?

DRottin̄ min̄ JEſu, forda þu min̄e Sælu þvi, ad hun bivode þier Hreckvijſen̄ar Koſs; Lææt mig bæde med Ordum og Giørdum audſijna þijna Elſku. Lææt mig ecke vera i þeirra Tølu ſem þig næælgaſt med ſijnum Vorum, en̄ þeirra Hiarta er læængt fra þier.

Vakta þig Sææl mijn, ad þijn Gudræckne ſie eingen̄ Hræſne, og þioona ecke Drottne med Følſku Hiarta. Hygg ad hvad þu trwer, talar og giører, ſo þu faller ecke i Smææn. Villtu þioona Gude, þa lææt þier þad Alvøru vera, ſo þu freiſter ecke Drottins. Statt upp og gief þijnum Lauſnara Koſs Trwaren̄ar og Elſkun̄ar, ſo han̄ reideſt ecke, og þu fyrerfareſt ecke a þijnum Veige; Þvi ſæ er bølvadur ſem DRotten̄ JEſum ecke elſkar.

O! HErra JEſu, þu veitſt ad eg trwe a þig; Þu veitſt ad mijn Sææl elſkar þig.

Þvi fell eg þier til Foota, og kysse þijnar Fætur, so sem siv Margsynduga Maria Magdalena; Eg vil feigeñ syta og æpa mijnar Synder, og ydrast þeirra af Hiarta.

DRottiñ JEsu, gief þu mier og þiñ Kvss, og endurnær mijna Harmþrungna Saal med þiñe Naadar Huggun. Tala vingiarnlega vid mijna Saal, og mun eg hlijda þijnum Muñe, og þitt Ord skal mijns Hiarta Glede vera. Jaa; DRottiñ JEsu, eg vil eirneñ kyssa þijnar Hendur, þier æfenlega þacka þijna Giæsku, og þier Lof sijngia, fyrer alla þijna Velgiørninga; Og Vøruna vil eg ecke giefa mier, helldur þijnu Nafne ad Eilijfu, Amen.

## DRotteñ JEsus tiede sig vingiarnlegañ vid siñ Svikara.

EJ stuggader þu vid þijnum Svikara Drottiñ miñ, helldur sagder ad eins, Vinur, hvar til ertu komeñ? Jaa, DRottiñ, þu giorder hønum eñ þa aamiñing hefde hañ viliad gaa ad sier, og sagder: Juda, svijkur þu Mañsins Son med Kosse? Þvi þig laangade ecke epter hañs Gløtun, helldur villder þu ad hañ hefde snuist og maatt lifa.

Hier med hefur þu Drottiñ JEsu, Epterdæme giefed, ad eg Elske lijka mijna Ovine, og þar med safni Elldsgloodum yfer Høfud þeim; So sem þu og eirneñ giorder vid Malchum, þa þu Læknader hñs Eyra.

Gief

Gief mier Drottin, ad eg sie ei Kijssamur; Helldur giæfur og goodsamur, vid hvørn Mañ; Gief ad eg lijde þa Vondu med Poleñmæde og ævijte þa hardhnøckudu. Gief þeim lijka, DRottiñ miñ saña Ydran og Sañleiksins Kiñing Slijt þa wr Diøfulsins Snørum, hvar þeir eru iñe sænguer, Am̃.

## DRottiñ JEsus visse allt hvad fram vid hañ ætte ad koma.

ALLa Hlute veitstu DRotteñ, þvi þu ert sañur Gud, med Fodurnum og Heilogum Anda, og visser vel allt hvad yfer þig skyllde koma. Þier var ecke ad eins kuñugt, hvad ælycktad var i Raade-Heilagrar Preñingar um̃ þig, helldur eru øll Mañaña Verk og Giørder fyrer þier augliosar, eins og Sooleñ, og þijn Augu siaa allra Maña Athæfe. Þu sier alla Hlute fra Heimsins Upphafe, og til Enda, og fyrer þier er ecke neitt nijtt. Þu alleina ransakar Underdiwpeñ, og Mañaña Hiørtu, og veitst hvad þeir huxa. Þu veitst alla Hlute og sier a hvørium Tijma hvør Hlutur skule skie.

So skalltu og vita mijn Saal, ad þiñ Frelsare, veit fyrer, og sier allt hvad fram vid þig ætte ad koma. Alla þijna Lucku og Olucku hefur hañ taled og afskamtad, og hvad þu skuler søkum hañs lijda. Huxa ecke

ecke so, DRotteñ gæer ecke ad mier, Hvør er sa a Hiunnum sem hirder uñ mig? Med al so margra, gæer Gud ecke ad mier. Þvi hvad er eg hia øllum Heime, Þvi Ritning eñ seiger: Þeir Heilogu DRottens eru i Naad og Myskun, og DRotteñ hefur Gæt a sijnum Utvøldum.

O! DRotteñ JEsu, Eg gief og fel mig med Lijfe og Sæalu i þijnar Hendur ølldungis, Stijr mier og stioorna a mijnum Veige alla Æfe, og snw þu allre miñe Oluckn mier til Gooda. Blessa þu miñ Jñgæng og Utgæng, nu hiedañ af og ad Eilijfu, Amen.

## DRotteñ geingur i moote sijnum Dauda.

DRotteñ JEsu, þu saklausa Lamb Guds, Hvørsu viliuglega og hlijdeñ gieckst þu til þijns Dauda? Hvørsu feigeñ giørder þu þijns Føðurs Vilia? Þviad þegar þu sæst þa koma, gieckst þu þeim i moote. O! miñ Lausnare, Hvørsu Reidubweñ varstu ad giefa þitt Lijf wt, osstil Endurlausnar?

Jæ, HErra JEsu, Þo þu værer Sonur Guds, þa hefur þu þo lært ad lijda. Og þar med ertu ordeñ Søk og Efne til eilijfrar Sæaluhialpar, øllum þeim sem þier eru hlijdner, Þviad so siñ fyrer eins Mañs Ohlijdne eru aller Meñ Synduger ordner, so verda og fyrer þijna Hlijdne, Drott-

eñ, marger Riettlæter.

ORotteñ JEsu veit mier ad eg sie viliugur og hlijdeñ i miñe Kvøl, og lijde Polenmoodlega allt þad sem þu uppa mig leggur. Still þu mijna Ohlijdne, med þiñe Hlijdne, og med þijnum liwsum Vilia, Bæt þu mitt Vilialeyse. Veit þu mier, ad eg kuñe ad giøra epter Ordum þijnum, þar þu sagder. Taked a ydur mitt Ok, og læred af mier, þviad eg er Hoogvær og af Hiarta Lijtelæter.

## Christus fellde Strijds Skarañ, med sijnu einu Orde, til Jardar.

Þu lietst miñ Lausnare þijna Offooknara, siaa þitt Almætte, so þeir visse, ad þu værer ORotteñ. Þvi þa þu sagder, Eg em hañ, hørfudu þeir Bak aptur og fiellu til Jardar. Þu steipter Otta og Hrædslu yfer þa med þiñe mættugu Hende, so þeir stirnudu upp sem Steinar, og titrudu fyrer þiñe Rædu. Þeir urdu hrædder sem ein Joodsiwk Kona, þeirra Hiarta skielfdest wr Maata fram, og Ogn var a bædar Sijdur. Hvor datt yfer añañ fram, sem þeir være høggner nidur med Sverdum, og ellte þa eingeñ. Þviad hia þier er Magteñ og Skielsingeñ. Þu ert Ognarlegur, Hvor kañ ad standast fyrer þier, nær þu reidest? Eñ þessu olle þad, mijn Saal, ad þeir voru brender i þeirra Samvitskum,

og

og þeirra eiged Hiarta fordæmde þa. Peir vissu alla þa Hreckvijse sem i þeirra Hiarta var foolgeñ; Vond Samvitska kañ ei añars ad vænta eñ Ills.

Hiælp DRotteñ JEsu, ad eg Ottest þitt Dijrdarlega og Oguarlega Nafn, Þvi þu ert miñ DRotteñ og HErra, Gud yfer øllum Gudum, og DRotteñ yfer alla DRottna, Volldugur og Hrædelegur, sem ei ser ad Mañvirdingu; Læt mig jafnañ hafa gooda Samvitsku, bæde fyrer þier og Moñunum, so þa ad nockud kiemur ad Høndum, ad eg giete stadest, og hafe Vonena fasta til þijn, DRotteñ miñ, Amen.

DRotteñ JEsus lætur sijna Læresveina hafa frij Burtfarar Leife.

HUgleid þad mijn Saal, Hvørsu Augu DRottens hafa Gaat a þeim sem hañ Ottast. Ef þier leited ad mier (seiger hañ) þa læted þessa i burtu fara. Jæ, So var til ætlad, Drotteñ JEsu, ad þu Einsamall skyllder Vijnþrwguna troda, og ad eingeñ þiña Læresveina skyllde i Daudañ med þier gaanga. Þar fyrer audsijner þu þitt Almætte, ad vegna þiña Orda gaatu þeir ecke hamlad þijnum Læresveinum i burt ad flya.

Sæll er sa DRotteñ, hvør ad i þijnu Leife fer, og ad hvørium þu villt æ hañs Veige glæta. Hañ mæter øngvu Illu, og

eingeñ Plaaga mun hañs Hws naalgaſt. Hvør hañ ſnerter, ſa kiemur vid þiñ Auga-Stein, DRotteñ. Þviad þiña Heilagra Saaler vardveiter þu, og hiaalpar þeim af Hende þeirra Ogudlegu.

DRotteñ ſem ert miñ Hirder, Laat þitt Anglit eirneñ liiſa yfer mig þiñ Præl, ſo mig eingeñ sliite af þiñe Hende, Vardveit mig ſem þiñ Auga Stein, og ſkijl mier under Skugga þiña Vængia, fyrer þeim Ogudlegu ſem mig giarnañ offækia, og mier Mein giøra, fyrer mijnum Ovinum, ſem mijna Saal og Lijf umkrijngia. Jaa, DRotteñ miñ, hvør ſkal añar hugga mig? Eg vona a þig. Eg er ad ſøñu Aumur og Faatækur, eñ þu hurar fyrer mier og ſeiger; Laated kyrra mijna Smurda, og aangred ecke mijna Propheta.

## DRotteñ vill ei laata med Sverde veria ſig.

LÆreſveinarner villdu veria ſiñ Lavard med Sverde, Þo ſpurdu þeir ad aadur, hvørt þad være ecke hañs Vilie. So ſkalltu og giøra mijn Saal, hvad þu villt giøra edur aaforma, þa tak þier Raad ſo þu ydreſt ecke þar epter. Jaa, tak Raad hiaa Gude þijnum, og laat hañs Vitnisburde vera þijna Raadgiafa. Laat þier ſeigiaſt af hañs Orde, þad mun þig giøra goodañ; Þvi ſiaa, hier ſtraffar Chriſtur Petrum, ad hañ hefde honum Oſpurdum til Sverd-

ſlus tekid. Sie þier giordur Oriettur, mijn Saal, þa hefn þijn ecke ſiaalf; Helldur gief Rwm Reide Drottins; Þvi ſkrifad ſtendur: Mijn er Hefndeñ (ſeiger DRottiñ) eg vil endurgiallda. DRotteñ er ſaa Hefnareñ ſem ei ſer ad Mañvirdingum, hvør ſem hefner nu ſiaalfur, a þeim vill DRottiñ Hefna ſijn, og hønum þa Synd tilreikna, ad hañ villde taka Hefndena fra DRottne.

Nu er Verealldlegt Valld i Guds Pionuſtu til þeſs, ad hefna og refſa þeim ſem illa giøra; Eñ Kieñevallded ſkal ecke Lijkamlega Hegning eda Straff aleggia, þvi þeirra Vopn og Veriur eru ecke Holldlegar, helldur andlegar, kroptugar fyrer Gude ſo ſem Moyſes Guds Madur, hafde ſijns Embættis Vopn og Veriur, ſem voru Bæneñ, Forlijkuneñ, Reykelſed, hvar med hañ ſtood i moote Reideñe, og giørde Enda a Reydeñe.

DRottne JEſu gaatu hañs Ovimer eckert giørt, fyrr eñ hañs Tijme var komeñ.

LAttu þa giøra til þad þeir vilia, ſeiger JEſus til Petrum; Þvi JEſus hafde daglega hiaa þeim Setid og kient i Muſt-

erenu, og þeir hofdu ei lagt Hendur a hañ, þvi hañs Tijme var þa ei komeñ; Eñ nu var þeirra Stund og Magt Myrkraña, so Ritningeñ uppfylleſt.

So þecker Gud (mijn Sæl) Dagá og Stunder þeirra Gudlegu, og þeir eru aller upp i hañs Book ſkrifader, ſem komande eru, og þa þegar, ædur nockur þeirra vard. Hañ ber huxan fyrer þier hvørt Augnablik, og þo þier nockur Hæſke ad Hondum kome, þa kañ hañ ad ſenda þier meir eñ tolf Legiones Eingla, ſem aller eru þioonuſtuſamer Andar, wtſender til ad þioona þeim ſem Himnarijkis Arfar eiga ad vera. Jæ, Hañ hefur ſijnum Einglum boded uñ þig, ad þeir vardveite þig a øllum þijnum Vegum, ad þeir bere þig a Hondum ſier, ſo þu ſteyter ecke Foot þiñ vid Steine.

O Drottiñ JEſu; Þu ert eirneñ ſiælfur alla Tijma mier nælægur, ad þu hiælper mier; Hvad kuña Meñerner giøra mier? Þvi er eg roofamur, bid og vona til þijn, eg læt þa giøra hid frekaſta, þæangad til þu ſeiger ſo vid þa; Hijngad ſkalltu komaſt, og hier ſkulu lækka ſig þijnar ſtolltu Bylgur. O Drottiñ JEſu, mijn Stund og miñ Tijme er i þiñe Hende; Frels mig af mijnum Ovinum, og þeim ſem mig offækia, Amen.

## Uñ Floottañ Lærefveinaña Chriſti.

Nu

Nu sem Hyrdereñ er faangeñ, þa flya og tvistrast Sauderner, so þar uppfyllest Ord JEsu; Siaa, sw Stund mun koma, og er sem komeñ, þad þier munud tvistrast hvør til sijns siaalfs, og mig einañ epter laata, Joh. 16.

HErra JEsu Christe, þu ert alleina Lausnargialld, fyrer vorar Synder. Þar fyrer flya fra þier aller þijner Viner, vegna þiñar Eymdar. Þier verdur gleymt so sem þeim framlidna. Þu ert aalijka ordeñ sem broted Kier, sem eingeñ acktar meir. Eñ þu miñ JEsu, varst ecke einsamall, þviad þiñ Fader var hia þier. Þijner Oviner hefdu vel laatid þig kyrrañ, hefdu þu ecke siaalfur giefed þig viluglega i þeirra Hendur.

Saal mijn, hvad vøllt er Mañaña Hiaalp i Neydeñe, hvar fyrer ad DRottiñ seiger; Bølvadur sie sa sem sig forlætur uppa Meñena, og lætur Hollded vera siñ Styrk, og vijkur sijnu Hiarta fra DRottne. Hañ mun verda sem Þræse a Eydemørkuñe, og mun ecke siaa þar komande Huggun; Helldur mun hañ blijfa i sijnu Vatnzleyse a Eydemørkuñe, i þvi Avartar-

lausa Lande sem øngver bwa. Eñ Blessadur er sa Madur sem a DRottiñ vonar, og allt Traust hefur til hañs; Hañ er sem eitt Trie, þad sem ver i hia Vatnsbøckum, þvi þott Hite kome, ottast hañ ecke, helldur eru hañs Laufblød siigræn, og hañ er ecke hugsiwkur fyrer ofurþerrernum, helldur ber hñ awøxt oaflaatanlega, Ps. 1.

Hiaalpa þu mier DRotteñ JEsu, so eg aavallt vone a þig eirn, og þier af øllu Hiarta treyste, og af þier Lucku og Farsælldar vænte, til alls þess eg a ad giøra og aaforma, þvi þu bregdst alldrei DRottiñ þeim þier treysta.

# Tolfte Capitule.

Hvørneñ þeir bundu JEsum, og hvada Doom hañ fieck af Kieñemaña Høfdinginnum og hvilijkar Smaaner hañ aatte ad lijda af þeirra Pienurum.

ENN Flockureñ og hiñ Ypparste Høfuds-Madur, og Pienarar Gydingaña grypu JEsum og bundu hañ, Og leiddu hañ fyrst burt til Hañam, sa var Fader Konu Caiphæ, Hvør ed þa var þess Ars Ædste Prestur, Og þeir burtleiddu JEsum faungeñ til Caipham Kieñemaña Høfdingia, Eñ Caiphas var sa sem Gydingum gaf þad Raad, ad betur fære þad eirn Madur dæe fyrer Folked.

Og

Og þeir iñleiddu hañ i Hws þess Ypparſta Preſts, þar ed mz honum alier Kieñemaña Hoſdingiar, Skriptlærder og Olldungar voru ſamañkomner. Eñ Simon Petrus filgde JEſu epter ꝏleingdar, allt i Forſtofu Kieñeimaña Høfdingians, og eirn añar Læreſveirn, ſa ſame Læreſveirn var kuñugur Kieñemaña Høfdingianum, og gieck iñ med JEſu i Forſtofu Kieñemaña Hofdingians, Eñ Petur ſtood þar wte fyrer Dyrunum. Pa gieck wt ſa añar Læreſveirn, ſem Kieñemaña Hofdingianum var kuñugur, og talade vid Dyra-Vordſlu Konuna, og leidde Petrum iñ leingra i Forſtofu Kieñemaña Høfdingians. Og hañ gieck iñ, Pviad Pienararner høfdu Elld kveiktañ i midre Forſtofuñe og ſetteſt til ſamans, eñ Petur ſette ſig a millum þeirra og vermde ſig vid Logañ, ad hañ ſæe hvør Ender þar a yrde. Eñ Petur ſat utar i Forſtofuñe, og þar hañ var fram̃ betur i Forſtofuñe, kom ein af Ambꝏttum Kieñemaña Høfdingians, og þa hun leit Petrum ſitia vid Logañ og verma ſig, leit hun til hañs og ſtarde a hañ, gieck til hañs og ſagde: Hvørt ert þu og eirn af

þess Mañs Lærefveinum? Og þu varst med JEsu þeim Galilæiska af Nazareth. Eñ hañ Afneitade honum fyrer øllum, seigian de: Kona, Ei er eg, Eg þecke hañ eige, og ei veit eg hvad þu seiger: Og hañ gieck wt i Fordyred, og Haneñ gool. Eñ Þrælarner og Þienararner stoodu sem giort høfdu Kola-Elld, og vermdu sig, þviad Kulde var, Petur stood þar hia þm̃ og vermde sig, Eñ Kieñemaña Høfdingeñ spurde JEsum þa ad um̃ hañs Lærefveina og hañs Kieñingu. Og JEsus svarade honum: Eg hefe Opeñberlega talad i Heimenum; Eg hefe og med jafnade kient i Samkundu Hwsum, og i Musterenu þar ed Gydingar Allstadar ad koma til samans, og eckert hef eg i Leinum talad, hvad spyr þu mig ad þessu? Spyr þu þa þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefe talad til þeirra; Siaa þu, þeir hinu sømu vita hvad eg hefe sagt. Eñ sem hañ talade þetta, þa gaf eirn Þienaraña sem þar stood hia, honum eirn Kiñ-Hest, og sagde: Skalltu so svara Biskupenum? JEsus svarade: Hafe eg illa talad þa bevijsa þad, ad þad sie Oriett, eñ hafe eg satt sagt, hvar fyrer slær þu mig? Og Hañas sende.

hañ

hañ bundeñ til Caiphas Kieñemaña Høfdingia.

Eñ Ambaatteñ þar hun saa Petrum, took hun aptur til ad seigia þeim sem þar hia stoodu, þesse er eirn af þeim. Eñ sem hañ gieck wt um̃ Dyrnar, leit hañ ein oñur Ambaatt og sagde til þeirra sem þar voru: Þesse var og med JEsu af Nazareth. Og litlu sijdar þar epter saa hañ eirn añar og sagde: Þu ert og eirn af þeim. Og Simon Petrus stood þar og vermde sig, þa tøludu þeir til hañs: Ertu af hañs Læresveinum? Og i añad siñ neitade Petur aptur med Eyde og sagde: Madur, eige em eg, ecke þecke eg þañ Mañ.

Eñ þeir Ædstu Prestar og Ölldungar, og allt Raaded leitudu Liwgvitna i giegn JEsu, so ad þeir giæte hønum i Hel komed, og fundu ecke. Og þo marger Liwgvottar geinge þar fram̃ ad, þa fundu þeir eckert, Þviad marger baaru Fals-Vitne i moote hønum, Eñ þeirra Vitnisburder voru ecke Samhlioода. Eñ ad Sijdustu stoodu upp og geingu fram̃ nockrer Tveir Fals Vottar, og baaru Liwg-Vitne i moote hønum, og søgdu: Vier høfum heyrt hañ

seig

seigia; Eg kañ og vil nidurbrioota þetta Mustere Guds sem med høndum er giort, og aa þremur Døgum uppbyggia eitt añad þad ei er med Høndum giort; Eñ þeirra Vitnisburder urdu eñ þa ecke Samhliooda. Sa Ædste Prestur stood þa upp midt a millum þeirra, spurde JEsum ad, og sagde til hañs: Svarar þu Aungvu? Hvad vitna þesser a moote þier? Eñ JEsus þagde og svarade aungvu. Pa ansade eñ aptur sa Ædste Prestur, Spurde hañ ad, og sagde til hañs: Ertu Christur Sonur hiñs Blessada, Eg sære þig vid lifanda Gud, ad þu seiger oss, ef þu ert Christur Sonur Guds? JEsus sagde til hañs: Þu sagder þad, Eg em. Eñ þo seige eg ydur, Hier epter munud þier siaa Mañsins Son sitia til Hægre Handar Kraptarens, og komanda i Skyum Himens. Pa reif Kieñemaña Høfdingeñ sijn Klæde i sundur og sagde: Hañ Gudlastar. Hvad þurfum vier nu framar Vitnaña vid? Siaa, þier heirdud nu siaalfer hañs Gudlastan. Hvad virdest ydur? Eñ þeir Fordæmdu hañ aller, svørudu og sögdu: Hañ er Daudans sekur.

Og litlum Tijma þar epter, Nær eirnre Stundu, ſtyrkte nockur añar þad, og ſagde: Ad ſoñu var og þeſſe med hønum, þvi hañ er eirn Galilæare. Og aptur geingu þeir ad, er hia ſtoodu, og ſøgdu til Peturs: Sañarlega ertu af þeim, þvi ad þitt Tungumaal er Samhliooda, og opeñberar þig. Þa ſagde eirn af Kieñemaña Hofdingians Þienurum, Frænde þeſſ ſem Petur hioo af Eyrad. Saa eg þig ecke i Gras-Gardenum med hønum? Þa neitade Petur þvi eñ aptur, og ſagde: Madur, Eige veit eg hvad þu ſeiger. Þa took hañ til ad Formæla ſier, og ſveria: Eige þecke eg þañ Mañ, uñ hvørn þier taled. Og Jafuſnart er hañ nu talade eñ framar, Gool Haneñ i Añad Siñ, Og DRotteñ ſnere ſier vid, og leit til Peturs, og Petur miñteſt Ordaña JEſu, er hañ hafde ſagt til hañs, ædur eñ Haneñ galar Tviſvar, muntu afneita mier Þriſvar, Og hañ gieck wt og griet beiſklega. ℣.

Þa tooku nockrer ad ſpijta a hañ, i hañs Aſioonu, og børdu hañ med Knefum, Eñ Þienararner, og þeir Meñ ſem hielldu JEſu, dærudu hañ og ſloou, og byrgdu hañs Aſioonu,

Asioonu, og sloou hañ med Knesum, spurdu hañ og sögdu: Spaa þu oss, Hvør Er Saa Þig Sloo? Og margt añad Haadnglegt sögdu þeir vid hañ.

# Eintaled.

Uñ Bøndeñ Lausnarans JEsu.

SJaa hier mijn Saal, hvørsu saa Smurde DRottens, og vor einka Huggun vard faangeñ. Þvlad hier byriast sw ytre Pijnañ og Kvøl þijns Lausnara, a hañs allra heilagasta Lijkama, og hier uppfyllest hvad Forfadereñ Jacob fyrerspaade, seigande. Simeon og Levi, þeirra Sverd eru Mordiarn. Saal mijn, vert ecke i þeirra Raadum, og mijn Æra vert ecke i þeirra Samkundu; Þvi i siñe Reide hafa þeir hañ Mañ veiged. Gen. 49.

Saal mijn, hvad griñelega og hrædelega yferfalla þeir þiñ Lausnara? Hvad omyskunsamlega fooru þeir med hañ? Eirn rycker hønum hijngad, añar þaangad. Eirn þiakade hønum hier, añar þar. Eirn rijfur i Haarid, añar i Haalsiñ. Eirn i Hendurnar, añar i Fæturnar. Eingeñ Vægd var a ferdum. Eckert lietu þeir ógi-

ert,

ort, þar er eingeñ Vægd, þeir hafa ecke lijtid i Siñe; Þeir voru hrædder hañ munde komast wr þeirra Høndum. Þeir køstudu hønum Band uñ Haals, og bundu saman hans Hëilogu Hendur.

O! HErra JEsu; Hundar hafa sookt ad þier, og Ogudlegra Raad hefur uñkringt þig; Þeir Stolltu tooku sig upp i moote þier, og fiolde griñra Maña uñsaatu þijna Saal, og høf du Gud ei fyrer Augum.

Eñ haf þu Saal mijn, alla Huggun af Bøndum og Faangelse þijns Lausnara; Þvi hañ liet sig faanga, so þu saklaus yrder af þvi eilijfa Faangelse. Hañ liet fiotra sig, so ad hañ slite af þier Diøfulsins Fiotra, sem a þier laau, og þier i Daudanum hielldu. Hañs Faangelse er þijn eilijf Lausn; Hañs Fiøtur þitt eilijft Frelse. Lofadur siertu O Rotteñ, sem ei gafst oss faangna under Diøfulsins Teñur. Vor Saal er þadañ sloppiñ sem Fugl af Snøruñe, Snarañ er broftiñ eñ vier erum frij og frialser eilijflega, Ps. 124.

Ver nu kostgiæfeñ, og legg þar Astundan a, mijn Saal, ad þu ecke uppa nijtt faller i Satans Snøru. Hañ situr uñ þig,

þig, og hañ leggur ſijnar Snørur fyrer þig a alla Vegu, i Fartækt og Rijkdoome, i Mat og Dryck, i Hrygd og Glede, Ordum og Verkum, Vøku og Svefne, jaa, allt til Lijfſins Enda, ad hañ giete veidt þig aptur og fellt; Bid þar fyrer oaflaatanlega og hroopa til DRottins, ſem þig hefur endurleyſt af hañs Snørum, ad hañ eñ framveigis vernde þig, fra þeim.

Utbreid þu DRottiñ þijna Vænge yfer mig, og vert mitt Skiool fyrer þeim grima Dreka, Amen.

Hvørſu Omyſkunſamlega Hofud-Preſtarner høndla: vid HErrañ JEſum bundeñ.

PA Pienararner hofdu nu bunded Lauſnarañ, þa færdu þeir hañ fyrſt til Hañas Preſts, ſem var Caiphæ Maagur, þeſſum Gamla Bloodhunde hugduſt þeir fyrſt, Fagnadar Tijdinde ad færa; Ad nu være ſu Hindeñ faangeñ ſem þeir ſnema Dags fooru ad veida. Pañeñ glødduſt þeir yfer JEſu, ſo ſem þeir hefde vel veidt. Eñ Hañas ſende hañ fra ſier til Caipham; Hvar aller Skriptlærder og Olldungarner voru til ſamans koṁner, þa bidu þeir ſem hungrader Ulfar, epter þvi ſaklauſa Lambe Guds, i hvørs Blood þa þyrſte.

Eñ

Eñ fyrer Søkum þess þeir fundu hønum øngva Dauda-Søk, þa took Kieñemaña Høfdingeñ til ad spyria hañ um hñs Lære-sveina, og hañs Lærdoom, so hañ giæte spuñed nockud wr Ordum eda Andsvørum HerransChristi. Avi, hvad ræanglega hønd la þeir vid Lausnaraň? Hier hafa þeir hañ fæangiñ og bundiñ, og vita ei fyrer hvøria Søk, þeir vilia hañ til Dauda dæma, og gieta þo eckert funded hønum til Brots, þad Dauda sie verdugt.

DRottiñ miñ JEsu, sem miña vegna varst bundeñ, og sem eirn Spott-Fugl leiddur fra Einum til Añars; Læat mig feigensamlega allt Hæad og Spott Veralldarcñar þiña vegna lijda, so ad eg verde ecke af Diøflenum hæddur og Spottadur eilijflega.

DRottiñ miñ JEsu, sem hefur þig miña vegna i þessara Blood-Hunda Teñur giefed, Frelsa mijna Sæal, so ad Helvijte svelgie hana ecke med sijnu Gine.

DRottiñ JEsu, sem varst fæangeñ og bundeñ framñe fyrer Ræad-Stefnu þeirra Ogudlegu, og soddañ Oriett hefur miña vegna lided; Vardveit þu mijna Sæal fra Ræade og Samtøkum þeirra Ogudlegu, og læat mig ecke verda af þeim under Footum trodeñ.

Drotteñ miñ JEsu, þu sem greidt Andsvar gafst um þiñ Lifnad og Lærdoom, þa þig Kieñemaña Høfdingeñ spurde; Gief þu mier Vijsdoomsins Anda, so ad eg med Glede vidurkieñe þitt Nafn, og meige æavallt med goodre Samvitsku, miña Giørda og framferdis vel bikieñdur verda.

## Um þañ þwnga Kiñ-Hest sem Byskups Pienareñ gaf Herranum Christo.

ÞA Drottiñ andsvarade so greidt og greinelega, þeim Kieñemaña Høfdingia, þa gieck fraṁ ad eirn haṅs Þienare, og gaf JEsu næsta hardaṅ Kiñ-Hest, so hønum riede vid, lijka sem haṅ hefde Ohæfelega svarad Byskupenum, og þetta skal Malchus hafa vered, sem Christur læknade ad Eyrad i Grasgardenum.

O! þu vonde Nijdingur; Giefur þu þijnum Lækner slijk Laun? O! þu vesala Leir Kier, slær þu þiñ Meistara? O! þu þurftuga Skiepna, hvad giører þu þijnum Skapara? O! þu vonde Þræll; Hafder þu Velgiørning DRottins so snart wr Miñe þier lijda lated? Var þier ecke maklegt, ad þijn Hønd hefde þar uppvisnad, so sem Jeroboam Kongs, er ei giørde neina greip til Spaamaṅsins; Eda þu hefder a vørmu Spore Spitelskur orded, so sem Maria Moses Syster, þa hun sette sig upp i moote Moysi? Eingeṅ Undur hefde vered, þo Jordeṅ hefde svelgt þig i sig, og þu hefder Lifande til Helvijtis sockid, sem Corach Datan og Abiram.

Eṅ Lausnareṅ leid þad med Poleṅmæde, ansade þier Hoogværlega, og aumiṅte þig

Good-

Goodgiarnlega.

Jaa, O Rotten miñ JEsu, þu hefur laatid slaa þig Saklausañ so eg sie frij og ecke verde Eilijflega sleigeñ. Þu tookst Kiñhest a þiñ Vanga, so Gud miñ Himneske Fader giefe mier siñ Fodurlega Koss, og gaange vid mier sem sijnu elskulega Barne, fyrer þiñar Forþienustu saker.

Kieñ mier O Rotteñ miñ af þier Dæme ad taka, so eg Endurgiallde ecke Jllt med Jllu; Ecke laste þo eg sie Lastadur, Ecke hoote þo eg lijde, Eige slaae þo eg sie sleigeñ, Helldur setie þad allt til þijn sem riett dæmer, Amñ.

## Umñ Liwgvottana sem gaafu Herranum Lognar Saker.

HEyr nu Saal mijn, hvorneñ þeir Synd ugu med ymislegum Atburdum, med Ligum og Skrøk-Vottum, þustu iñ aa þiñ Lausnara, so sem greniande Leon a eirn Meinlausañ Saud. Fals-Vitne stoodu upp, og baaru þig þvi sem þu varst ecke Valldur af. Þeir gulldu þier Jllt fyrer Gott, so ad þeir giørde þier þad mesta Hiartans Angur. Liwg-Vottarner skomnudust sijn ecke ad liwga a þig, so þeir kiæme þier i Daudañ, eñ fundu þo øngva Søk.

O! þu sæte JEsu, ad søñu hafder þu øngva Ohæfu giørt, og øngva Skulld

hafder þu til þessſem þeir giordu gier. Eñ þijn mikla Elſka til mijn, hun þvijngade þig, til ad lijda þetta. Eg ſame er ſa, ſem þier hefur ſlijkt underbakad og bwed. Eg er Vondur og Syndafullur, eñ þu pijndeſt og varſt Sokeñe boreñ. Eg er Sakadur og hefe broted, Þu Saklaus og ſieckſt þo Afellis Doom. Eg er Ogudlegur og hefe Kvalernar forþient, Þu Riettlaatur, og varſt þo Fordæmdur.

Lofadur vertu DRottéñ miñ Frelſare ſem vid Skulldeñe tookſt fyrer mig, og barſt mijna Byrde, Feſtu þeſſa Huggun i mijnu Hiarta, ſo eg ſie Ohrædur fyrer Dioflenum, og fyrer Løgmaalſins Bølvan.

## DRotteñ þagde vid Liwgvottunum.

VJd ollum þeirra Aauſtre og Lygum, þagder þu Frelſare miñ, ſem eirn Saudur þeiger under þeſſ Hondum hañ klippter. Eñ þar med gafſtu miñe Saalu Epterdæme, ad eg ei Andæpte Daarum epter þeirra Heimſku, ſo eg þeim ei Samlijkur verde. Sæl ertu mijn Saal, þa Meñ mijnka þig þijns Frelſara vegna, og tala allt Jllt uñ þig, og liwga uppa þig; Vert glod, i Himnarijke muntu þar fyrer Laun taka.

Hiaalpa mier DRotteñ JEſu, ad eg Fridſamur ſie,

ſo

so eg Hiaalp odlest. Laat mig Eftlaust a þig vona, so eg veykest ecke DRottenn; Hvad Prijdeleg er fyrer þijnum Augum Poleñmæden, og ad vona til þiñar Giæsku.

## Uñ þa ærgiætlegu Jaatning DRottens, fyrer Kieñemaña-Hofdinginum?

HUgleid nu Saal mijn, þijns Frelsara Loflega Jaatning, fyrer Byskupenum Caiphas, og þeim Skriptlærdu, Þvi þa Caiphas spurde hañ uppaa hañs Eyd og Sañende, hvort hañ være sañlega Christur Sonur þess Hædsta, þa þagde hañ ecke, helldur Andsvarade og sagde: Þu sagder þad, þvi sañlega er eg Guds Lifanda Sonur, sañur Gud fra allre Eilijfd, samnaattúrlegur mijnum Fodur, og er sa riette Messias, sem Gud hefur skickad, smurt og sendt Verolldeñe til Hiaalprædis; Og þo hañ mig ad siñe epter sijnu Guddoomlega Raade, ydur i Hendur seliast laate, og mier i þessa Verolld nidur sockve, þa mun hañ samt, upphefia mig þar epter, og þier munud, faa ad reyna, ad eg sie, og Rijkenu hallde, til Hægre Handar Dijrdar mijns Fodurs, og munud siaa mig i Skyenu aptur koma, til ad dæma Lifendur og Dauda.

Soddañ Jaatning, Drotteñ miñ JEsu, villdu þeir Fordæmdu Gydingar ecke

medt aka, helldur kolludu slijkt hina mestu Gudlastan, og dœmdu þig þar fyrer til Dauda, Hvørs vegna þeir eru i Helvijte Eilijflega byrgder, Þvi hvør ecke trwer Synenum, mun ecke siaa Lijfed; Helldur er Guds Reide yfer hønum.

Eñ mijn Saal (DRotteñ JEsu) er i Raun og Sañleika ad þvi komeñ, ad þu siert Christur Sonur þess Lifanda Guds, sem i þeñañ Heim ert komeñ, Synduga Saaluhoolpna ad giøra. Þvi um̃ þig votta aller Spaameñ, ad fyrer þitt Nafn ødlest aller þeir sem aa þig trwa, Syndaña Fyrergiefning. Ei kuñe eirn Brooder ad frelsa añañ, þad hefde orded vid ad bijda Eilijflega. Eñ þu ert þess Lifanda Guds Fodurs Eingieteñ Son; Þu ert Christus DRottiñ, sem riett kallade Afreks Kappe, og sa sem i giegnum Diøful og Dauda ert geingeñ; Þu ert DRottiñ, sterkur og megtugur, eirn Volldugur Strijds HErra. Þu ert þad Kvinuñar Sæde, sem þad gamla Høggorms Diøfuls Høfud hefur sundur broted, og hañs Verk ad øngvu giørt. Og þo þu stæder aumur og forliteñ i þeim Gydinga Flocke, og yrder ad smacka

af

af þeim beiſka Hrygdar Læk, þa hefur þu ſamt aptur a nytt, þijnu Høfde upp lypt og ſitur nu til Fodurſins hægre Handar i Himnenum, þaangad til ad aller þijner, Oviner eru lagder under Skør þiña Foota. Þviad ſo ſem Moyſes upphoof Høggormiñ a Eydemørku, ſo ætter þu eirneñ upphafeñ ad verda, ſo aller þeir a þig tryde, fyrerfareſt ecke helldur hafe eilijft Lijf.

Drottiñ miñ JEſu; Þu veitſt ad eg ſañlega vilu þeſſu trwe, og a þig eiñ vona, eñ hiaalpa þu mijnum Veikleika, Amen.

## Hvada Smææn Chriſtus ætte ad lijda, af þeim Prælum ſem hønum hielldu.

NU ſem þeir Meñ er hielldu JEſu, heyrdu ad Ølldungarner og Skriftlærder kølludu hañ Dauda verdañ, þa lietu þeir ecke af þa alla Nott, ad ſlaa og beria, hæda og ſpotta HErrañ Chriſtum; Þeir hrækia i hañs Heilogu Aſianu, hvøria aller Guds Einglar gyrnaſt ad ſiaa. Þeir beria hañ med Hnefum. Þeir byrgia hañs Andlit, og ſlaa hañ, ſeigiande: Spaadu oſs Chriſte, hvør er ſaa þig ſloo? Soddañ og margar adrar Haadungar, høfdu þeir i frañe vid hañ.

Jaa miñ Herra JEsu, þu hiellst þijnum Hrygg ad þeim sem þig sloou, og þijnum Vongum ad þeim sem þig haartogudu. Þu baudst fram þitt blessada Andlit, so sem þañ Stein sem hvør Madur hræker aa, og byrgder þad ecke fyrer Haadungu og Hrækum. Soddañ Smaan gierer þier Hiartans Sorg, og kreinker þig; Þu vonar ad einhvør mune siaa aumur a þier, eñ saa er eingeñ; Þu vonar ad einhvør mune hugga þig, eñ hañ finst ecke.

Mijn Saal, graat þu og vert grøm þijnum Syndum; Þvi med þeim hefur þu þessa Smaan bruggad, og þiña Misgiørninga Saker leid hañ þetta allt. Med þessum Hætte afmaade hañ þijnar Illgiørder, og so hlaut hañ ad bitala þad hañ hafde ecke teked. Hañ leid Smaan og Haadung fyrer oss, so ad vier yrdum af þeirre eilijfu Smaan frij og frialser.

Lof og Dijrd sie þier O Drotteñ JEsu, þad Spott og sw Smaan sem þu leidst, giefur mier Dijrdareñar Koronu. Þiñ Ofridur sem þu aatter, giefur mier þañ Eilijfa Frid; O! þu saklausa Lamb Guds, sem varst midt i þeim Blood-Huvda Kranse; Laat þijna Haadung vera mier eilijfa Hiartans Huggun.

O! þu þoleñmooda Lamb Guds, sem þar varst a mille þeirra Haadgiørnu Kvalara; Frelsa mijna Saal fraa Hel-

vijte

vijte, so Dioflarner ecke ꝏ hana hræke og spijte; æsenlega.

O! þu Hoogværa Lamb Guds, sem so varst lameñ illa, og bareñ; Frelsa mig fra Andskotans Eingle, ad hañ ecke mig med sijnum Hnefum lemie.

O! þu Liwsa Lamb DRottins, sem þeigande tookst vid øllum þeirra Hœdungum og Pijslum; Vardveittu mig fra Oþoleñmæde, alla mijna Lijf-Daga; Gief mier ad þeiga og þola, þo eg Veralldareñar Atkast hlioote Fyrer þijns Nafns Saker ad lijda, Amen.

# Prettande Capitule.

## Uñ þad hryggelega Fall S. Peturs, og hañs Hiartans alvarlega Ydran.

Hier uñ stendur i næst fyrer skrifudum Gudspiallañs Texta, og mꝏ þar lesa.

## Eintaled,

### Amiñing uñ þad hrædelega Fall Sancte Peturs.

Pad veitstu mijn Saal, ad Simon Petrus var hellstur af øllum HErrans Læresveinum. Þu hefur heyrt hvilijkur Heilags Anda Geisle liomade i hañs Hiarta, þa hañ giørde sijna Jaatning uñ Christum, seigiande: Vier vitum og hofum reynt, ad þu ert Christus þess Lifanda Guds Son, Og þvi seiger DRotteñ JEsus St. Petrum harla Sælañ, vegna slijkrar Trwarjaatningar.

Auk þess, sia Petur Forklaaran og Dijrd HErrans Christi a Fiallenu, þa Moses og Elias toludu þar vid hañ. Hura og hvorsu Petur hefur og DRotteñ elskad, og hvad Hugadur hañ var, ad fylgia honum i Daudañ. Þetta audsijner hañ med Verkenu i Grasgardenum, þar hañ ryckte Sverde, og villde veria siñ HErra. Og þa hiner flwdu, fylgde hañ epter, og villde siaa hvad af Christo yrde. Hvor hefde trwad þvi, ad so Hugadur og Hraustur Madur munde fara so med sig? Siaa, þegar hañ sier nu Haaskañ, og hvad þad vill gillda, þa lætur hañ eina Ambaatt skielfa sig, so ad hañ Forsoor siñ HErra. Medañ Drotteñ var eñ hia honum, þa bilade ecke hañs Hugur, og Hreyste; Eñ nu sem DRotteñ var fra honum, og faangeñ, og af þeim Hofdingium Prestaña til Dauda dæmdur, þa hvarf Petro Daad og Dugur, so ad hañ affagde klaarlega DRotteñ. Og sokum þess ad hañs Hiarta til Christum var kallt orded hid iñra, þa fer hañ ad Kola-Elldenum, og vermer sig hid ytra.

Hier skalltu læra, Saal mijn, ad þu hafer, eckert Ostraust a þier, sem Petur,

þo

þo þier vel gange, so þu faller sijdur, þa þi-
er geingur a moote, Huxa ei med þier, þa
þier geingur vel, Eg mun ei biedañ af skei-
ka, so þu skielfest ecke, nær DRottenn byrg-
er sitt Andlit um̃ Stundar saker, þad er,
tekur sijna Hønd fra þier; Haf ei Sam-
hellde nie Raadagiord vid Holld og Blod,
helldur medkieñ þiñ Vanmætt, og treyst
ecke uppa þijna myklu Hughreyste, þvi
Holld og Blood erfer ecke Guds Rijke, og
er Fallvallt og Faanijtt i Neydeñe.

Vijk ecke wt af þijnu Embætte, sem Pe-
tur gierde, hvørium Christur baud med
sijnum Læresveinum ødrum, burt ad gan-
ga og forda sier, strax hañ var faangeñ, eñ
Petur fylgde Christo epter, sem hønum
var ad þvi Siñe, ecke bifalad.

Þar fyrer, Saal mijn, vackta þijns
Lausnara Ord aavallt, og blijf vid þitt
Kall og Embætte, og faast ecke vid þad sem
ecke kiemur þier vid, þa vill Drotteñ skipa
sijnum Einglum ad geima þig, a øllum þijn
um Vegum. Siaa þu, sa vonde Diofull er
slægur, vill giarnañ sikta þig sem Hveite.
O! vak og bid øllum Stundum, so þu fall-
er ecke i Freistne, Andeñ er reidubweñ, eñ
Holld-

Hollded er veikt; Vona a DRottenn, so munntu ei falla, Hanns Ande mun styrkia þig, þvi skalltu hafa hanns Ord fyrer Augum, og hann mun þier Hiaastod veita.

DRottenn minn JEsu, minn Hiaalpare, skijl þu mier Æsennlega under Skugga þinna Handa, og vernda mig med þijnum Heiløgum Einglum. Leide mig þijn Hønd i mijnu Embætte, og forde mier, villtum Veige. Þu sem situr til þijns Fødurs hægre Handar, og bidur fyrer oss, Bid þu fyrer mier, ad mijn Trw veikest ecke nie linest, so eg skeike ecke af þijnum Footsporum, þvi þu þecker minn Veikleika, og veist hvad snart eg mune annars falla; Þu sier allar Diøfulsins Pijlur sem hann setur a mig, og hvørnenn Verølldenn umsitur mig. O! forlaat mig ecke DRottenn minn Lausnare, og tak ecke þijna Hønd fra mier. Þviad sannlega ertu mitt Traust DRottenn, DRottenn mijn Von fra Ungdoomenum, allt fra Moodur Lijfenu mijnu hefe eg forlaated mig uppa þig, Forlaat þu mig ecke þa eg veiklunst.

## Umm Hana Hlioodeð, og þad Naadarfulla Tillit DRottens, sem Petrum minnte a sijna Idran.

ÞO DRottenn JEsus hafe nu noog siaalfur ad lijda, af þeim Ogudlegu Gydingum, þa leid hønum þo St. Petur ecke wr Minne. Þvi jafnframt sem Hanenn gool i Annad Sinn, snere hann sier vid i Hølluñe, og leit til Petrum, sem villde hann þa sagt hafa, Petur, villtu nu sanna þad eg sagde þier aadur fyrre? Minn Son, Mistreystu ecke,

Hugga

Hugga þig þar vid, ad eg hefe beded fyrer þier, ad þijn Trw skyllde ecke wt slockna. Vid þetta Tillit DRottens, miñtest Petur hũs Orda, og gieck wt og griet beisklega.

O! DRotteñ JEsu, þijn Augu eru sem Ellds Loge, Hvad snart gieta þaug vermt eitt fredid Mañs Hiarta? Hvad snart kuña þau eitt Myrkrafullt Hiarta ad upplijsa, so þad sijnar Synder siaae og vidurkieñe?

Þike þier nu Saal mijn, þad miked, og helldur þu þa, stoora Synd vera, ad S. Petur afneitade Christo, og forsoor siñ Lausnara og Skapara; So hugsa med þier, hvad opt þu hefur þad giort. Hvad opt hefur Andskotiñ hænkad þig? Hvad opt hefur Verølldeñ bleckt þig? Hvad opt hefur þitt eiged Holld og Blood hrædt og skielft þig, so ad þu hefur afneitad þijnum Lausnara med illum Hugreñingum, ochristelegum Ordum, syndsamlegum Giørdum? Med illum Hugreñingum? Þviad Mañsins Hiarta og Huxaner eru illar allt fra Barnæsku. Med ochristelegum Huxunum; Þviad af Nægd Hiartans mæler Muñureñ. Med Syndsamlegum Giørdum;

um; Þvi eingeñ er a Jordeñe Madur ſaa gott giøre og ecke Syndge; Og hvør maa ſo ſeigia? Eg er hreiñ i Hiarta mijnu, og Syndlaus. Jaa, þo hvør og eirn giørde ſitt beſta, þa er þad ecke neina Upphaf og þa hañ meinar hañ hafe vel og forkoſtulega giørt, þa vantar hañ eñ þo formiked.

Heyrdu mier Saal mijn; Er DRottiñ ei þiñ Skapare; Nær hefur þu dyrkad hañ af Hiarta? Er hañ ecke þiñ Fader, nær hefur þu hañ af Hiarta Elſkad? Er hañ ecke þiñ HErra? Nær hefur þu hañ af Hiarta ottaſt, og hønum þioonad? Er hañ ecke Almaattugur og Goodgiarn? Nær hefur þu riettelega treyſt a hañ? Gaf hañ ecke ſiñ Son i Daudañ fyrer þig? Nær hefur þu hønum af Hiarta þackad þar fyrer? Hefur hañ ecke Saattmaala giørt vid þig i Skijrneñe? Nær hefur þu hañ fyllelega halldeð? Hefur hañ ecke ſkipad þu ſkyllder hañ elſka af øllu Hiarta, allre Saal, øllum Krøptum, og þiñ Naunga ſem ſiaalfañ þig? nær hefur þu þetta giørt ſem þu ætter?

Jaa, mijn Saal, med Muñenum ſeigeſt þu chriſteñ vera, eñ Lifnadureñ er Ogudlegum lijkare. Jaa, þu ert ad ſoñu med þe-
im

im sem̃ Gud naalgast med Vorum̃ sijnum, eñ Hiartad er laangt i burt. Þu dregur þig laangt epter Christo, sem Petur giørde, og þa nockud kiemur uppa, þa hopar þu.

Þess vegna giør nu Jdran, mijn Saal, snu þier til DRottins, og laat af Vondu, halld þier til hins Hædsta, og drag ecke þijna Ydran undañ. Gior Ydran medan þu ert heill a Hoofe; Eñ ef þu villt draga hana undañ, þaangad til þu gietur ei leingur syndgad, þa giefur þu ecke upp ad syndga, helldur yfergiefur Syndeñ þig. O! hvad opt hefur Gud þiñ kallad þig? Hvad optlega hefur hañ til þijn litid, og þier bent so naadarlega? Saala mijn, lijt þu aptur til hañs, og laat ecke undañ dragast ad þu snuer þier til hañs, Fresta ecke þiñe Ydran Dag fra Deige, þvi Grimdar Reide DRottins kiemur hastarlega; Jaa, hvønær hellst þu heyrer Hanañ gala, þa þeink a þijna Ydran. So opt þu til Himins lijtur, þa giør Ydran, so Helvijte svelge þig ecke. So opt sem̃ þu til Jardar lijtur, snu þier fra Syndunum til DRottins, og þeink ad þu æatt aptur ad Jordu og Molldu ad verda. Æp þu, Saal mijn, og graat beisklega

lega yfer þijnum Syndum, so sem S. Petur giørde; Laat þijn Taaraflood reña sem Maria Magdalena giørde. Eñ hura muñ þad, ad S. Petur villde ecke leingur vera hiaa þeim Ogudlega Gydinga Selskap, helldur gieck wt, þvi hiaa illum er illt; Þvi skalltu skilia vid þa Ogudlegu; Gack wt af Sodoma so sem Loth giørde, og legg þu Lag þitt vid þa Goodu og Froomu, sem eins eru til Siñis og þu, þvi hia þeim Heiløgu ert þu Heilagur, og hia Goodum ertu Goodur, og hia hreinum hreiñ. Jaata fyrer DRottne þijnar Synder, og dyl ecke þijnar Misgiørder. Þvi hvør sem dregur dulur a sijnar Synder, þa luckast þad ecke. Eñ hvør vid þeim geingur, og lætur af þeim, saa mun Myskun ødlast.

O! þu Almaattuge Herra Gud, med þvi ad þu ert Gud Riettlaatra, þa hefur þu ecke Ydranena sett þeim Riettlaatu, Abraham, Isaac og Jacob, sem ecke syndgudu a moote þier. Eñ eg hefe Syndgad, og mijnar Synder eru fleire eñ Sandkorn a Siaafar Botne, og eg hefe ongva Roo, þviad eg hefe upp vaked þijna Reide, og giørt miøg illa i þijnu Auglite. Hvørt skal eg

eg Aumur hafa mig? Hvar skal eg stadar nema.

DRottinn minn JEsu, minn Frelsare, eg kiem til þijn, og beyge Knie mijns Hiarta nidur fyrer þier, og bid nu Vægd og Myskun. Avi DRottinn, eg hefe syndgad; Eg hefe syndgad, og eg medkienne mijnar Misgiørder. Eg bid grætande, eg bid DRottinn; Fyrergief þu mier, DRottinn, fyrergief þu mier þad; Lát mig ei deya i mijnum Syndum. Forsmaadu ecke DRottinn sundurknosad Hiarta þijns Prææls. Þu ert til þess i Verølldena, komenn ad hiaalpa Syndugum. Þu hroopar og seiger: Komed hijngad til mijn aller þier sem erud Preytter, og Pínder, eg vil ydur endurnæra. Sia nu, eg kiem eirnenn til þijn; Mijn einka Von og Huggun, Myskuna þu mier; Þu Sætaste JEsu Guds Son, lijkna þu nier. O! þu minn sætaste Lausnare, endurnær þu mig med þijnu Bloode, sem fyrer mijnar Synder er wthellt. Kom mier a Fætur aptur, þvi eg er nu uinn koll fallenn, þvi þu ert sa Vollduge HErra sem vidriettter og upprreyser þa sem nidur eru sleguer; Og ef þu reiser mig ecke upp, þa giet eg ecke upp aptur staded, Ps. 146.

Lát mig heyra Fagnad og Glede, so þau Bein gledieſt sem eru Hrygdarfull. Snu þijnum Augum fra mijnum Syndum, og afma allar mijnar Misgiørder. Skapa i mier nytt Hiarta, og gief mier endurnyadann Anda. Kasta mier ecke fra þinne Asionu, og tak þinn helga Anda ecke fra mier. Hugga mig aptur med þinne Hiaalp, og Gledennar Ande styrke mig, Ps. 51.

DRottinn minn JEsu Christe, aliit mig aumann Syndara, med þijnum Naadar Augum, sem þu leist til Peturs i Byskups Hollenne, og med hvørium þu aaleist þa Hrygdarfullu Mariam Magdalenam, og Ræningann a Krossenum; Gief mier Naad þar til, ad eg syrge og græte Synder mijnar, sem S. Petur giørde. Lát mig af Hiarta hafa þig kiærann, sem Maria Magdalena, og lát mig med Ræningannum i riettre Trw til þijn koma, og þitt Auglite æsk-

lega sia i Paradijs

Fagna nu og gled þig mijn Saal, þvi þiñ Harmagraat heyrer DRottiñ, hañ heyrer þijna Grætbeidne og vill þier hiaalpa. Naadugur og Myskunsamur er DRottiñ, Poliñmodur og Giæskusullur, viliande Ydran hafa i stadeñ Syndaña; O! hvad stoor er Myskunseme DRottins, ad hañ lætur sig so Naadugañ siña, af þeim sem sier til hañs snwa, og þa sem batnande sara, lætur hañ Naad ødlast, og þa sem mædder eru, huggar hañ, so þeir ørvingleſt ecke. Lofadur sie Gud Fader, sem mijna Saal medteked hefur. Lofadur sie JEsus Christus, sem mijna Saal frelsad hefur. Lofadur sie sa Heilage Ande, sem mijna Saal so vel huggad hefur, Amen.

## Uñ nya Hlijdne, Ydran og Yferboot S. Peturs.

SO er skrifad uñ hiñ heilaga Petur Postula, ad so opt sem hañ þadañ i fra heyrde Hanagal, eda hañ med ødru moote miñteſt a sitt saargrætelega Fall, þa hafe hañ ecke gietad bundeſt Taara, og so opt sem hañ miñteſt a siñ Veikleika, þa hafe Taareñ ruñed ofan epter hñs Kiñbeinum, so ad daglega hafe hañ haft Sveitadwk lijtiñ, ad þurka þar med sijn Taar. Med þessu moote hefur hañ lifad i GudsOtta, og vaktad sig fyrer Syndeñe. Og sem hañ var nu i Saatt komeñ vid Gud, took hañ til ad hughreysta og hugga sijna Brædur, adra Christneñar Lime, med Kieñingum og A-

miñing

miñingum, so sem hønum DRottiñ bifalad hafde.

J sama Maata skalltu mijn Saal, þiña Synda ydrast, og uñ Fyrergiefning jafnañ bidia, og þar med vel og Christelega strijda; Halldande fast Trwñe og goodre Samvitsku. Fordast Syndena sem Høggorm; Þvi komer þu heñe of nærre, þa særer hun þig. Heñar Teñur eru sem Leons Teñur, og bijta til Dauda. Hvør ein miñsta Synd er hvast Sverd, sem so særer, ad eingeñ Madur kañ lækna. Þvi skalltu ottast Gud mijn Saal; Laat af ad syndga, þvi þad er þad rietta Forlijkunar Offur, og sw þægelega Pioonusta

DRottiñ miñ JEsu; Laat þitt Heilaga Ord leida Fætur mijnar a Veg Fridarens, so þad sie mitt Lioos, ad ecke rijke Naanglæted yfer mier. Vijsa mier þijna Vegu, ad eg gange i Sañleikanum. Halltu mijnu Hiarta i Einingu þijns Fridar, so eg þitt Heilaga Nafn ottest og elske, Amen.

# Fiortande Capitule.

Hvørneñ ad Kieñemaña Høfdingiarner dæmdu Christum til Dauda, og hvad þeir gaafu hønum ad Skulld fyrer Pilato. Judas ørvinglast. DRottiñ giører sijna Jaatning ad nyu. Hañs Sakleyse audsijnest eñ framar.

OG strax um̃ Morguneñ er Dagur var, sofnudust samañ og hielldu Raad-Stefnu aller Ædstu Prest-ar med Olldungum Lijdsins og Skrift-Lærdum, og þar ad auk ollu Raadenu, moote JEsu, so ad þeir giæte honum i Hel komed. Og leiddu hañ upp fyrer sitt Raad, og søgdu: Ef þu ert Christur, seig oss þad? Og hañ sagde til þeirra: Ef eg seige ydur þad, þa trwed þier þvi eige, Eñ ef eg spyr ydur, þa svared þier mier eige, Eda læted mig lausañ. Nu hiedañ i fra mun Mañ-sins Sonur sitia til Hægre Handar Guds Kraptar. Eñ þeir søgdu aller: Ertu þa Guds Sonur? Hañ sagde þa til þeirra: Þier seiged þad, Eg em hañ. Þa søgdu þeir, Hvad þurfum vier nu Vitnisburdeñ lein-ur, Vier siaalfer heyrdum þad af hañs Muñe. Og allur sa þeirra Skare stood upp og bundu JEsum, og leiddu hañ i burt fra Caiphas og i Þijng-Hwsed, og ofurselldu hañ Lands-Doomaranum Pontio Pila-to, Eñ þad var snemma Morguns.

Þa er Judas sa er hañ hafde forraad-ed, saa þad hañ var til Dauda dæmdur, Jd-radest hañ þess, og færde aptur þeim Æd-

stu Prestum og Olldungum þa Priatijger Silfur-Peninga, og sagde: Syndgad hefe eg, ad eg Forried Saklaust Blood, Eñ þeir sögdu: Hvad kiemur þad vid oss? Siaa þu þar fyrer. Og hañ snarade þeim Silfur-Peningum i Mustered, skundade þadañ, gieck i burt og heingde sialfañ sig, Eñ þeir Ædstu Prestar tooku Silfur-Peningana, og sögdu: Eige hæfer ad vier laatum þa i Gudskistuna, þviad þad er Blods Verd. Eñ þeir hielldu eitt Raad, og keyptu med þeim Leir-Smids-Akur, Framande Moñum til Greptrunar. Fyrer þad, er sa Akur kalladur Blods-Akur, allt til þessa Dags. Þa er uppfyllt hvad sagt er fyrer Jeremiam Spaamañ, seigiande: Þeir tooku þa Priatijge Silfur-Peninga, Er hiñ Sellde var med betaladur, hvorn þeir keyptu af Israels Börnum, og hafa giefed þa fyrer Leyr-Kiera Smids-Akur, Epter þvi sem DRotteñ hafde mier boded.

Og Höfud-Prestarner og Olldungarner, geingu ei sialfer iñ i Þijng-Hwsed, ad þeir saurgudust eige, helldur so þeir mættu neita Paaskaña. Pilatus gieck þa wt til þeirra, og sagde: Hvoria-Akiæru

færed þier i giegn þessum Mañe? Þeir svorudu, og sögdu til hañs: Ef þesse være ei Illrædis-Madur, þa hefdum vier eige i Hendur feinged þier hañ. Þa sagde Pilatus til þeirra, Taked þier hañ þa og dæmed epter ydrum Løgum. Gydingar sögdu þa til hañs: Oss leifest ecke ad Lijflaата nockurn, So ad þad Orded JEsu uppfyllltest, er hañ sagde: Teiknande þar med, hvorium Dauda hañ skyllde deya. Eñ JEsus stood fraṁe fyrer Lands-Doomaranum; Eñ þeir tooku ad aaklaga hañ, og sögdu: Þeñañ fiñum vier ad hañ fraasnijr Folkenu, og fyrerbijdur Skatt ad giefa Keysaranum, og seiger sig ad vera Kongeñ Christum. Þa gieck og i Añad Siñ iñ Lands-Doomareñ Pilatus, kallade JEsum og sagde til hañs: Ertu Kongur Gydinga? JEsus svarade: Talar þu þad af sialfum þier, eda hafa adrer sagt þier þad um mig? Þa svarade Pilatus, Er eg nockud Gydingur? Þijn Þiood og Kieñemaña Høfdingiar ofurseldu þig mier, Hvad hefur þu giørt? JEsus svarade: Mitt Rijke er ei af þessum Heime, Ef ad mitt Rijke være af þessum Heime, þa mundu mijner Þienarar

arar strijda þar fyrer, so ad eg Ofurseldest ei Gydingum, Eñ nu er mitt Rijke eige þadañ. Þa sagde Pilatus til hañs: Ertu þo saint Kongur? JEsus svarade, og sagde til hañs: Þu seiger þad, Eg em og Kongur, Til þesser eg fæddur og i Heimeñ komeñ, Ad eg bere Vitne Sañleikanum, Og hvør hañ er af Sañleikanum, sa heyrer mijna Rodd. Pilatus sagde til hñs: Hvad er Sañleikureñ? Og þa hañ hafde þetta sagt, Gieck hañ wt aptur til Gydinga, og sagde til þeirra Yppurstu Presta og til Lijdsens: Aungva Søk fiñ eg med þessum Mañe. Og Høfud-Prestarner aakløgudu hañ hardlega. Og sem hañ aaklagadest af þeim Ædstu Prestum og Olldungum, svarade hañ aungvu. Pilatus spurde hañ aptur ad, og sagde til hañs: Svarar þu aungvu? Heyrer þu ecke? Siaa, hvørsu hardlega þeir aaklaga þig. Eñ JEsus svarade hønum aungvu framar til nockurs Ords, So ad Lands-Doomareñ undradest þad næsta. Eñ þeir voru þess aakafare, og søgdu: Hañ hefur uppæst Foolked, med þvi hañ hefur kieñt a øllu Gydinga Lande, og hefur tilteked i Gallilæa, allt hijngad. Eñ

er Pilatus heyrde Galilæam nefnda, spurde hañ ad, hvort hañ være eirn Galilæare, og er hañ fornam ad hañ var under Herodis Vellde, sende hañ hañ burt til Herodem, sem eirneñ var a þeim sömu Dögum i Jerusalem. Eñ er Herodes sa JEsum, vard hañ næsta gladur, þviad hañ hafde fyrer laungu gyrnst ad sia hañ, af þvi hañ hafde margt heyrt af hönum, og hañ vænte ad hañ munde sia eitt Teikn af hönum, og adspurde hañ a marga Vega, Eñ hañ svarade hönum öngvu. Eñ Kieñemaña Höfdingiar og Skriptlærder, stoodu og aasökudu hañ hardlega; Eñ Herodes med sijnum Strijds-Möñum Forsmaade hañ og Spottade, færde hañ i hvijtt Fat, og sende hañ aptur til Pilatum. Og a þeim Deige urdu þeir Pilatus og Herodes Viner aptur, þviad aadur voru þeir Oviner sijn a mille.

Eñ Pilatus samañkallade Presta, Höfdingia og Höfuds-Meñ og Lijdeñ, og sagde til þeirra: Pier hafed þeñañ Mañ til mijn haft, so sem hañ er fraasnijr Foolkenu, og siaaed, eg hefe Yferheyrt hañ hier fyrer ydur, og a þessum Mañe fiñ eg aungva af

þiem

þeim Søkum, þar um̃ þier klaged hañ, og ei helldur Herodes, þviad eg sende ydur til hañs, og siaaed, eckert er af hønum giort, þad. Dauda sie verdugt, fyrer þvi vil eg refsa hønum og laata lausañ.

# Eintaled.

Christur var hafdur aptur fyrer Raaded þeirra Skriftlærdu, og giørde þar eñ sijna Jaatning.

ÞOD Morgne Dags Sneṁendis fundust aptur þeir Skriftlærdu, og Kieñemaña Høfdingiar med Ølldungum Lijdsins, og þijngudu i Añad Siñ um̃ Jesum, so þeir giæte komed hm̃ af Døgum.

Siaa þar mijn Saal, þeir Ogudlegu hielldu sijna Þijng-Stefnu, og Drotteñ vard ad koma bundeñ fyrer þa. Þeir Syndugu saatu i Doome, og DRotteñ Himens og Jardar hlaut ad standa frame fyrer þeim, Og Spekeñ siaalf hlaut ad Riettlætast af sijnum Sonum.

Eñ þu Drotteñ miñ JEsu, sem ei laangar til neins Mañs Glotunar, byriader eñ þa Jdranar Predikun fyrer þeim, i hvørre þu aavijsader þeim, ad þeir være so Forher-

ter i sijnum Asetninge, ad ei munde þier tiaa, ad seigia þeim eda spyria þa margs ; Og eñ þo þeir framfylgde Blindleik sijns Hiarta, og tæke af þier Lijfed, þa munder þu samt i giegnum Daudañ iñgaanga i þijna Dijrd, og eirn Herra og Kongur yfer þiñe Christne vera, Þa munde og þad auglioost verda fyrer þeirra Augum, hvad þeir nu giørde, og ad Sijdustu fyrer þeim vitnader þu, ad þu værer ecke Einsamall Madur, helldur Eilijfur, Sañur, Lifande Guds Son.

Siaa hier, mijn Saal, þa hrædelegu Villu og Blindleik Gydingaña, og hvørsu þeir laata slijka Jaatning Christi sier ecke til Hiarta gaanga. Þeir vissu vel ad Christur aatte ad koma i Heimeñ, og høfdu leinge vænt epter hønum, og þeirra Forfedur. Eñ nu sem þeir hielldu a hønum, villdu þeir ecke trwa hønum nie hañs Jaatningu, helldur dæma þeir hañ til Dauda, þess vegna, ad hañ medkieñer sig ad vera Christum. Eñ þad var so fyrerspaad ad Christur skyllde upprætast, Jaa, þad var og skrifad ad hañ skyllde giefa siñ Lijkama til Synda Offurs, og verda burt sliteñ af

Lande

Lande Lifande Mañа, og verda pijndur vegna Synda sijns Foolks.

Þar fyrer ertu DRotteñ, mitt stadfast Traust, Von mijn og Sæluhiælp; Þvi eckert Nafn er Moñunum giefed añad, i hvøriu vier Hoolpner verdum, utañ þitt sæta Nafn O! JEsu. Og þo þitt eiged Folk hafe Vanrækt og Foracktad þig, þa ertu nu oss Heidingium giefeñ, til ad lijsa vorum Sælum, ad þu siert vort Hiælpræd, allt til Heimsins Enda. Þijn Pijna wtvegar mier Eilijfa Glede. Þitt Dooms Afelle veiter mier Eilijfa Endurlausn. Þiñ Daude giefur mier Eilijft Lijf.

Þu ert Christur sa smurde DRottens, og lietst þig i þvi Nafne til Dauda dæma, Veit mier, ad Sæl mijn vite og vidurkieñe, þad þu ert þad einka Lijknar Offur, og Forlijkun fyrer mijnar Synder. Þu ert DRotteñ Himens og Jardar, og lietst þig þo til Dauda dæma, Hiælpa miñe Sælu, so hun stadfastlega trwe, ad aan þijn og fyrer utañ þig er eingeñ Hiælp, hvørke a Himne nie Jørdu. Þu ert Eilijfur Guds Sonur, og hefur teked a þig mitt Holld og Blood, og i þvi Nafne lætur þu giefa þig Daudanum i Valld; Gief þu ad Sæl mijn lære og trwe, ad alleina vegna þijns Arnadar Ords og Forþienustu verde eg og blijfe Guds Barn ad Eilijfu, Amen.

Judas skilar aptur þeim þriatijge Silfur Peningum, og Orvijngladest i sijnum Syndum.

A

AF Forrædaranum Judas skalltu hier merkia mijn Saal, ad þeir Fals Svikarar og og Blood-Gijrugu, komast ecke a midt Skeid siña Lijfdaga, Hviad Judas doo i sijnum Syndum, so sem DRottẽn hafde sagt hønum, Vei þeim Mañe sem Forrædur Mañsins Son, Þarfara være þeim Mañe, ad hañ være alldrei fæddur, Ps. 55. Matth. 26.

Eñ, þu Saal mijn, þo þu kuñer ad falla i nockra Synd, þa ørvæntast ecke so sem Judas, og ei skalltu seigia sem Cain; Mijn Synd er stærre eñ hun verde fyrergiefeñ. Þad laug Cain, hviad Guds Myskun er meire eñ allar Heimsins Synder. Þad var ad vijsu, Saal mijn, stoor Synd, ad Judas sellde so siñ Lavard og sveik siñ Herra, og þad var stoor Synd, þa Cain i Hel sloo siñ Brooder Abel, eñ sú var Syndeñ laangtum meire, ad þeir ørvæntu sier Guds Naadar. Hvi þo vier syndgum, þa høfum vier eirn Talsk og Arnadarmañ hiaa Fødurnum, JEsum Christum hiñ Riettlaata, saa sem er Forlijkun fyrer vorar Synder, 1. Joh. 2.

Eñ Judas villde Bølvanena hafa, og

þvi er hun yfer hañ komeñ; Blessunena villde hañ ecke, þvi er hun laangt fra hønum. Bølvaneñe iklæddest hañ, sem ødru hafnar Fate; Hun er wt i hañ ruñeñ sem Vatn, og i hañs Bein sem Vidsmior; Hun er hønum sem añar Kyrtill, og sem eitt Bellte þad hañ bindur uñ sig. Slijkt fær þeir af DRottne, sem hañ hafa ecke fyrer Augum, Ps. 109.

Eñ þa sem Gud hafa sier fyrer Augum, blessar hañ, bæde smaa og stoora. DRottiñ blesse þig æ meir og meir, mijn Saal, DRottiñ blesse þig og vardveite þig, Drottiñ laate sijna Asiaanu lijsa yfer þig, og sie þier myskunsamur, Drottiñ snue sijnu milldu Auglite til þijn, og giefe þier Frid; So skiedur þa sem DRottiñ ottast, og hañ fyrer Augum hafa.

**Þeir færdu JEsum bundiñ fyrer Landsdoomarañ, hañ Heidna Pilatum.**

SEm Afellisdoomureñ var nu geingeñ ad hañ være Dauda verdugur, stoodu þeir upp, og færdu hañ Pilato. Þu ert sañ riette Samson, DRottiñ, sem hañs Foolk batt, og Philisteis i Hendur sellde.

Eñ þu HErra JEsu varst selldur miña

Synda

Synda vegna, so eg kvittur yrde fra Dioflenum, þu varst bundeñ, mier til Lausnar, med Syndugra Omilldum hondum, so eg komest i þijns Himneska Fodurs Hendur.

HErra Himneske Fader, gack ecke i Doom vid mig, uñ mijnar Synder, þvi þiñ Sonur miñ Lausnare, gieck under Doom þeirra Syndugu miña vegna. Sun þijnu Auglite til mijn, og seig mig lausañ vid þañ eilijfa strænga Doom, vegna þess eilijfa einka Medalgængara, vors HErra JEsu Christi, Amen.

Uñ Phariseaaraña Hræsne.

ENN Pharisæarner villdu ecke gænga iñ i Þijng-Hwsid, so þeir saurguduſt ecke; So blinder voru þeir Daarar, og so daarlega voru þeir blinder. Þeir hlijfduſt vid ad koma iñ i þad Heidna Þijng-Hws Pilati, so þeir ecke ohreiner yrde. Eñ þañ Riettlaata til Dauda ad fordæma, þar hlijfduſt þeir ecke vid, og þess skomuduſt þeir sijn ecke. Þeir voru lijka oraadner i þvi, ad leggia þa þriatijge Silfurpeninga i Guds Kistu, siñ Judas skilade aptur; Eñ ad raada af Døgum þañ saklausa, hikudu þeir ecke vid. Þañeñ sijudu þeir Mijfluguna, eñ gleyptu Ulvalldañ.

Hiaalpa þu mier DRottiñ, miñ Frelsare, fra allre Hræsne, ad eg ecke þioone þier med følsku Hiarta; Laat mijna Saal frææskilda vera þeirra Tolu sem naalgast þig

med

med Muñenum, eñ Hiartad er laangt fra þier. Miñ Gud, forda Saaln miñe þeirre vondu Art, sem þikest fullhrein, eñ er þo alldungis ohvegeñ og Saurug.

## Þeir klogudu Drottiñ fyrer Pilato sem eirn Spillvirkia.

EÑN nu Søkum þess, ad Pilatus þeckte vel þeirra Vana, ad þeir ecke lietust meiga koma i Þijng-Hwsid, þa gieck hañ wt til þeirra, og spurde hvad þeir giæfe Jesu ad Søk. Eñ þeir høfdu øngva rietta Adferd Maalaña i Andsvørunum, helldur svara þeir Pilato wt af Forse, og seigia; Være hañ ecke Jllrædes Madur, þa mundum vier ecke hafa þier hañ i Hendur feinged.

O! þier Ligarar, sem ecke kuñid ydar ad skamast, hvad falsklega kiærdu þier til mijns Lausnara? Hvada Jllræde hafde hañ þa giort? Hvad hafde hañ þess ad hafst? Spyried þa Blindu sem hñ gaf Sioonena, og læted þa herma fra. Spyried Dioful-ooda sem hañ læknade. Spyried Hallta sem hañ giørde Heilfætta. Spyried þaa Daufu sem hañ liet heyra; Þa Blindu sem hañ gaf Syn, þa Maallausu sem hañ liet tala, þa Vesølu sem hñ gaf Huggun, þa Daudu sem hañ giørde lifande. Þesser

aller

aller munu votta og ſeigia, ad hañ ſie Drottiñ Gud vor, oſs til Hialpar hyngad komiñ. Hefur ecke Eſajas um hañ ſpaad, ad hañ munde Blindum giefa Syn, Daufum Heyrn, og ad a hañs Døgum mundu þeir Holltu kviklaater verda, ſem añar Skoogar-Hiortur, og Mallaus Twnga munde þa Gude Lof ſijngia.

O! JEſu þu Riettlaate og Heilage Herra, ſem miña vegna varſt fyrer Illræde klagadur; Gief þu mier þitt Riettlæte, og laat mig i þeirra Tølu vera ſem þu hefur af Synd og øllu illu frelſad, Amen.

## Hvada Saker þeir gaafu Chriſto fyrer Pilato.

OG ſem Pilatus liet ſier ecke þeirra Reyning nægia, helldur badſt epter ad meiga vita hañs Dauda Søk; Siaa, þa ſetia þeir fram þriaar Sakargipter.

1. Ad hañ ſem añar Villu-Madur, telde raanga Trw fyrer Foolkenu.
2. Ad hañ ſem añar Upphlaups Madur, bañade ad giefa Keyſaranum Skatt.
3. Ad hañ þyrde ad ſeigia þad, ad hañ være Kongureñ Chriſtus.

O! þier Følſku Twngur, og oblijwger Lygemuñar; Nær villde hañ villa Trw fyrer Foolkenu? Kieñer hañ ecke bæde Yd-

kan og Yferboot og Syndaña Fyrergiefning ollum Riett-trwudum? Kiende hañ ecke rietta Guds Gøtu i Sañleika, Og greidde ydar Fœtur a Veg Fridarens?

Nær fyrerbaud hañ Skatt ad giallda Keysaranum? Sagde hañ ecke so vid ydur; Giefid þad Keysaranum hvad Keysarans er, og Gude hvad Guds er. Og ad hañ ongvum Mañe til Hneyrlunar edur illsEpterdœmis være, liet hañ Petrum giefa Skatt-Peningeñ fyrer þa baada til Capernaum. Nær sijnde hañ sig i þvi ad leggiast epter Veralldlegu Rijke og Konglegre Stiett? Hafde hañ sig ecke undañ og flwde, þa Lands-Foolked i Galilea villde hañ til Kongs taka?

Eñ samt og aadur er hañ sañarlega eirn Kongur, sem er sa Dyrdareñar Kongur, kuñ hvorn skrifad er; Fagna þu Dotter Zion, og vertu glød Dootter Jerusalem; Siaa þiñ Kongur kiemur til þijn Riettlaatur og Hoogvær, Faatœkur, rijdange eirnre Ösnu og Fola Klifbærrar Ösnu. Þetta saau þeir Gydingar allt samañ, Ps. 24. Zach. 9.

DRottiñ JEsu, Lausnare miñ, þeir
O upp-

uppluku sijnum Ogudlega Muñe a moote þier, og tøludu eiturlega med sijnum Følskum Tungum, offækiande þig aan Saka. Og þo þu værer Riettlaatur og einskis ills valldur, þagder þu þo samt, og ansader þeim øngvu. Þu varst sem daufur og Mallaus, sa eingeñ Mootmæle hefur i sijnum Muñe. Ps. 38. og 98.

Skoda hier, Saal mijn, hvorneñ þeir hafa farid med þiñ Lausnara; Merk og legg i Miñe, ad þetta var eirn Speigell um̃ hañs Christne; Þvi aller sem gudlega lifa vilia i Christo JEsu, hlioota eirneñ Ofsookn og Mootgaang ad lijda. Læresveirneñ er ei yfer Meistara sijnum, og Piooniñ ecke yfer sijnum Herra. Þad maa duga, þo Læresveirneñ sie so sem hañs Meistare, og Piooneñ so sem hañs Herra.

Saal mijn, hafe Diøfulleñ og Heimureñ ofsookt þiñ Lausnara; Þvi maattu lijka vid Ofride og Ofsookn bwast.

Kom mier til Hiaalpar, DRotteñ JEsu, ad eg jafnañ andsijne mig, eg sie þiñ riettur og sañur Pioon, i Poleñmæde og allra Handa Neyd og Angist, i Krosse og Mootgaange, i Vøkum og Føstum, i Skijrlijfe og Vidurkieñingu, i Laanglundar-Giede, Hoogvære, i Heiløgum Anda, i Ofølsudum Kiærleika, i Orde Sañleikans, i Krapte DRottens, med Herklædum Riett-

læte-

læteſins, til Hægre og Vinſtre Handar, i Heidre og Vanheidran, i goodu Nycte og Vanryckte, ett. So ſem Forææker, eñ þo marga Audgande, eins og Snauder, eñ þo a øllu Nægd hafande, So ſem þeir ed eckert hafa, eñ eignaſt þo alla Hlute.

Hiaalpa þu mier DRottē JEſu, ad eg ævallt ſie til reidu ad lijda med þier, ſo eg Æfeñlega verde i þijnu Rijke, Amen.

## Uñ þa Dijrdlegu Jaatning Chriſti fyrer Pilato.

Athuga þeſſa Jaatning, Saal mijn, þa Pilatus ſpottade og ſpurde ad, hvort hañ være Kongur Gydinga, þa þagde hañ ei leingur, helldur ſagde: Mitt Rijke er ecke af þeſſum Heime; Være mitt Rijke af þeſſum Heime, þa mundu mijner Pienarar ſtrijda fyrer mig, ſo eg ecke i Hendur ſelldiſt Gydingum, Eñ nu er mitt Rijke ecke af þeſſum Heime. Og ſem Pilatus framar daaradeſt ad, og ſpurde: Pa heyre eg þo, ad þu þikeſt Kongur vera, ſem villde hañ ſeigia: Veſlings Madur; Hvada Ohamingia kom ad þier, ad þu tekur til Bragds ad laata þig Kongs Nafne kalla, etc. Pa giørde Chriſtur Greinarmun a mille þeſſa Heims Kongs Rijkia, og ſijns Andlega Rijkis, og ſagde: Eg er ad ſoñu eirn Kongur, og er þar til boreñ, og i Heimeñ komeñ,

ad eg Vitne bere um̃ Sañleikañ, Hvør nu er af Sañleikanum, hañ heyrer mijna Raust.

Ad søñu DRotteñ miñ JEsu, varstu sa Dijrdareñar Kongur, þo Heimureñ forachtade þig, þu varst sa Afreks Kappeñ sem wt sendur varst af Gude ad hiaalpa. Þu ert sa Utvalde DRottens, hvørn Gud hia ødrum Moñum til Hefdar sette, og smurde med sijnu Heilaga Vidsmiøre. Þu ert sa Kvistur Davids, sem ert eirn vel Rijkiande Kongur, giørande Doom og Riettlæte a Jørduñe.

Nu þott Heimenum lijtest ecke a þitt Rijke, þad kiemur so til, ad þad er Andlegt, eñ ecke Veralldlegt; Þu sem ert vor Kongur, sitiande til þijns Fødurs Hægre Handar, i Dijrd Himnaña, safnar þier Undersaatum i þiñe Christelegre Kyrkiu hier a Jardrijke, med Orde Sañleiksins, og wtdeiler med þijnum Utvøldum Riettlæte og Syndaña Fyrergiefningu, Heiløgum Anda, og þvi Eilijfa Lijfe.

1. Jardnesker Kongar rijkia, og festa sitt Rijke med Strijds Magt og Mikel-Mensku. Eñ þu ert DRotteñ Kongur

Sañ

Saūleikſins; Þu ſender þitt Ord, og ſamaūkallar þitt Foolk med Heilogum Herlwdre, þvi þitt Ord er Saūleikureñ, og Kraptur Guds, ſem Hoolpna giorer þa ſem aa hañ trwa.

2. Jardneſker Kongar Rijkia, og þeirra Gots og Gaafur eru Jardlegar og Faafeingelegar; Eñ þu ert Kongur a Himnum og ert Rijkur af Saūleikanum, þeim Aumu til Hiaalpar. Gud þiñ Fader hefur þig ſendt ad kieña Faaviiſum, Sundurknoſud Hiortu ad grœda, þeim Herteknu Lauſn og Frelſe ad boda, Naadartijd Drottens ad kuñgiora, og þañ Dag Hefndar DRottens ollum Sorgfullum til Huggunar; Þu ert komeñ med Bodſkap Fridarens, og hefur elſkad þijna Chriſtne, og þig i Daudañ giefed fyrer hana. Þu ert Uppriſañ og Lijfed, Hvor a þig trwer, hañ lifer, lijka þo hañ deye.

3. Jardneſker Kongar Rijkia, eñ þo ſkaña Stund, og eru ſijnum Underſaatum wt uñ Stundlegañ Frid. Eñ þu lætur þijna Chriſtne vid þeſſa Heims Kroſſ og Motgaang beriaſt, ſo hun giegnum Synder og Anauder komeſt i þitt Eilijfa Rijke.

4. Jardneſker Kongar Rijkia, eñ þo ſkaña Stund, og verdur burt kipt þa mi-
nſt varer; Eñ þitt Rijke DRotteñ JEſu
varer Eilijflega.

Lofadur ſie Gud DRotteñ og Fader
vors Herra JEſu Chriſti, ſem oſſ hefur af
Myrkrunum kallad i ſitt dꜳſamlega Li-
oos, og til Eilijfrar Dijrdar, og hefur ſett
oſſ i Rijke ſijns Sonar, hia hvorium vier
hofum Endurlauſnena i hañs Bloode,
ſem er Syndaña Fyrergiefning, og O-
brygdula Von Eilijfs Lijfs.

DRotteñ miñ JEſu Chriſte, þu Kongur Dijrdareñ-
ar, ſem elſkar Riettlæted og hatar Rꜳnglæted; Gief
mier þiñ Heilaga Anda, ad eg kuñe hafa mig i Hooſe
i þeſſare Verølldu, þvi eg veit ad þeſſe Hierviſt endaſt.
Uñ þu mier, ad eg elſke Sañleikañ og Veg Fridarens.
Forda þu mier Afguda-Dijrkan og Ligum, og hallt mier
i riettre Kyñingu þijns Vilia. Lꜳt mig jafnañ hlijda
þijnu Orde, og fylgia þiñe Rauſt, Rootfeſt þu i mier
kroptuga Trw þijns Nafns, og fyll mitt Hiarta med
ſtødugu Von til þijn, uñ þa Eilijfu Sꜳluhiꜳlp. Lꜳt
mig ecke undergꜳnga Ok þeirra Vantrwudu, ſo ad eg
lijkeſt ecke Sonum þeſſarar Veralldar; Þvi þeſſarar
Veralldar Vegur liggur til Helvijtis. Hiꜳlpa þu mier
ſem ert ſa Eilijfe Konungur Riettlæteſins, þa mun
mig ecke neitt ſkada. Lꜳt mig ſækia epter þvi, ſem
Eilijft er, þar þu ſitur til Guds Hægre Handar, eñ
ecke epter þvi ſem hier a Jardrijke a heima. Og nær
mier kañ nockud a moote ad gꜳnga, lꜳt mig Hug-
hrauſtañ vera, og uñ þura, ad þu yfervauſt Verølld-

eña.

ena. Laat mig þvi ecke gleyma, ad ſo ſem þu hlauſt ad lijda, ſo hlioota og þijner Limer ad lijda Mootgaang. Laat mig þvi ecke gleyma, DRotteñ miñ JEſu, ad vier erum Børn Heilagra ſem vonum epter ödru Lijfe, hvørt þu munt giefa þeim ſem hia þier ſtødnger i Trwñe ſtanda. O! JEſu þu Kongur Dijrdareñar, Hvad mæg þyrſter mijna Saal epter þier, mijnum lifanda Gude, Nær mun eg koma þaangad, og ſkoda þitt Bleſſada Auglit? Amen.

## Hvør Chriſteñ Madur ſie til Reidu Daglega, ad giøra Grein a ſiñe Trwarjaatningu.

HAf þad Epterdæme, Saal mijn af DRottne, ad þu Daglega ſiert til reidu, ad giøra Grein a þiñe Trw, og ad andſvara, hvør ſem vill vita, vid hvada Von þu lifer. Þvi hvør ſem Soneñ medkieñer fyrer Møñum, þañ vill hañ medkieña fyrer ſijnum Himneſka Fødur; Eñ hvør hoñum afneitar, þeim vill hañ afneita fyrer ſijnum Himneſka Fødur.

Halltu a Sañleikanum, allt i Daudañ Saal mijn, og Drottiñ mun fyrer þig ſtrijda; Vert ecke ſem þeir ed Lofa myklu, med ſtoorum Ordum, eñ efna þa illa Heiteñ ſijdañ. Helldur ſkalltu eirneñ fyrer Kongunum ræda uñ Herrans Saattmaal og ecke ſkamaſt þijn. Laat mig ei ottaſt þa,

DRottiñ, sem Lijkamanum tijna kuña, eñ ecke Saaluñe; Helldur laat mig ottast þig, sem Saal og Lijkama kañt i Helvijte tortijna.

Sakleise Christi openberast allstadar.

HEyr til Saal mijn, hvad liooslega upp kom þijns Lausnara Sakleyse. Fyrst jagde Svikareñ Judas: Eg hefe illa giort, ad eg sveik saklaust Blood.

Pilatus visse og vel, ad Gydingar hofdu af Hatre og Ofund griped JEsum, og þess vegna vitnade hañ um hañs Sakleyse i fim̃ Reisur, og leitade miøg vid ad faa hañ lausañ. Herodes fañ ecke neina Skulld hia honum. Um̃ sijder sende Pilati Hws-Frw honum Bod, og sagde: Faastu ecke vid þañ Riettlaata; Þvi eg hefe i Dag margt lided hañs vegna i Svefne.

Hvad hafder þu nu giort, þu Trwlynde Þioon DRottins, ad þu skyllder so fordæmdur verda? Hvad hafder þu broted, og hvør var þijn Dauda Søk? Eg, DRottiñ miñ, eg var Søk og Efne þijns Dauda, eg hef þvi ollad, þijn Saar og þijnar Akomur hef eg veitt þier, og þijna Angist hef eg giort þier med mijnum Syndum. Þu varst

ryst þijns Fodurs einka Sonur, aa hvorium hañ alla Pocknan hafde, þvi kuñe eingiñ þier uñ neina Synd ad kieña; Ongum hafder þu illt giort, eingiñ Flærd var fundeñ i þijnum Muñe, samt og ꜵdur hefur þu pijnst fyrer oss Syndugа, og ert ordiñ Bølvan fyrer oss, so þu leyster oss af Logmꜵlsins Bølvan.

Heyr þu saklausa Lamb Guds, sem allar Heimsins Synder barst a þijnum Herdum; Lꜵt mig alldrei orvijnglast i mijnum Syndum; Lꜵt mig lifa og deya i þeirre Huggun, ad allar mijnar Synder sieu med þiñe saklausu Pijnu bꜵttar og bitaladar, og allt þad mig vantar, haser þu med þinum Dauda mier utvegad, Amen.

# Fimtande Capitule.

Hvørsu ad Barrabas Mordingiñ fieck Lijf, eñ Christur var Hudstryktur, hæddur og til Dauda Dæmdur.

UM aa Hꜵtijdar-Deigenum hlaut Lands-Doomareñ epter Veniu, Folkenu lausañ ad lꜵta eirn Bandingia, hvørn hellst þeir villdu, og epter hvørium þeir beidduſt. Eñ þa hafde hañ eirn Nafn-Kiendañ Bandingia, framar ødrum, sa ed Barrabas hiet, med Upphlaups Moñum bundeñ, hvørier i Upphlaupenu høfdu Vijg uñed. Sem þeir voru til sam-

ans kommer, ſagde Pilatus til þeirra: Pad er ydar Sidvenia, ad eg giefe ydur eirn lauſañ a Paaſkum, og Folked kallade upp, og took til ad bidia, ad hañ villde giora ſem hañ være vanur. Eñ Pilatus ſvarade þeim og ſagde: Vilied þier ad eg giefe ydur nu Gydinga Kongeñ lauſañ? Hvørn vilied þier ad eg giefe ydur lauſañ Barrabam eda JEſum, ſem kallaſt Chriſtur? (þviad hañ viſſe vel ad Høfud-Preſtarner høfdu af Ofund ofurſelldt hañ.) Og ſem hañ ſat a Doom-Stoolnum, ſende hañs Hws-Frw til hañs, og liet ſeigia hønum: Haf þu eckert ad giora med þañ Riettlaata, þviad margt hefe eg lided i Dag i Draumum fyrer hañ. Eñ þeir Ædſtu Preſtar og Olldungar riedu Foolkenu og eggiudu ad þad ſkyllde bidia ad hañ giæfe þeim miklu helldur Barrabam lauſañ, Eñ JEſum ſkylldu þeir deyda. Pa ſvarade Lands-Doomareñ Pilatus, og ſagde til þeirra: Hvørn af þeſſum Tveimur vilied þier ad eg laate ydur lauſañ? Pa kallade upp allur Hoopureñ, og ſagde: Tak burt þeñañ, Og gief oſſ Barrabam lauſañ. Pa ſvarade aptur Pilatus, kallade og ſagde til

þeirra, og villde JEsum lausañ laata. Hvad vilied þier þa ad eg skule giøra vid JEsum, af hvorium sagt er, ad hañ sie Christur Kongur Gydinga? Eñ þeir kølludu þa aller upp, og søgdu: Krossfestest hañ, Krossfestu hañ. Pa sagde Lands-Doomareñ eñ i Pridia Siñ til þeirra: Hvad Illt hefur þa þesse giørt? Aungva Dauda-Søk fiñ eg med hønum, fyrer þvi vil eg hegna hønum, og laata hañ lausañ. Eñ þeir kølludu þvi meir, seiglande: Krossfestest hañ, Krossfestu hañ. Og aller kølludu aptur, seiglande: Eige þeñañ, helldur Barrabam. Eñ Barrabas var eirn Ræninge, hvør ed var fyrer Upphlaup og Mañslag, er skied var i Borgeñe, Iñsettur i Fangelse. Og þeir stoodu þvi fastara þar a med miklum Hlioodum, Oskande þad ad hañ yrde Kross festur, Og þeirra Hliood og Høfud-Prestaña tooku yfer.

Pa took Pilatus JEsum og Hwdstrykte hañ, Eñ Striids-Meñ Lands-Doomarans tooku hañ, og leiddu hañ med sier iñ i Piing-Hwsed, kølludu samañ og søfnudu ad hønum øllu Lidenu, og afklæddu hañ, og færdu hañ i eina Purpura Kaapu, og

fliettudu eina Coronu af Pyrnum, og settu hana a hañs Høfud, og Reyr i hañs hægre Hond, og beigdu Knie fyrer hønum, spiodu hañ og tooku ad heilsa hønum, og søgdu: Heill siertu Kongur Gydinga, og gaafu hønum Pwstra og hræktu a hañ, Tooku Reyreñ og bordu uñ hañs Høfud, fiellu a Knie og tilbaadu hañ. Pa gieck Pilatus wt aptur, og sagde til þeirra: Siaaed, eg leide hañ nu wt hijngad til ydar, So ad þier vited pad eg fiñ aungva Sok med hønum. So gieck JEsus wt, berande Pyrne-Koronu og Purpura-Klæded, og hañ sagde til þeirra: Siaaed Mañeñ Pa ed Kleñemaña Høfdingiarner og Pienarner saau hañ, Kølludu þeir og søgdu: Krossfestu, Krossfestu. Pilatus sagde til þeirra: Taked þier hañ og Krossfested, þviad eg fiñ aungva Sok med hønum. Pa svørudu hønum Gydingar: Vier høfum Løg, og epter vorum Løgum aa hañ ad deya, Pviad hañ giørde sig siaalfañ ad Guds Syne.

Pa Pilatus heyrde pad Ord, Ottadest hañ eñ meir, og gieck aptur i Pijng-Hwsed, og sagde til JEsum: Hvadañ ertu? Eñ

JEsus

JEſus gaf honum eckert Svar. Pa ſag-
de Pilatus til hañs: Talar þu eige vid mig?
Veitſtu ecke ad eg hefe Raad til ad Kroſſ-
feſta þig, og eg hefe Raad til ad giefa þig
lauſañ? JEſus ſvarade: Eige hefdeꝛ þu
nockud Valld yfer mier, nema þier være
giefed þad hier ad ofañ, Fyrer þvi hefur ſa
meire Synd, Er mig ofurſellde þier. Og
epter þad leitade Pilatus vid, hvoꝛneñ hañ
giæte læted hañ lauſañ. Eñ Gydingar
hroopudu, og ſøgdu: Ef þu lætur þeñañ
lauſañ, þa ertu ecke Keyſarans Vinur.
Þviad, hvor ſem ſig giører ad Konunge,
hañ er a moote Keyſaranum. Pa Pila-
tus heyrde þad Ord, leidde hañ JEſum wt,
og ſette ſig a Doom-Stooleñ, i þeim Stad
ſem kallaſt hiñ Steinlagde, Eñ a Ebreſku
Gabbatha, Eñ þad var Affaꝛngadagur
Paaſka, nærre Siøttu Stundu. Pa ſeig-
er hañ og til Gydinga, Siaed, þad er yd-
ar Kongur, Eñ þeir kolludu, Burt, Burt
med hañ, Kroſſfeſtu hañ. Pilatus ſagde
til þeirra: Skal eg Kroſſfeſta ydar Kon-
ung? Kienemaña Høfdingiarner ſvor-
udu: Aungvañ Konung høfum vier nema
Keyſarañ.

Pa

Pa er Pilatus sa þad hañ kom aungvu til Vegar, helldur þad, ad þar yrde eñ meira Upphlaup af, took hañ Vatn, og þvode Hendurnar fyrer Fooldenu, og sagde: Saklaus em eg af Bloode þess hiñs Riettlaata, Siaaed þier til. Pa svarade allur Lijdur og sagde: Hañs Blood kome yfer oss og yfer Børn vor. Eñ Pilatus þeinkte Foolkenu Fullnægiu ad giøra, og dæmde ad skie skyllde þeirra Beidne, Gaf þeim Barrabam lausañ, þañ er iñ var settur fyrer Upphlaup og Mañdraap i Myrkva-Stofu, uñ hvørn þeir baadu. Eñ JEsum Hwdstryktañ framselldde hañ þeim epter þeirra Vilia, ad hañ Krossfestur yrde.

# Eintaled.

Gydingar afsøgdu JEsum, eñ baadu uñ Barrabam.

Hugleid hier fyrst mijn Saal, hvørneñ þeir Gydingar afsøgdu þañ Heilaga og Riettferduga, og baadu uñ Barrabam, ad hañ mætte laus verda, eñ Høfdingia Lijfsiins Lijflietu þeir: Pilatus visse ad JEsus var saklaus, og þar fyrer leitade hañ vid ad laata hañ lausañ. Og med

med þvi hañs Vane var, ad giefa þeim eirn Fanga lausañ, þa lætur hañ þa ecke uñ fleire eiga ad velia, eñ uñ JEsum og þañ Mañdræpara og Jllrædis-Mañ Barrabam; Meinande, ad þeir munde helldur vilia ad sa Meinlause JEsus af Nazareth være giefeñ laus, eñ hiñ vonde Mordinge, epter hvørs Dauda alla adra laungade. Eñ þeirra Hiørtu voru so beisk og grøm, ad þeir hefdu fyrre øllum Stráxkum og Mordingium hlijft, helldur eñ þeir hefde lautid Jesum þañ Riettlaata lausañ. Þvi hroopudu þeir so; Burt, burt med þeñañ, og gief oss Barrabam lausañ.

Eñ mijn Saal, þetta er ecke skied forgiefens, helldur þier til Huggunar. Þvi Mordingiñ Barrabas merker Adam, og alla hañs Nidia; J þañ Maata; Ad so sem Barrabas vegna sijns Mords og illra Verka, hafde Daudañ forþient; So hafde Adam fyrer sig og sijna Nidia, eilijfañ Dauda og Fordæming forþienad. Eñ Mordingiñ og Adam med sijnum Nidium, þeir urdu frij og frialser, eñ sa Meinlause Christur hlaut ad deya; Þviad so sem aller i Adam dou, so verda aller i Christo lifande.

Þar

Þar fyrer miñ HErra JEsu, þo eg sie eirn af þeim stær-
stu Syndurum, þa vil eg samt ecke örvænta mier Myskun-
ar, þvi eg veit þad, hvar mijn Synd er megtug ordiñ, þar
er þijn Naad laangtum megtugre; Og hvør sa sem ørvinge-
last i sijnum Syndum, sa neitar þvi, ad þu siert Naadugur.
Nu kañ ecke meire Gudløstun ad vera, helldur eñ sw, nær
Madur efast, og örvænter sier Guds Naadar, sa same seig-
er Nei vid Guds Myskun, Sañleika og Almætte, hvar
upp^a eg set alla mijna Von. A hañs Naad vona eg, þvi eg
veit ad i hønum hefe eg Guds Barna Naad ødlast. A hañs
Sañleika vona eg, þvi eg veit ad hañs Fyrerheit mune all-
dreí liwga ad mier. A hañs Almætte vona eg, þvi eg veit
ad miñ þesse Lausnare er Almaattugur ad hiaalpa mier af
Syndeñe og allskonar Neid. Nu þo mitt eiged Hiarta vilie
mogla a moote mier og seigia, hvør ertu þess þijn auma
Mañeskia, ad þu meiger þier slijkrar Hiaalpar vona? Hw-
ad kantu til heñar ad viña? Þa andsvara eg hreystelega
og seige: Eg veit a hvørn eg trwe, hañ same hefur sig i
Daudañ fyrer mig giefid, og mier med siñe Upprisu eilijft
Riettlæte og Lijf afrekad. Þessu hefur þu mier DRottiñ
miñ JEsu heitid, þar fyrer muntu þad eirneñ hallda, þvi
þu ert bæde sañordur og Almaattugur, Amen.

## Sa saklause Christur verdur Hwdstrykt-ur, sem Spillvirke.

ÞEssu næst liet Pilatus Hwdstrykia JE-
sum, og hugdest þar med ad stilla Gyd-
ingaña Grimd, hañ meinte ad þeir mundu
þa aumka sig yfer hønum.

Strax sem hañ veik i þeñañ Veigeñ vid
Strijds-Meñena, Jafnskiott gripu þeir
JEsum, flettu hañ sijnum Klædum, bun-
du hañ og Hwdflettu hañ. Eñ þad Sak-
lausa

lausa Lamb, var sijns Himneska Fødurs Vilia hlijded, villde øngvu þessu i moote briotast, liet þa fara med sig sin̄ þeir villdu.

O! mijn Saal, hvad hrædelega hafa þeir wtleiked þin̄ Lausnara, Eingen̄ Limur var heill a han̄s Lijkama, so hafa þeir med Vøndum og Svipum han̄s Saklausa Lijkama sært og lemstrad, ad eingen̄ Dijle var heill a han̄s Hwd. Avi, Sa sem allre Verølldeñe Myskun veiter, han̄ fieck ecke hin̄ min̄sta Vægdar Dropa, edur Lynkind hia þessum Kvolurum, Avi mijn Saal, veina og græt yfer þijnum Syndum, med hvørium þu hafder forþient þa eilijfu Hwdstroku i Helvijte og Fordæminguna, Og græt yfer þijnum Misgiørdum, sem til eilijfra Kvala hafa un̄ed. En̄ þu min̄ Lausnare lietst þig i min̄ stad Hwdstrykia, og frelsader mig so fra Andskotans Vende.

O Drotten̄ JEsu, sem so varst fyrer mijnar Synder særdur og bloodgaddur, Lækna þu Saar min̄ar Syndugu Samvitsku, med þijnum Undum, og græd þu mitt alsaara Hiarta, med þijnum Bloodlækium og Benium, Am̄.

## Siaa þu hvad saarlega
### Lausnaren̄ var til reika.

Nu sem JEsus var so Aumlega wtleiken̄, Hwdstryktur, Baren̄, Lamen̄, Særdur,

ur, og allur Bloodrisa, þa took Pilatus hañ, og leidde hañ burt med sier, wr Þijng-Hwsenu, ætlande, ad þa þeir Gydingar sæe hvørsu illa hañ være wtleikeñ, þa mundu þeir aumka sig yfer hønum, og læta hañ verda lausañ. Og þvi sagde hañ so, Siaaed Mañeñ: Eg hefe giefed hønum Rædning, heimted ecke meira, læted þetta nægia. Eñ þeir Gydingar villdu ecke lijta til JEsum, sneru sier undañ, kølludu og søgdu, Burt, Burt med hañ.

Eñ þu mijn Saal, gior ecke so, helldur haf þijn Augu a Lausnaranum med Jafnade, og skeika ecke. Siaa og hura uñ hvad Blodrisa hañ var, Siaa, hvørneñ Bloded lagade wt og rañ ofañ epter hañs Lijkama. Nu kañt þu ecke ad seigia, miñ Vinur er hiartur, og rioodur, wtvaleñ af morgum Þusundum, Helldur so, Miñ Vinur er Blaar og Bloodugur.

O! JEsu Christe, þu Allra Frijdaste medal Mañaña Sona, Hvar var nu þijn Fegurd og Prijde? Hvad Saararætelega varstu wtleikeñ? Hvad Osijnelegur varstu orden? hvad sundur krameñ og mareñ var þiñ Heilage Lijkame? O! DRotteñ JEsu Christe, Hvad skal eg giøra? Hvørneñ skal eg mijna Hiartans Hryggd stilla? Eg vil taka allar mijnar Synder, og allañ Ohreinleika og kasta þeim i þijnar Heiløgu Under, og i þijn Saar,

seim.

sem þier miña vegna giørd hafa vered. Þeim vil eg søckva nidur i þijnar Under, so ad þeirra verde alldrei miñst framar meir. DRotteñ miñ þvo þu mig og hreinañ giør, af øllum mijnum Syndum og Misgiørdum, med þijnu Heilaga Bloode, Amen.

## Gydingar afseigia siñ eigeñ Kong.

SJaa nu, Saal mijn, hvad Omyskunsamlegt ad er Stein-Hiarta þessara Gydinga, og hversu þeirra Gyrnd verdur alldrei fylld. Strax sem þeir siaa nu Christum so wtleikeñ af Pilato, þa hroopa þeir upp aller samañ, og seigia: Burt, Burt med þeñañ, Krossfestu hañ. Kong Dijrdar eñar afseigia þeir, aa hvørn aller þeirra Fedur vonudu, og seigia: Vier høfum ecke Kong añañ eñ Keysarañ.

O! þu galda og daarlega Þiood, þackar þu so Gude þijnum? O! DRotteñ JEsu, Þu komst til þijns Heimilis, eñ þijner þecktu þig eige; Þu varst ecke næsta aalitlegur, nie prijddur; Þeir saau þig, eñ eige var þvilijkt, ad þeim kyñe a þig ad lijtast. Eñ mier lijst þu hiñ fegurste medal allra Mañaña Sona.

DRottiñ JEsu, mijn Saal veit, ad þu varst þvi sendur af Gude i þeñañ Heim, ad þu skyllder þijnust og deya fyrer vorar Synder, og allskonar Smaan og Fyrerlitning uppa þig taka, so þu Synder vorar kvittader, Daudañ og

Dioſuleñ yferyñer, Riettlæted aptur giæfer, og þad eilijfa Lijf. O Rottiñ miñ JEſu, lææt mig alldrei vid þig ſkiliaſt eilijflega, Amen.

## Strijdsmeñerner endurnyudu Hæadung-arnar vid Christum.

HVad hafaſt nu Strijdsmeñerner ad a medañ? Þeir kalla ſamañ Flockiñ allañ, og henda Gaman ad Christo; Fyrſt hñ ſagdeſt Kongur vera, þa kaſta þeir yfer hñ Konglegum Skrwda, þo O-goodum ſem var afgømul Purpura Kæpa, og flietta Koronu af Þyrnum, og ſetia hana a hañs Høfud, og þreingia heñe ſo faſt, ad Blooded lagade ofañepter hønum, og feingu hønum Konglega Spijru i Hønd, ſem var eirn Reyrleggur, kipptu hønum jafnframe af Hende hønum, og lømdu uñ hañs Høfud þar med, þar med ſyndu þeir hønum Konglega Virding, bugtudu ſig fyrer hønum, heilſudu hønum, og tilbæadu hañ, lømdu hañs Aſiæanu, og hræktu a hañ.

O! O Rottiñ JEſu, þeir ſlycktuſt ſaman a moote þier, og glodduſt af þiñe beiſkre Anaud. Þu varſt ſa fyrerlitnaſte, fullur Eymdar og Veykleika. Þeir þig ſææu, hræddduſt þig, opnudu ſiñ Muñ i moote þier, og hriſtu ſijn Høfud ad þier.

O Rottiñ

DRottiñ miñ Lausnare; Þvi ertu ordeñ Spott Folksins? Og Foracktan Lijdsins? Þess vegna DRottiñ, ad þu frelsader mig, fra þvi eilijfa Spotte, Hæde og Skom Helvijtis. Og þo sa Ogudlege Flockur spottade þig, þa ertu samt miñ Kongur og miñ DRottiñ, og ert þar til fæddur i þeñañ Heim, ad þu vilier miñ Kongur og Lausnare vera.

DRottiñ miñ JEsu, sem miña vegna þolder þa þraungu Þyrne-Koronu; Gief mier ad eg med Trwñe a þig, meige ødlast þa Lijfsins Koronu, sem fyrerhugud er øllum þeim sem a þia trwa, og þig elska af Hiarta, Amen.

## Uñ Þoleñmæde DRottins, i øllum þessum Hœadungum og Hørmungum.

Hllgleid þu hier mijn Saal, þa stoorir Þoleñmæde þijns DRottins; So þu beñar miñest, og siert þoleñmood, ef þier kiemur nockud til ad lijda fyrer hañs Nafns Saker; Laat þier til Hugar koma þad hañ sagde; Læred af mier; Eg er hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur.

Þar fyrer skalltu vera til reidu, allra Handa Mootgaang, eirneñ Daudañ sialfañ, hañs vegna ad lijda. Ofsæke nockur þig, eda hreke, þa segdu af Hiarta; Jordena aa DRottiñ, og allt hvad a heñe er, hañ aa

Heims-Krijngluna, og hvad þar iñe bigger. Og vilie nockur saga þig i sundur, þa hefur þu Spaamañsins Esajæ Dæme. Vilie nockur dreckia þier, þa huxa þu um̃ Jonam Spaamañ. Sie þier i Elld kastad þa þeink um̃ þa þriaa Meñ i Ellds-Ofnenum i Babilon. Verde þier fyrer olm Dijr kastad, þa huxa um̃ Daniel Spaamañ, sem kastadur var i Leona Grøfena. Vilie nockur grijta þig i Hel, huxa til þess fyrsta Pijslarvotts sem var S. Stephanus. Sie fra þier tekid allt þad þu aatt, þa huxa med þier sem S. Job seiger: Nakeñ kom eg af Moodurlijfe, nakiñ mun eg i'burt fara. Lijder þu nockurn Oriett, gief þad i Guds Hendur, hañ kañ þess hefna. Faaer þu Skada eda Tioon, gief þad i Guds Hendur, hañ kañ þad bæta. Berer þu Hrygd og Sorg, gief þad i Guds Hendur, hañ mun þiñ Huggare og Grædare vera. Eiger þu Daudañ ad lijda, gief þad i Guds Hendur, hañ mun þitt eilijfa Lijf vera.

Veittu mier DRottiñ miñ JEsu, slijka Christelega Polenmæde, til allra þeirra Hluta sem mig meige aasttrijda, ad eg lijde og umbere alla Hlute i þijnu Nafne; Laat mig ei girnast Mønunum ad þocknast, þvi ef þad verdur, þa er eg ecke framar þiñ Þioon.

## DRottiñ awijtar Pilatum, vegna hañs Metnadar.

ÞEgar Pilatus hroosade þvi, ad hañ hefde Magt ad giefa JEsum lausañ og ad Krossfesta hañ; Þa ansade honum JEsus, seigiande: Þu hefder øngva Magt yfer mier, være þier hun ecke hier ofañ ad giefeñ.

Jaa ad søñu mijn Saal; Eckert gietur Madureñ teked af sier til, nema þad sie giefid hønum af Himnum. Ach, hvad vill þa þesse auma Molld og Aska med siñ Hroka? Ecke er hun añad, eñ andstyggelegur slæmur Saur, lijka a medan vid Lijfed lafer? Þvi hefur DRottiñ awallt, Drambseme Maña lækad, og heñe um̃ koll kastad. Gud hefur hrunded Volldugum af Stoole, eñ upphafed Lijtelaata, þvi hañ stendur a moote Dramblaatum, eñ Lijtelaatum giefur hañ Naad.

Hiaalpa mier DRottiñ JEsu, ad gaanga og lifa sem þu mier skipad hefur, og i þvi Kalle og þeirre Stiett ad þioona, sem þu hefur mig til sett. Eg veit ad søñu Drottiñ, ad Maduriñ hefur ecke Naad a sijnum Giørdum eda Fram̃ferde; Send mier þvi þijna Speke af Himnum, og af þijnu Velldis Sæte, send mier hana, ad hun hia mier sie, og med mier Arvide, so eg vite og giøre hvad þier lijkar; Laattu mig aavallt, DRottiñ JEsu, Goodum Raadum hlijda og Amiñingar þiggia, so ad eg hyggnest.

Dauda Urskurdurin yfer Christo.

A Thuga þad eirnen, miin Saal, hvornen Pilatus fellde Doom yfer þin Lausnara, so ad han Lijflietest, epter þvi sem Gydingarner hootudu honum, seigiande: Laater þu þenan lausan, þa ertu ecke Keisarans Vinur. Þa vard Pilatus hrædur en meir umm sig, fyrer Keysarans Reide, ecke fyrer Guds Reide, þar fyrer seiger han Doomin upp, og dæmer ad Gydinganna Villd skie skule. Og þo han þvæe Hendurnar, og segdest saklaus i hans Bloode, þa gaf han samt han saklausa JEsum i þeirra Valld, og dæmde ad þeirra Vilie skyllde framgang hafa, ad han være Krossfestur.

Hvad ranglega er DRottin sa Riettlaate Doomare dæmdur? Sem koma mun ad dæma Lifendur og Dauda.

O! þu Ranglaate Doomare Pilate, þvi dæmer þu so rangan Doom yfer minum DRottne? Hvør Illgiord var vitnisfest uppa min Lausnara? Hvada Vitne komu fram a moote honum? Voru þeir ecke hans Fiandmen? Jaa, þeir somu voru þar Sakaraberar og Vitnin. Er ecke ylagsidur ad giefa þeim Sokudu Frest, so þeir votveige

ge sier sijna Afbøtun? Eñ miñ Lausnare var uñ Midnætte faangeñ og til næsta Morguns hæddur, og spottadur, og med Hraakun spijttur, og ad Morgne sneña hwdstrijktur, og jafnskiott til Dauda dæmdur, og til Aftokustadarins leiddur. Þu visser aadur, ad Gydingar høfdu af Hatre faangad hañ og ofursellt; Þvi dæmder þu hañ til Dauda moote þiñe eigeñ Samvitsku? Þu þvoder þijnar Hendur, eñ hvør vill þvo þad Saklausa Blood af þiñe Samvitsku?

Eñ gledst þu hier vid mijn Saal, þvi med þessum hætte ertu fra þeim straanga Doome friaals ordiñ og kvitt. Þvi hvør a Soniñ trwer, hañ mun ecke dæmdur verda. Nu maattu aavallt med goodu Giede koma fyrer Guds Naadar Stool, so þu hañs Myskun ødlest, og Lijkn fiñer nær þier aaliggur.

O! þu allra sætaste Herra JEsu, sem af þeim heidna Lands Doomara varst fordæmdur; Laat mig fyrer þessa þijna Elskn og adra, æfenlega hier Packer giøra; Og þa þu kiemur ad dæma Lifendur og Dauda, þa gack ecke i Doom vid þiñ Þræl, og minstu ecke a mijnar Synder, helldur uk og gief mier af þiñe Naad, ad eg med øllum Utvølldum megi setiast ad þvi Rijke, sem þu hefur oss til bwed fraa Upphafe Veralldareñar, Amen.

# Sextande Capitule.

Um̃ Utfør Lausnarans til Aftoku-Stadarens, og hvad þar fleira vidbar.

Þa tooku þeir JEsum, epter þad þeir høfdu spottad han̄, færdu han̄ wr Purpura Kapun̄e, og færdu han̄ i sijn eigen̄ Klæde, og leiddu han̄ wt, ad þeir Krossfestu han̄, og han̄ bar sin̄ Kross og gieck wt. En̄ i þvi þeir geingu og leiddu han̄ wt, fundu þeir eirn Man̄, sem Fram̄hiaa gieck af Cyrene, Simonem ad Nafne, hvør ed komen̄ var af Akre, Fodur þeirra Alexandri og Ruffi, Han̄ høndludu þeir og þreyngdu hønum ad han̄ bære han̄s Kross, og løgdu Krossen̄ uppaa han̄, ad han̄ bære han̄ epter JEsu.

En̄ hønum fylgde epter mikell Fiølde Foolks og Kven̄a, hvøriar ed grietu og hørmudu han̄. En̄ JEsus snerest til þeirra, og sagde: Þier Dætur af Jerusalem, Graated eige yfer mier, helldur graated yfer ydur sialfum og yfer Børnum ydar. Þvi siaaed, þeir Dagar munu koma, a hvørium þeir segia: Sælar eru Obyriur, og þeir Kvider er ei hafa fædt, og þau Briost hvør eige voru mylkt. Þa munu þeir taka ad segia: Fiøll-

unum

unum hrynted yfer oss, Haalsinum hylied oss. Ef þeir giora þetta vid Bloomgada Tried, hvad mun þa skie vid hid þurra.

## Eintaled.

### Utleidsla Christi til Kvalastadarens, er vor Iñleidsla i Himnarijke.

SJaa þar mijn Saal, hvorneñ þiñ Lausnare var tekeñ af Lande þeirra Lifendu. Þviad, þegar Pilatus hafde Doomeñ uppsagt, þa tooku Strijds-Meñerner JEsum, og leiddu hañ wt til Krossfestingareñar, so þad Løgmaalsins Fyrermyndan framkiæme i þessu. Hvorrar Foornar Blood sem Kieñemaña Høfdingeñ færde iñ i þad allra Helgasta, fyrer Syndernar, heñar Kroppur var brendur fyrer utañ Herbwdernar. So og eirneñ JEsus, uppaa þad ad hañ med sijnu Bloode helgade sitt Foolk, þa liet hañ sig fyrer utañ Borgar-Hlideñ pijna.

DRotteñ JEsu, miñ Lausnare, Eg giøre þier Packer, af mijnum Hiartans Gruñe, fyrer þad, ad þu villder slijka Smaan fyrer mig lijda, og lietst þig wt af þiñe Eign til Kvala-Stadarens wt færa, og sem añan Spillvirkia wtleida; Pijn þesse Utgaanga, hun er mijn Iñgaanga i þad eilijfa Lijf. Eg bid þig DRotteñ miñ JEsu, sem med storre Hædung og Smaan, varst wt

wt

vr þessare Jardnesku Jerusalem leiddur; Leid þu mig inn i eilijfa Glede, Aru og Vegsemd þeirrar Himnesku Jerusalem.

Hugleid hier, mijn Saal, DRottenn hefur þetta til Epterdæmis laated þier, ad þu skuler lijka vt gaunga fra ollum heim sem Forackta hans Nafn, og hans Heilaga Blood med Footum troda. Pvi skalltu hafa þig til Vegar, skilia vid þessa Heims Synder, og Drottne fylgia, Hvar Menn vilia ecke þinn Lausnara hafa, þar skalltu ei Stadar nema, Helldur stappa Dupt þeirra af þijnum Footum. Eg seige þu skuler hrista Syndarennar Dupt af þijnu Hiarta, med riettre Jdran, so vid komunst vt til Drottens, af Herbudum þessa Heims, og berum so Fyrerlitningena med DRottne. Vier vitum Sannlega ad hier er eingenn stadfost Vera, og vid leitum þess Okomna, sem þo aa ad koma, þvi oll Verolldenn er Forspillt, og forgeingur med allre sinne Vellyst; Gack þar fyrer vt af henne, Saal mijn, so þier hlotnest eckert af hennar Syndum, edur mæter hennar Plaagum. Pvi hennar Synder naa til Himnanna, og Gud gaaer ad hennar Ogudlegleika. Megt-

lugur

ngur er Gud Drotteñ siñ hana mun dœma.

Gief Naad DRotteñ JEsu, ad eg lijkest ecke þessare Verølld, og mig ei Saurge med heñar Syndum. Laat mig Æfeñlega þier fylgia, vid þig loda, þier þiona, Laat mig einskis Oska, einskis leita, eckert gyrnast nema þig miñ Lausnare, uppaa þad, ad eg afræke þid Stundlega, eñ elske og œstunde þad Himneska.

## DRotteñ vard sialfur ad bera siñ þwnga Kross a Herdum sier, wt til Kvala-Stadarens.

O! Mijn Saal, Hvørsu likla Vægd hafa þeir viliad sijna þijnum Lausnara. Þvi þa hañ var med øllu upp giefeñ og Maattlaus, þar hañ var þa Lidlanga Nott lameñ og strijktur, hriaadur og hraktur, þo samt hnepptu þeir hañ þwnga Kross hønum a Herdar, a hvørium hañ aatte ad deya. Tveir Spillvirkiar voru med hønum wtleidder ad Krossfestast med hønum. Eñ ei lesum vier skrifad, ad þeir hafe sialfer sijna Krossa bored; Miñ Lausnare, hañ alleina hlaut siñ Kross sialfur ad bera.

O! þu allra Poleñmoodaste HErra JEsu; Hvad Oumræðeleg var þijn Hlijdne. Þu varst sa riette Jsaac, sem sialfur barst Elldevideñ, þa þier aatte ad offra. Eñ þu varst so þreittur og Maattlaus orden, ad þier veitte ecke þar af ad gaanga sialfum, þo gieckstu samt under þa þwngu Krossens Byrde. Eñ so hefur þu Ok vorrar Byrde (þad er Løgmaaled) og vort Synda Hrijs (sem var Daudeñ) a þig teked, og Straff þess, sem ad

oss

oss so freklega þiaade, þad er Løgmaalsius Bølvan yfer Syndeñe, þvi Krosseñ þijder Syndena, og allt þad Syndaña vegna aa oss leggst, þad allt hefur þu Poleñmoodlega fyrer oss bored, þu Saklausa Guds Lamb, sem barst allar Heimsins Synder. Vort Straff laa a þier, so vier vaarum med Fride, og vorar Saaler i eilijfre Huggun. Myskuna þu mier, DRotteñ JEsu, og gief mier þiñ Frid, Amen.

## Uñ Syrlendska Simon sem Krosseñ Christi vard ad bera.

ÞA Kvalararner saau, ad Lausnareñ munde verda til Leingdar ofveikur under Kross Byrdeñe, Ottudust þeir hañ munde slockna wt af, fyrr eñ þeir kiæmust med hañ til Aftøku Stadarens, Þvi gripu þeir eirn Vegfarande Mañ sem kom Vijsande ad, Simon ad Nafne, og hræddu og neyddu hañ til ad bera Krosseñ epter JEsu.

Mijn Saal, Hvad Trwfastur er vor Gud, sem eirneñ sijnest i þessu, ad sijnum Syne, sem var ordeñ Bølvan fyrer oss lagde hañ ei meira uppaa, eñ hañ gat under staded. Og sem hañ var nu med øllu þreyttur under þeim þwnga Krosse, sende Gud hønum þa Hiaalp, sem med honum bære. Þessvegna mijn Saal, nær þu i Heimenum lijdur Angist og Neyd, þa kalla þu til Guds, hañ mun þier lijkna, og

þitt Angur bærelegt giøra. Hañ mun senda þier einhvorn goodañ Simon sem þig styrke med Raad og Daad, Ja, hañ sialfur vill sa Simon vera, og þier hiælpa. Þvi hañ er sa sem Mæddum Krapt eykur, og styrker sem duger þa Vanmættugu, þo Unger og Olwner sieu þa þreytast þeir; Eñ þeir sem DRottne treysta, faa nijañ Styrk, so þeir meige vega sig upp med Vængium sem Orneñ, Ad þeir hlaupe og giefest ecke upp, Ad þeir gæange og þreytest ecke, Þviad Kraptur DRottens er Mættugur i þeim Veiku.

O! DRotteñ JEsu, Læattu allar mijnar Freistingar og miñ Mootgæang so eidast, ad eg af þijnum Nædar Styrk fæe vel stadest, Amen.

## Aller Christner verda ad bera
### Krosseñ med Christo.

TAK þig upp Sæl mijn, og lær nu ad bera Krosseñ epter HErranum Christo, sem þesse Simon hiñ Syrlendske giørde. O! hvørsu gott og merkelegt er þad, hañs Kross ad bera? O! hvad stoora Virding og Mæte fieck sa Simon þañ Dag, þa hañ fieck ad hiælpa til, ad bera wt Krosseñ Christi?

DRotteñ JEsu, Sæll er sa, sem þier

epter fylger, hañ geingur ecke i Myrkrunnum, helldur sier hañ þad Lijssins Lioos fyrer sier. Eñ sa þier vill fylgia, bliјtur fyrst ad afneita sialfum sier, og Daglega siñ Kross uppa sig ad taka, og fylgia þier epter.

Siaa hier mijn Saal, Hafe DRottteñ ecke skamast sijn fyrer þig a Krossenum ad hanga, þa skalltu ecke helldur skamast þijn med þeirre Heilogu Jomfrw Maria under Krossenum ad standa. Þvi hvør siñ Kross ecke a sig tekur, og fylger hønum epter, sa er hañs ecke Verdugur. Jaa, hvør siñ Kross ecke ber, og fylger hønum, sa kañ ei hañs Læresveirn ad vera. Þvi tak hañs Ok uppa þijnar Herdar, mijn Saal, hvørt ad er sætt, og hañs Byrde, hvør ad er Saal uñe Liettbær.

Mogla ecke i moote Drottne, sem margur giører, Hyra helldur ad sier Kiæraũ agar DRotteñ, og tekur til a sijnu Hwse. DRotteñ miñ JEsu, fyrr eñ þu Lijtelæckader mig, villtest eg, eñ nu fylge eg þijnu Orde, Þvi var mier þiñ Age fyrer goodu, so ad eg feinge ad læra þijna Dooma. Og þvi hroosar sier mijn Saal af Hørmunguñe, þvi hun hefur Poleñmæde, eñ Poleñmæde

mæde Reinſlu, eñ Reinſlañ Von, eñ Voneñ lætur oſſ ecke til Skañar verda.

Hiaalpa mier DRotteñ miñ Lauſnare, ſo ad eg ei lijde eda ſtraffeſt ſem añar Mordinge, Þioofur eda Illvirke, eda ſa ſem til añars Embættes grijpur, Helldur ef ſo ſkier, ad eige hier nockud ad lijda epter þijnum Bleſſada Vilia, og litla Stund Sorg og Mædu ad bera, eda adrar Freiſtingar, þa gief DRotteñ, ad eg þier mijna Saal bifale, mijnum Trwfaſta Skapara, til allra goodra Verka. Og þo þijn Hiaalp kuñe undañ ad dragaſt, þa giør mig Stoodugañ i Voneñe, Þvi þijn Hiaalp kiemur uñ ſijder og bregdſt ecke, Amen.

## Su Seinaſta Predikun Chriſti, ſem hañ hafde a Leideñe wt ad Aſtokn-Stadnum.

SAl mijn, hlijd þeirre ſnørpu Predikun ſem DRottiñ JEſus hafde fyrer þeim Kviñum ſem hañ grietu, og ſiñe Borg og Fooſtur-Lande liet epter i ſijna Miñing. Hvad alvarlega hañ aaminte þa ad laata ſijna Þijnu ſier til Hiarta gaanga, og ad giøra Ydrañ og Yferboot, og Otæpt ſagde þeim fyrer, hvada Straffe hienge yfer þeirra Hofde.

Jaa, mijn Saal, þad var Jeruſalem, ſem DRottiñ hafde wtvaled, þad var Zion, ſem DRottiñ hafde ſier kiørid til Heimilis, ad hañ þar bygge, Himnana og alla Himnaña Himna, ſo og Jordena, og allt

þar iñe er, þad aatte DRottiñ þiñ Gud, og allt er þad hønum i Hende; Eñ samt þocknuduſt ſo DRottne Gydingaña Forfedur, fram̃ yfer adra, ad hañ elſkade þa, og þeirra Sæde, epter þa wtvalde hañ fram̃ yfer allar Pioodер, og ſende þeim ſiñ eingietna Son, ſem þa hoolpna giøra ſkyllde af øllum þeirra Syndum.

O! Herra Gud, hvad opt villde hañ hafa ſafnad þeim ſamañ, ſem Hænañ ſafnar ſijnum Ungum under ſijna Vænge? Eñ þeir hafa ecke viliad; Helldur tooku þeir ſiñ eigiñ HErra til faanga, dæmdu hañ til Dauda, ſelldu hañ heidnum Mønum i Hendur, ſo hañ ſpottadur, hæddur, ſmaadur, Hwdſtryktur og Lijflaatiñ yrde.

Þar fyrer Saal mijn, vard DRottiñ þiñ Gud reidur, ſende ſiñ Her wt, og liet fyrerfara þeim Mordingium, og þeirra Stad uppbreña. Hañ ſende nockurſkonar ſiarlæga Piood yfer þa, fra Enda Verallðareñar, lijka ſem Ørn flye, hvørrar Maal þeir ſkyldu ecke. Jaa ad ſoñu eina grim̃a Piood, hvør ei tor epter Mañvirdingum, og ei vægde þeim Gømlu nie Ungu. Þetta Foolk krepte ſo ad Gydingum i øllum þeirra

ra Borgarhlidum, þangad til þad gat nidurbrotid alla þeirra Mwrvegge; Hvar uppa þeir reiddu sig um̃ allt Landid. Drottin̄ han̄ sagde þeim slijkt fyrer, seigiande: Vei Oliettum og Briooſtmylkingum a þeim Døgum; Þvi þar kom ad þær urdu ad eta ſijns Lijfs Avoxt og ſitt eigid Foſtur, Holld og Kiøt ſin̄a Sona, og Dætra. Þeirra Oviner ſettu eina Vagn-Borg i Krijngum þa, og þeirra Sonu, og þreyngdu ad þeim a alla Vegu, og nidur brutu þa Borg, ſo þar var ecke Steirn yfer Steine ſtandande.

Þeirra Høfdingiar og Vollduger Yfer-Men̄, og hiner Magtarmeſtu hia þeim hærre Stiettum og lægre, høfdu ſig i Biargſkorur og Kletta, og ſøgdu til Fiallan̄a; Fallid yfer oſs, og byrged oſs fyrer Aſioonu þeſs ſem ſitur a Stoolnum, og fyrer Reide Lambſins, þvi komen̄ er ſa hrædelege Dagur han̄s Grimdar; Hvor kan̄ vid ad ſtandaſt? Þeir fiellu fyrer Sverdum, og voru fangner og færder mille Þiodan̄a. O! Þvi liggur nu Borgin̄ ſo i eyde, ſem var full af Folke; Hun er nu ſem ein Eckia, ſu ſem var Høfdingleg a medal Heidingian̄a, og

Drottning i Landenu verdur nu ad þioona.

Hura hier nu̅, mijn Saal, og gleym þvi ecke, hvørsu þad Guds Foolk er annlega sundurtvistrad, af þvi þad þeckte ecke Naad-areña Tijma, þa þeirra var vitiad, og forsmadu sin Lausnara, hañs Dauda og Pijnu. Hafe nu Gud siñe Eign og eigiñ Foolke ecke hlijft, þa mun hañ þier og ecke hlijfa; Hafe hañ þeim naatturlegu Kvist-um ecke vægt, þa mun hañ þier og ecke væg-ia, ef þu lætur þier þad verda, sem er, ad forackta hañs Dauda og Pijnu.

Þess vegna Saal mijn; Legg hañs Ord a Hiartad; Þar hañ seiger; Grated ei yf-er mier, helldur yfer ydur og ydar Sonum. Hell þijnum Taarum wt, mijn Saal, og gief ecke upp; Eñ græt ecke yfer Christo, þvi þad er hønum eingeñ Þioonusta, og ecke helldur Þacknæmt. Hañ þijndest og dey-de viliugur; Viliugur gaf hañ sitt Lijf fyr-er þig og adra; Eñ þu skallt græta yfer þi-er og þijnum Syndum, og trw þu a hañ, og giør riettelega Ydran.

O! DRottiñ JEsu, þu ert ad søñu sw fagurgræna lystelega, Lijfsins Eyk og Tr-ie, og Davids Kvistur, berande toolf alld-

gañ

añ Avext a hverium Mannude, hvers Laufblød eru Kroptug Lækning Heidingiaña; Halla þu þier Saal miin ad þessare Eyk; Þa muntu so vissulega af þessu Trie, þesseilijfa Lijfsins Avaxtar neita, so sem Adam Daudans Eple af þvi forbodna Trie eted hefur.

Hugleid hier, hvorneñ ad Guds grimdar Reide gieck hardlega yfer þetta Trie, so hun liet þad fyrer añara Skulld uppvisna og þorna. Ad vijsu, Saal miin, fyrst soddañ skiedur a þvi græna Avaxtarsama edla Trienu. Hvad mun þa skie vid þad þurra og visnada? Hvorneñ mun þeim Ogudlegu gaunga, sem ad eru Avaxtarlaus bolfud Trie og oniit? Ef sa Riettlaate hlijtur ad lijda; Hvorneñ mun þa sa Raunglaate fara? Hvør mun verda Afelok þeirra sem þvi Heilaga Orde og Evangelio ecke trwa. Lifa i Ydrunarleise, og epter Muñe og Maga, ana fram epter Holldsins og Heimsins Gyrndum? Giør þar fyrer Ydran, miin Saal, þvi Himnariike naalgast; Oxeñ er sett a Stofn Eykareñar; Hvort Trie sem ei ber goodañ Avext mun afhøggvast, og i eilijfañ Helviitskañ Elld kastast.

O Drottiñ miñ JEsu Christe; Planta þu mijna Saal, og laat hana verda sem grœnt Vidarsmiørs Trie i þijnu Hwse; Laat hana bloomgast sem fagurt Palmavidar Trie á Vatna Bockum, ad hun giefe siñ Avørt i riettañ Tijma, og ad heñar Bløð ecke visne, og allt hvad hun giører luckest sar sællega, Amen.

# Seitiande Capitule.

Uñ þañ eitrada Vijndryck, sem þeir skeinktu Drottne i hañs Krossfestingu; Og hvørneñ hañ var með Spillvirkium reiknaður.

ENN Tveir Spillvirkiar adrer leidduſt og wt, ad þeir være aftekner með hønum. Og þeir leiddu hañ wt i þañ Stad, sem kallaſt a Ebreſku Golgatha, hvad ed þijdeſt Hauſaſkielia Stadur, Og þeir gaafu hønum ad drecka i Vijne Myrru og Edik Galle blandad, og hañ took þad eige til sijn, þvi þa hañ ſinackade þad, villde hañ ecke drecka. Og sem þeir komu i þañ Stad, sem kalladeſt Hofudſkielia Stadur, þar Kroſſfeſtu þeir hañ, og með hønum tvo adra Ræningia a baadar Sijd ur, Eirn til Hægre Handar, og Añañ til hiñar Vinſtre, Eñ JEſum i Mided. Eñ þad var nær uñ Þridiu Stund er þeir Kroſſfeſtu hañ. Þa vard ſw Ritning upp fillt ſem ſeiger: Medur Illvirkium er hañ reiknadur.

reiknadur.

Pridia Stund Gydinga, er hia oss ad reikna so sem Nijunda Stund, edur Dagmœal.

## Eintaled.

**Um̃ þad Eitrada Vijn sem þeir budu HErranum Christo ad Drecka.**

ADthuga hier fyrst mijn Sæal, hvada Dryck þeir gæafu þijnum Lausnara ad svala sier a, og lijfga sitt Daudþreitta Hiarta. Pad var vel satt, sem vijse Madureñ kieñer, ad Meñ skule skeinkia gott og sterkt Vijn þeim sem Lijflœatast eiga, og Sorgfullum Hiortum, so ad þau gledieſt, og siña Harma ei miñest. Eñ mijn um Lausnara gæafu þeir Edik, edur Myrrublandad Vijn med Galle ad drecka.

DRotteñ miñ JEsu, Pu hlaust eirn hiñ allra Vesalaste og Overdugaste a Iord uñe ad vera, Og hvad riett var ad vægia Spillvirkium og Illrædis-Moñum, þad þotte ei riett vera ad vægia þier med. Pu hafder þier eitt Folk plantad, so ad þad skyllde verda þier eitt sætt Vijnvidar-Trie, og eitt æskelegt Sæde, Eñ þad er orded þierad beiskum og svrum Vijnvid, so ad eg hier af hefde Huggun og Hugsvala i øllum

mijnum Anaudum. Eñ þa þu þeirra Vijn smackader, villder þu ecke drecka; Þu villder þijna Vijnu eda þittLijf ecke þar med sialfur stitta, helldur Hlijdne þijnum Fodur þar med sijna, allt i Daudañ; Jaa i þañ Krossens Dauda.

Hier af skalltu læra mijn Saal, ad þetta Vijned sem Christur villde hier ecke drecka þad merker Vellystingar þessarar Veralldar, og Glede þessa auma Lijfs. Þessa Heims Glede er sem Myrru blandad Vijn, og med Galle meingad; Og þessa Heims Vellysting er ramare eñ Gall; Hvor þar af dreckur, sa hlijtur þeim eilijfa Dauda ad deya. Þvlad allt þad i Verølldeñe er, sem er Holldsins Vellysting; Augnaña Vellysting, og stolltur Lifnadur, þad er ei af þeim Himneska Fodur, helldur af Verølldeñe, og Verølldeñ med siñe Vellysting mun forgaanga. Jaa, Glede og Vellyst þessa Heims er saa forgillte Bikar þeirrar mykla Hoorkonu, hvorn hun sier i Hende hefur fullañ Andstygdar, og Fijlur sijns Hoordooms. Eñ dreck þu ecke þar af, mijn Saal; Helldur slaa fra þier heñar stundlegre Vellyst, og forsmaa heñar for-

forgeingelega Glede, so þu fyrerfarist ecke i þeñe sem þeir Ogudlegu.

Pad virstu mier ad gieja, miñ Lausnare, ad þetta swra Gallblandada Vijn sem er þessa Heims Vellyst, sie mier leid, fyrst eg sie þu villder ei drecka þar af. Lát mig ei sviken verda med þvi fagra skine þessa auma Lijfs, og ei drucken verda af þess Fals Sætleika; Lát mig ei lijkiast þeim sem Liooseд fyrer Myrkur og Myrkureñ fyrer Liooseд hallda, sem Swrt Sætt, og Sætt Swrt kalla, Amen.

## Hvorneñ vier eigum med vorum Hugskots Augum ad ælijta og skoda DRottiñ, sem hañ hieck a Krossenum.

Lypt nu upp þijnum Augum Sæl mijn, og skoda þeñañ Hofdingia Lijfsins, hangande a Krossins Gælga. Siaa, allur þwnge hañs Lijkama, hieck a einum þremur Noglum; Og hañs allra helgasta Blod, lagade nidur wr hañs Blessudum Benium. Avi, Avi; Hvad særlega var hañ pijndur, hvad oseigianlegar voru hañs Kvaler? Skoda og siaa Sæl mijn, þetta er DRottiñ JEsus Christus, DRottiñ vor Gud, vor Frelsare, Guds hiñ eingietne Sonur, sañur Gud og sañur Madur, sa eine sem under Sooluñe er Flecklaus fundiñ; Eñ so sem Utburde er vant ad kasta wt, strax sem hñ af Moodur Lijfe kiemur, so var þiñ HErra af þvi vesla auma Folke wtkast-

adur.

O! þu sæte JEsu, Hvad saarlega varstu wt þaneñ a Krossens Gaalga, so þu gast øngvañ þiñ Lim edur Lid hrært, nema þitt Høfud, Hvad Omæleleg var þijn Kvøl og Pijna, hid Jñra og Ytra, fra Hvirfle og allt til Ilia, a Hægre Hønd og Vinstre, Siaa DRottenn miñ, eg sef a eiñe Dwn-Sæng, eñ þu hieckst a þeim harda Krosse, þo eg fiñe ei nema lijteñ Høfud-Verk, þa legg eg fullmiwkañ Kodda mier under Hof ud, Eñ þu hafder þijnu Blessada Høfde hvørge ad ad halla, sem þo var nærsta veikt orded, blaatt og Bloodugt, og med þeirre hvøssu Þyrne-Koronu sundur-nijst.

Jaa, DRotteñ miñ JEsu, Þeir raaku þijnar Hendur og Fætur i giegnum, og øll þijn Bein maatte telia i þijnum Krossfesta Lijkama. Þu giørdest Madkur eñ ecke Mad ur, øll þijn Bein sundur liduduft.

Hvad hafder þu til Saka miñ Lausnare, ad þu værer so illa wtleikeñ? Hvad hafder þu med þijnum Heiløgum Lidum og Limum syndgad, ad þeir skylldu so saarlega sundur þeniast? Ad søñu hafder þu eckert broted, og ecke añad til þessuñed eñ þad,

ad

ad þu oss so miøg elskader. Jaa HErra, Eg er sa same, hvørs vegna þu wt af storre Astar Elsku til vor, hefur allt þetta lided, soddañ Kvøl ag Pijnu. Miña Synda vegna ertu særdur, og miña Misgiørda vegna ertu Lemstradur. Þu hefur nidur søkt og steipt þier i Kvalareñar Flood, so ad eg yrde frij og Frjaals þar i fra. Þitt Lijf gafstu i Daudañ til þess, ad giefa mier aptur Lijfed. Þu ber þijns Himneska Fødurs Reide, hvørta eg forþient hafde, og ert orden Bølvan fyrer mig, til þess ad frelsa mig fra Løgmaalsins Bølvan. Þu deyder forsmaanarlegum og bølvudum Dauda, so sem skrifad er, Bølvadur er sa sem a Trienu haanger, so eg yrde frelstur fra Bølvudum Dauda eilijfrar Fyrerdæmingar. Þu hefur i burt teked þa Handskrift, sem oss i moote var, og i Setningunum var grundud, hana hefur þu afmaad, i þvi ad þu af skiære Ast og Elsku til vor, lietst þig a Krossen festa med Høndum og Footum, og tookst hana burt og fester hana lijka a Krossen.

O! HErra JEsu, Hvad Ouumræðelega mikel er þijn Hlijdne og Þoleñmæde? Hvad Viliuglega hefur þu allt þetta lided? O! hvad

hvad Hiartanlega hefur þijn Hlijdne Fodurnum þocknast? Siaa mijn Saal, Þar var slaatrad þvi saña Guds Lambe, sem allar Heimsins Synder bar a sijnum Herdum, Þar hieck sa riette Eirormur, sem var Mañsins Son, sem so var upphafeñ vegna þiña Synda, so þu og aller þeir a hañ trwa, ecke Fyrerfarest, helldur hafe þad eilijfa Lijf. Jaa, þad vàr sa HErrañ þiñ Lausnare, sem olldungis Syndlaus var, eñ þo giorde Gud hañ ad Synd og Bølvan, vorra vegna, so vier i hønum yrdum so Riettlaater, sem Gude vel lijkade. Siaa, þesse er vor ædste Kieñe-Madur, sem ei med Hafra eda Kaalfa Bloode, helldur med sijnu eigeñ Bloode, hefur einusiñe iñgeinged i þad allra Heilagasta, og hefur wtvegad oss eilijfa Endurlausn. Hañ er ordiñ Sætleikans Offur i þijnu Auglite, þu eilijfe Fader Dijrdareñar, so þu sinner þiñe Reide fra oss, og ad vier fyrer hañ erfdum Himnarijke.

Og nu Himneske Fader; Eg hefe þig styggt, eñ siaalfur kañ eg ecke ad sætta mig aptur vid þig; Eñ þiñ kiære Son sem Mañlega Naatturu hefur a sig teked, so ad hañ

er eirn Madur orden̄, offrade sig til Forlijkunar Offurs, fyrer bad sem Madurin̄ hafde broted, og þvi situr han̄ nu til þin̄ar Hægre Handar, og bidur fyrer mier, sijnande þier, ad han̄ hafe mijna man̄lega Naatturu uppa sig teked.

O! þu Himneske Fader; Alijt þu nu þijns kiæra Sonar Høfud, sem han̄ hneigde nidur, og i Daudan̄ fyrer mig søckte. Þu Myskunsame Skapare, aalijt þu Kiærleika, Ast og trwlega Elsku þijns Sonar, og aumka þig yfer Veikleika þin̄ar aumu Skiepnu. Alijt hvørsu han̄s Hiarta var bert, hvørsu han̄s Sijda var raud, hvad ørþreyttur var allur han̄s wtþandur Lijkame; Hvørnen̄ han̄s Heiløgu Augu urdu døpur, hvørnen̄ han̄s dijrdleige Mun̄ur følnade; Hvørnen̄ han̄s megtugu Armlegger stirnudu, hvørnen̄ han̄s styrkve Lijkame hieck allur a sijnum Þwnga; Hvørnen̄ ad han̄s giegnumgrøfnu Fætur aller albloodnger voru.

Þetta virstu O! Himneske Fader Dijrdaren̄ar ad aalijta, og þar ad auk þijns kiæra Sonar Lidu og Limu, so sundur þanda, og huxa naaduglega til vor Aumra. Hvad lijted vær eignm ad oss: Alijt þu Pijnu og Kvøl þijns Sonar, sem bæde var Gud og Madur, og myk þu vorar Kvaler, sem erum ecke nema einfalldar Man̄eskiur, og þijn Handaverk. Alijt þu Pijsler vors Frelsara, og fyrergief þeim Syndernar, sem han̄ hefur endurleyst. Þesse er sa same sem þu, Himneske Fader, Søkum Misgiørda þijns Foolks hefur straffad, þo han̄ være þin̄ einka Son. Þesse er sa sem med Illvirkium er reiknadur, þo han̄ være alldrei ad neinum Svikum eda neinu illu kun̄ur.

Og þvi bid eg nu af Hiarta, þu dyrdleige Skapare Lifossins, ad þu fyrergiefer mier mijnar Synder, fyrer þijns Kiæra Sonar Dauda og Pijnu. Laat han̄s Naad hiaalpa mier fra mijnum Syndum; Laat han̄s Angist bæta mijna

Illsku,

Illsku, hañs Lijtelæte mitt Dramblæte, hañs Polenmæde mijna Opolenmæde, hañs Giæsku mitt Hardsiñe, hañs Hlijdne mijna Ohlijdne, hañs blessada Frid, mijns Hiarta Ofrid, hañs Sætleika, mijns Hiarta Beiskleika, hañs Millde mitt Hatur og Reide, hañs Kiærleika lattu viña og bæta mitt Ustarleyse.

O! þu allra sætaste JEsu Christe, sem ad a Krossens Gaalga þiñ Blessada Fadm opnader, og þijnar Hendur wtbreidder i moote oss øllum, Aumum og Syndugum. Sioa, Eg Aumur Syndare kiem til þijn, og fell þier til Foota under Krossenum. Þu ert Reidubweñ ad taka vid mier, og i þijnum Fadme ad geima. DRotteñ miñ JEsu, i þijnum Heilaga Fadme vil eg lifa og deya, þar vil eg fagna og syngia. Eg lofa þig Lausnare goode, þu leyst hefur mijna Saal. DRotteñ miñ JEsu, hvad gott er mier þa, nær eg hura miñ þijnar Heiløgu Under. Þvi þott wonder Þankar kome i mitt Hiarta, þa hleip eg strax til þiña Blessudu Unda. Vilie Holld og Blod kreinkia mig, þa hura eg til þiña Unda, og so fæ eg upp aptur rised. Þa Diofulleñ offæker mig, þa flij eg til þeirra Mykunsømu Unda mijns Lausnara, og þa vijkur Satan fra mier. Þa Illar Gyrnder plaga mig, þa miñest eg Undaña JEsu Christi, og þa lijda þær i burtu, Ja, i allskonar Neyd og Armæsum hef eg øngva slijka Lækning sem þessar Under Lausnarans, þar vil eg iñe hylia mig, og hvijla Ohræddur. Gief þu mier Lausnare miñ JEsu, ad eg meige seigia med Postulanum; Eg er Krossfestur med Christo, Blodga þu mitt Hiarta med Naglum þijns Otta, og lat mig a Lijse og Saalu med þier Krossfestañ vera, og eckert vita eda gyrnast, utañ þig ad eins, miñ Elskulege Herra, sem fyrer mig varst Krossfestur. Mijn Saal, lofa nu DRotteñ, og lat þier ei fyrnast hvad hañ hefur vid þig giørt, Hañ sem þier fyrergaf þijnar allar Synder, og allañ þiñ Veikleika læknad hefur. Æ! Gud giæfe allar Tungur þackudu þier miñ Lausnare, fyrer þijna Ouñrædelega Giæsku, Lofe þig allar Skiepnur Himneske Fader, sem þijnum einka Syne ecke

þlijfder

bliifdor, Helldur hañ fyrer oss i Daudañ gafst, so ad vier hefdum hañ fyrer Arnadar Mañ og Tulk hia þier a Himnum. Hvad moatter þu meira viña til miñar Sealuhialpar, DRotteñ JEsu? Eñ hvad kañ eg þier i stadeñ ad endurgiallda? Eg aum Mañskiepna sem ecke er nema Molld og Aska, Hvorneñ oc eg ad launa þier? Sioc, uñ Tveñt er eg þier Skylldugur ordeñ. Fyrst ad þu hefur giefed þitt Liif wt fyrer mig. Þar næst er eg þier uñ mitt Liif skylldugur, sem þu hefur mier Tvisvar giefed, Einusiñe i Skoypuneñe, Añañ Tijma i Endurlausneñe. Þess vegna hefe eg eckert sem eg maklegar meige þier Endurgiallda, eñ allt mitt Liif. Eñ hvad eg kuñe þier fyrer þitt Liif ad giefa, sem þu wt gafst fyrer mig, kañ eg Aumur ecke ad hura nie fiña; Þvi þo eg mætte giefa þier Himen og Jord i stadeñ, med allre siñe Prijde, þa være þad hellst Oflijted. Eñ so ad eg giefe þier þad sem mier er i Hende, þa send mier þijna Naad þar til DRotteñ miñ Jesu, ad eg alla mijna Liif-Daga i sterkre Trw, stødugre Von, og breñande Bænar Elsku i þijnu Auglite, framgaange. Þu veitst miñ Drotteñ, ad eg hefe þig af Hiarta kiæran, og vona alleina a þig; Mig laangar alleina epter þier, og þier sende eg mijnar Andvarpaner. Og þo mijn Trw sie veik, og mijn Von sie Lijtelmootleg, þa set eg samt med þessare miñe Trw, allt mitt Traust og alla Von a þig, og veit, ad mijn veik Von mun alldrei laata mig til Skañar verda. Gief þu mier DRotteñ miñ, ad eg þijnum Footsporum fylge, og ad eg affegge þess Gamla Høggorms Naadum ad fylgia, helldur Nijr Madur verde. Laat mig jafnañ uñ þa eilijfu Dijrd hura, og þar fyrer allre þessare Heims Fegurd og Prijde alvarlega gleyma. Laat mier smackast þiñ Sætleika, so eg fare ecke ad Veralldareñar Sætleik; Laat mig ongvañ Verallðlegañ Hlut fra þier fæla, hvørke Jllañ nie Goodañ, Laat mier eckert Fagurt nie Kostulegt þikia, nema þig alleina, og ad mig til einskis laange, nema til þijn og til þiña Bodorda, Hvad þier a moote er, þad sie og mier a moote, Hvad þier þocknast, þad laat mier og þocknast.

Laat

Laat Heimsins Vellyst vera mier Hrygd, eñ mijn Vellyst sie þier ad þioona, og þijns Nafns vegna ad lyda. Þitt Nafn endurnære mitt Hiarta, og þijn Miñing hugge þad. Laat mijn Taar ala mig Dag og Nott, so eg leite epter þijnum Doomum; Laat mier Logmaal þijns Muns kiærara vera, eñ mørg Þusund Gyllene stycke. Laat mig hafa alla Vellysting til ad vera þijnum Blessada Vilia hlijdeñ, eñ hafa allañ Leida, Andstygd og Oþocka til þess ad vera þier ohlijdeñ, alla mijna Lijfdaga, Amen.

## Hvorsu ad Drottiñ var med Illvirkium reiknadur.

MIJn Saal; Ad sijdustu hugleid þu hvorneñ ad þiñ heilage Lausnare var reiknadur a mille Illvirkia, þviad med tveimur Spillvirkium er hañ wtleiddur, og a mille þeirra er hñ uppfestur og krossfestur. Avi miñ Lausnare, Ongvum hefur þu Oriett giørt, og ecke voru Svik þier i Muñe; Eñ vorra vegna ertu reiknadur fyrer þañ mesta Syndara og Glæpa Mañ; Þviad þu barst allar vorar Synder. Þar fyrer er þier wtvaliñ sa hellste Stadur a medal Ræningiaña, og varst midt a mille þeirra krossfestur, so sem ad værer þu þeirra hiñ allra Veste.

O! mijn Saal; Hura med jafnade uñ Ord Postulans. Þad er eitt visselegt og dijrmætt verdugt Ord; Ad JEsus Christus er komiñ

komin i Verølldena, so han hoolpna giørde þa Syndugu, Medal hvørra þu ert ecke hin minsta, Saal mijn. Eñ vert hughraust, þu hefur hia Drottne Myskun ødlast; Þvi þiñ Lausnare var med Illvirkium taldur, so þu kiæmest i Guds Barna tølu; Hañ var med Spillvirkium wtleiddur, so þu med Heilogum i Guds Rijke yrder iñleidd; Hañ var mille Ræningia upp heingdur, so hañ þig wr midiu Helvijte frelsade.

Drottiñ miñ JEsu, gief Hiarta mijnu þessa kroptuga Huggun, fyrer þiñ Heilaga Anda, ad eg i þessare Blessadre Huggun Christelega Life og Deye, Amen.

# Atiande Capitule.

Uñ þau sio Ord HErrans Christi sem hañ talade a Krossenum, og hvad añad fleira þar iñfellur uñ ad tala og huxa.

Eñ JEsus sagde: Fader Fyrergief þeim, Þvi ad þeir vita ei hvad þeir giora. Pilatus skrifade þa eina Yfer-Skrift, og sette hana og upp yfer Krosseñ, upp yfer hañs Høfde festu þeir hañs Dauda-Søk. Eñ Yferskrifteñ og hvør Søk henum var giefeñ, var ritud yfer hønum med Griskum, Latinskum og Ebresk-

um Bookstøfum. JEsse Er JESUS Af NAzareth, KONungur GYDinga. Þessa Yferskrift lasu marger af Gydingum, þviad sa Stadur var nærre Borgeñe, þar JEsus var Krossfestur. Pa søgdu þeir Ædstu Prestar Gydingaña vid Pilatum: Skrifa þu eige Konungur Gydinga, helldur þad hañ hafe sagt, Eg em Konungur Gydinga. Pilatus svarade: Hvad eg skrifade, þad hefe eg skrifad.

Pa Striids-Meñerner høfdu Krossfest JEsum, Tooku þeir hañs Klædnad og giørdu a Fiogra Hluta Skipte, Sierhvørium Striids-Mañe eirn Hlut, og vørpudu þar uñ Hlutkieste, hvør ad hañ skyllde hafa, og þar med Kyrteleñ, Eñ Kyrtelleñ var eige saumadur, helldur, fra Ofañverdu allur prioonadur: Pa tøludu þeir siin a mille, Skiptum vær hønum eige i sundur, Hlutunst helldur uñ hvørs hañ skal vera, So ad Ritningeñ uppfylldest, hvad sagt er fyrer Spaamañeñ, Er seiger: Þeir skiptu med sier Klædum miinum, og a miñ Kyrtel þa løgdu þeir Hlutkieste. Og þetta giørdu Striids-Meñerner, og Folked stood og horfde a. Og þeir sem geingu

þar

þar fram̃ hiaa, hæddu han̄, skooku Høfud sijn og søgdu: Svei, Hvornen̄ nidurbrijtur þu Mustered, og uppbygger þad aptur a þremur Døgum? Hiaalpa þu nu sialfum þier, Ef þu ert Guds Sonur, og stijg nidur af Krossenum. Og Høfdingiarner Spottudu han̄ mz þeim; Lijka eirnen̄ hæddu han̄ þeir Ædstu Prestar sijn a medal mz Skrift-Lærdum og Olldungum, og søgdu: Ødrum hefur han̄ hiaalpad, sialfum sier gietur han̄ eige hiaalpad. Sie han̄ Christur og Kongur Israels, þa stijge han̄ nu nidur af Krossenum, ad vier siaaum og meigum so trwa honum. Hiaalpe han̄ nu sialfum sier ef han̄ er Christur hin̄ Utvalde Guds. Han̄ treyste Gude, han̄ frelse han̄ nu ef han̄ hefur List til hn̄s, þviad han̄ sagde: Eg em Guds Son. Ad honum hæddu og Strijds-Men̄erner, geingu til han̄s og færdu honum Edik, og søgdu: Ef þu ert Kongur Gydinga, þa hiaalpa þier sialfum. Lijka eirnen̄ hæddu han̄ Ræningiarner þeir med honum voru Krossfester. En̄ eirn af þeim Spillvirkium sem heingder voru, lastade han̄ og sagde: Ef þu ert Christur, frelsa sialfan̄ þig og ockur. Þa svarade

ade hiñ añar, straffade hañ og sagde: Og þu hrædest ei helldur Gud, sem ert þo i eins Fordæmingu? Og ad søñu skier ockur þetta Riettelega, þviad vid medtokum hvad ockar Giorder voru verdar, Eñ þesse hefur eckert Oskickanlegt giort. Og hañ sagde til JEsu: DRotteñ, miñstu miin þa þu kiemur i Rijke þitt. Og JEsus sagde til hañs: Sañlega seige eg þier, J Dag skalltu vera med mier i Paradijs.

Eñ þar stoodu vid Krosseñ JEsu, Mooder hañs og Moodur Syster hañs, Maria Hwsfrw Cleophæ, og Maria Magdalena. Þa JEsus sáa nu sijna Moodur, og þañ Læresvein þar nær standande, Er hañ elskade, Seiger hañ til siñar Moodur: Kona, Siáa þu, þad er þiñ Sonur. Epter þad seiger hañ til Læresveinsins: Siáa, Þad er þijn Mooder. Og upp fra þeirre Stundu took Læresveirneñ hana ad sier.

Og þad var nær um hina Siøttu Stund ad Myrkur giørdest yfer allt Landed, allt nær til Nijundu Stundar, og Sooleñ miste sitt Skin. Og um Nijundu Stund kallade JEsus hárre Roddu, og sagde: Eli, Eli, Lama Sabachthani. Hvad ed

wtleggst, Gud miñ, Gud miñ, Hvar fyrer Forlietstu mig? Og nockrer af þeim er þar stoodu hia, þa þeir heyrdu þad, sögdu þeir: Siaa, hañ kallar a Eliam. Epter þad, Pa JEsus visse ad allt var nu Fullkomnad, og ad Skrifteñ yrde uppfylld, þa seiger hañ: Mig Þyrster. Par stood eitt Kier fullt af Edike, Jafnsnart hlioop eirn af þeim til, og took Niardarvøtt, og fyllte af Edike, og sette hañ ofañ a eirn Reir-Legg, og gaf hønum ad drecka, og sagde: Laat vera, Siaaum hvort Elias kiemur ad taka hañ ofañ. Eñ adrer sögdu: Bijded, Laated siaa hvort Elias kiemur ad hiaalpa hønum: Eñ þa JEsus hafde Ediked til sijn teked, sagde hañ: Pad Er Fullkomnad. Og JEsus kallade upp haarre Røddu i Añad Siñ, og sagde: FAder J Þijnar Hendur, Fel Eg Miñ Anda. Og er hañ hafde þetta sagt, ad hneigdu Hofde, Uppgaf hañ siñ Anda.

Og siaa, ad Tialdded Musteresins rifnade midt sundur i Tvo Parta, fra Ofañverdu, allt nidur i giegnum, og Jørdeñ skalf, og Biørgeñ klofnudu, og Grafernar lukust upp, og marger Lijkamer Heilagra risu upp, þeir ed svaafu, og geingu epter

hañs Uppriſn wr Grøfunum, og komu i hina Heiløgu Borg, og auglijſtuſt þar mørgum. Eñ er Hundrads-Hofdingeñ, Hvør þar ſtood giegnt, ſaa þad hvad þar ſkiede, og ad hañ kallade ſo, þa ed hañ lietſt, Prijſade hañ Gud, og ſagde: Ad viſſu hefur þetta eirn Riettlaatur Madur vered og Guds Sonur. Og þeir ſem med honum voru ad vardveita JEſum, þa þeir ſaau Jardſkiaalftañ, og þad hvad þar ſkiede, urdu þeir miøg Ottaſlegner, og ſøgdu: Sañlega var þeſſe Guds Sonur. Og allt Folk, er þar var hia og horfde a, Sem þeir ſaau hvad þar ſkiede, Barde þad ſier a Brioóſt og ſnere i burt aptur. Eñ aller hañs Kuñingiar ſtoodu laangt fra. Þar voru og margar, Konur, ſem ſaau þar uppa Aleingdar, Medal hvørra ad var Maria Magdalena og Maria hiñs litla Jacobs, og Joſes Mooder og Salome, Mooder þeira Zebedei Sona, þær honum høfdu eptterfylgt, þa hañ var i Galilæa, og þioonad honum, og margar adrar, hvøriar med honum høfdu uppfared til Jeruſalem, wr Galilæa, og horfdu a þetta.

Ein-

# Eintaled.

## Pad fyrsta Ord HErrans JEsu, A Krossenum.

FAder, Fyrergief þeim þad, þviad þeir vita ei hvad þeir giøra.

SKoda hier mijn Saal, þa stooru Poleñmæde Guds saklausa Lambs; Þviad i allre siñe Neyd og Pijslum, heyrdust ecke nein Mootmæle til hañs, nie Þyckiu Ord vid sijna Kvalara; Helldur bidur hañ fyrer þeim, og mællte Ord Naadareñar og Blessunareñar yfer sijnum Ovinum. Hvad kañ hoogværara ad verda? Hvad kañ naadugra ad seigiast, mijn Saal? Hañ þagde, og leid og þolde allt þad ad Høndum kom; Ei huxade hañ um Hatur siña Ovina, ecke klagar hañ um sijna saaru Kvøl, ecke um sijna Smaan nie Haadung, helldur aumkade hañ sig yfer þeim hañ krossfestu, læknade þa sem hañ særdu, bad þeim Lijfs sem hañ aflijfudu, sem var þier, mijn Saal, og øllum Møñum sem hañ med sijnum Syndum krossfestu.

Siaa; Hañ leit upp sijnu Hofde til Himins, þar hañ hieck a Krossenum, og sag-

de: Fader, Fyrergief þeim þad, þeir vita ei hvad þeir giøra. Sem villde hañ seigia: Siaa Fader; Hier er eg, og er þier hlijdeñ allt i Krossens Dauda. Laat þier þetta Offur þocknast, og vertu nu forlijktur vid mijna Brædur, þeirra Synda vegna; Laat þa hreina verda af øllum sijnum Syndum, og laat þeirra Yfertrodslur laangt fraa þeim.

. Siaa þar mijn Saal, þar eru nu Bæner HErrans Christi, sem hañ i siñe Pijnu og Kvøl, med iñelegu Hiartans Kalle giørde til sijns Himneska Fødurs, og vard eirneñ Bænheyrdur, uñ hañs Brædur sem Gud hafde hønum giefid.

Siaa nu miñ Himneske Fader; Þesse er vor ædste Byskup, sem ei þarf med añarlegu Bloode ad forlijka oss, þvi hañ hefur sialfs sijns Bloode wthellt. Skoda Himneske Fader, og aalijt hañs omælanlega Hlijdne, haf ei Auguñ af hañs Bænum, so þu siaaer hvørsu vorar Synder eru dijrt bitaladar; Veg þu þetta samañ, hañs Kvøl og vorar Synder, so þu þess rijkuglegar wtheller þiñe Naad og Myskun yfer oss. Haf þvi Huggun mijn Saal, og vert glad i Drottne, þiñ Lausnare er til Guds hægre Handar, og bidur fyrer þier.

O! þu miñ liwfe Lausnare, sem fraame stendur fyrer mig hiaa Fødurnum; Bid þu so eirneñ fyrer mier; Fader fyrergief hønum, þvi hañ veit ecke hvad hañ giører. Jaa DRottiñ JEsu; Hvør kañ ad vita hvad opt hañ fellur? Kieñ mier ad þeckia mijna heimuglega Breste. Eg bid þig Fad-

er

er, i Nafne þins elskulega Sonar, fær þu mijna Sæl wt af Myrkvastofuñe, so eg þacke þijnu heilaga Nafne. Eg bid þig grætande, fyrer þijns Nafns Saker, og fyrer þijns kiæra Sonar Skulld; Frelsa mig af øllum Synda Bøndum, og endurnya mig til eilijfs Lijfs, Amen.

## Um þa Yferskrift, sem Pilatus sette
### yfer Høfde JEsu a Krossenum.

PIlatus skrifade yfer Høfde HErrans Christi þesse Ord: JEsus af Nazareth, Kongur Gydinga; Eñ Gydingum lijkade ecke þesse Titell edur Yferskrift, mogludu þar fyrer, og villdu ecke ad hañ þeirra Kongur hiete. O! DRottiñ miñ JEsu, Gydingum ertu Hneyrxlan; Heidingium Heimska; Eñ mijn Sæl veit visselega, ad þu ert samt eirn Kongur, þvi Gud þiñ Fader hefur þig iñsett a sitt Heilaga Fiall Zion, so þu siert Høfud þiñar Christne. Hñ giørde þig ad Liose Heidingiaña, so þu siert haňs Hiaalpræde, allt til Veralldareñar Enda.

Þar fyrer heiter þu JEsus, þvi þu frelsar þitt Foolk af øllum þeirra Syndum.

O! þu Dijrdareñar Kongur, HErra JEsu; Forda þu miñe Sæalu þeirre eilijfu Skøm og Smæn. O! þu Naadareñar Kongur; Laat þu þijns Himneska Fødurs Reide ecke vera yfer miñe Sæalu eilijflega. Þu Kongur Riettlætesins; Frelsa mijna Sæl af Syndeñe, og þvi eilijfa Ranglæte. Þu Kongur Gledeñar og Fagnadarens; Frelsa

sa mijna Saal af þeirre eilijfu Hrygd; Pa Kongur Fridarens; Gief ad þiñ Fridursie eilijfur i mijnn Hiarta, Amen.

## Pad Añad Orded Christi a Krossenum til siñar Moodur.

KViña, siaa þar er þiñ Sonur. Og til Læresveinsins sem hañ elskade. Siaa, þar er þijn Mooder.

HA DRottiñ saa nu sijna Harmþrungna Mooder, þar nærre standa, took hañs Sonarlega Hiarta saart til heñar, og sagde; Kviña, þar er þiñ Sonur; Og vijsar til S. Johañem Gudspialla Mañs, ad hun skyllde hønum a Hendur og til Forsioonar faleñ vera. O! Herra, ojafnt skipter þu vid þijna Moodur, gafst heñe Læresveineñ fyrer Meistarañ; Præleñ fyrer HErrañ, daudlegañ fyrer odaudegañ, Skiepnuna fyrer Skaparañ, og Son Zebedei fyrer Son Guds.

Par næst sagde Drottiñ, vid Læresveiniñ, þañ sem hañ elskade; Siaa, Par er þijn Mooder; So fieck Christus siñe Moodur, sem añare munadarlausre Kviñu, Johañem til Forsvars og Umhyggiu. Siaa, mijn Saal, þar uppfyllest Spaadoomur Simeons hins Gamla uñ Mariam;

Tvij-

Tvijeggiad Sverd, sagde hañ, pad er nijstande Sorg, mun þijna Saal i giegnum smiwga.

Eñ HErrañ JEsus huggade hana med sijnu Tillite og Ordum; Hañ læknade heñar siundurknosada Hiarta, og hægde heñar Sorg. DRottiñ miñ JEsu, mijn Augu læungar epter þijnu Orde, og seigia: Nær ætlar þu Gud ad hugga mig? Lijfgadu mijna Saal DRottiñ, og snu miñe Hrygd i Glede; Pvi þu DRottiñ huggar þaa Lijtelmootlegu.

Tak þu eirneñ þier til Hiarta Saal mijn, Kiærleika DRottins til siñar Moodur, ad hũ hurade so vel fyrer heñe, aadur hũ gaf upp siñ Blessada Anda. Hier aattu DRottins Footsporum eirnig epter ad fylgia, þvi þetta liet hañ þier til Eptirdæmis. Þar fyrer skalltu heidra þiñ Fodur af allre Alvøru, og gleym ecke hvad þwngur þu hefur vered þiñe Moodur, þa hun bar þig i sijnu Lijfe, og fædde þig i Heimeñ. Hvørneñ kantu heñe ad launa?

Heidra Fodur og Moodur med Ord og Verk, med allre Poleñmæde, so þeirra Blessan hrijne a þier, þar til hiaalpa þu mier DRottiñ JEsu, Amen.

Maria

## Maria þijder Christnena, Johañes Kieñemeñena.

MIn Erk hier eirneñ Saal mijn, ad su verduga Jomfrw Maria, var hier eirn Speigell Christelegrar Kyrkiu a Jorduñe: Þvi so sem Maria med Sorg og Harme stood under Krosse sijns kiæra Sonar, og med Hiartans Angist hlaut ad siaa, hvorneñ hañs Blessada Blood floode af hañs Heilaga Lijkama, a Jord nidur. So er HErrans Christi Samkunda og Christne hier a Jorduñe, ævallt Krossenum under orpeñ, og hlijtur med Sorg og Angist ad siaa og skoda, hvorneñ Blood og Forþienusta sijns Lausnara JEsu Christi, af þeirre Ogudlegu Verølld og Ovinum Krossens Christi, med Footum trodiñ og forocktud verdur.

HErra JEsu Christe; Alijt jafnañ med Naadeñe þijna Christne, og haf Umhyggiu fyrer heñe, þvi hun er aum og vesol hier a Jardrijke. Og sem þu St. Johañem þiñe Blessudu Moodur gafst til Forsvars; So send þiñe Christne alla Tijma frooma og Riettsiñada Kieñefedur og trwlynda Hyrdara, epter þijnu Hiarta, þeir ed Christnena foodre med Kieñingum og Vijsdoome, Amen.

## Uñ þa sem Herrans Klædum skiptu med sier.

GEym vor DRottiñ, fyrer þeim følsku Spaamøñum, sem koma til vor i Saudaklædum, eñ iñra eru þeir glepsande Vargar. Þad eru nu þesser, sem þijnum Klædum med sier skiptu, og løgdu Hlut a þiñ Møttul. Þad eru þeir Hirdarar, sem siaalfa sig fæda. Eiga ecke Hirdararner ad fæda Hiørdena? Eñ nu eta þeir þad feita Fied, Klæda sig med þess Ullu, þeir slaatra, eñ Saudena fæda þeir ecke. Þess giæta þeir ecke sem veykt er, og þad siwka græda þeir ecke; Þad villta sækia þeir ecke; Þess tapada leita þeir ecke; Helldur eru þeir straanger, og omyskunsamer vid þa.

O! DRottiñ, þu goode Hirder, tak siaalfur þijna Hiørd i geymslu, og haf upp þa sem fra Hiørdeñe villast; Send oss aavallt þijna Riettsiñada Lærefedur, sem þiñ hreina og Ofalsada Lærdoom fram fyrer oss bere, med heilnæmum Lastlausum Kieñingum; Gief þu ad vorer Kieñemeñ klæde sig med Riettlætenu; Svipt ei fra oss goodum Kieñemøñum, so Hiørdeñ tvistrest ecke, helldur laat oss þeim hallda og þeim fylgia, og þessa Raust meiga med Glede, og vorn Saalar gagne heyra; Þad er Vegureñ, gaanged hañ, eñ hvørke til Vinstre nie hægre Handar.

## Þad þridia Ord DRottins vid Ræningiañ sem idradest.

SAñlega seige eg þier, i Dag skalltu vera med mier i Paradijs.

Siaa

SJaa hier Saal mijn, Jdran Rænningians, hvad ægiæt hun er, þo hun kiæme seint fram. O! hvad mikla Trw og sterka hefur hañ haft, DRotteñ (sagde hañ) Miñstu mijn, þa þu kiemur i Rijke þitt. Siaa, Hañ jaatade DRotteñ ad vera eirn Megtugañ Lausnara og Hiaalpar-Mañ, þo hañ hienge þar nu a Kross enum, sialfur Hiaalparlaus, Hañ badst Lijknar af hønum, þott hañ sæe hañ være þar med Spillvirkium Krossfestur.

Þar maattu og eirneñ mijn Saal, siaa gooda Avørtu hañs Jdranar, Þvi þo hañ a Høndum og Footum være vid Krosseñ negldur, þa þioonade hañ samt Gude med sijnu Hiarta, jaatade sijnar Synder og leid sitt Straff med Þoleñmæde, hañ vottade DRottens Sakleise, og aavijtade hiñ aañañ Ræningiañ, sem DRottne aamællte. Jaa, Þa aller Læresveinar þøgdu, og voru i burt, þa medkiende hañ DRotteñ Støduglega allt i Daudañ.

Þvi aaleit DRotteñ hañ Naaduglega, og huggade hañ med þessu Lijfsins Fyrer-Heite, Sañlega, Sañlega seige eg þier, i Dag skalltu vera med mier i Paradijs.

Mein-

Meinar þu Saal mijn, ad DRotteñ længe epter Dauda hiñs Synduga, eñ ecke ad hañ uñsnwe sier og life? Jaa, nær sa Ogudlege snijr sier fra sijnum Ogudlega Lifnade, og bæter sig vel, þa mun Drotteñ laata hañ lifa, og øngra hañs Synda framarmeir miñast.

Med þessu villder þu, Drotteñ miñ JEsu, openbera þañ Omælelega Krapt þiñar Forþienustu, þijns Dauda og þiñar Pijnu, Giefande hier med øllum Syndurum Huggunarsamlegt Epterdæme, ad þu villier oss Naadugur vera, og vora Jdran fyrer Syndernar medtaka.

Avi, Vier erum Synduger aller, allt vort Riettlæte er sem saurugt Klæde, og þa vier høfum sem best giort, erum vier samt Onijter Pionar, Þvi vier vitum ad Madur verdur ecke hoolpeñ fyrer Verk Løgmaalsins, helldur mz Truñe a Jesum Christum.

Hiaalpa mier Lausnare miñ, ad eg kuñe af Hiarta ad Jdrast, so sem þesse Ræninge, ad eg jaate a mig mijnar Synder, og mig af Hiarta angre allt hvad eg hef þier a moote giørt, Auk mijna Tru; Gief ad eg þitt Nafn akalle, og Hoolpeñ verde. Stijr og stioorna mier med þijnum Heilaga Anda, ad eg sie Guds Barn, og Erfinge Himnarijkis, eñ þiñ Brooder og Samarfe; Laat mig ei lifa epter Holldenu, so eg deye ecke, helldur med Andanum Holldsins Gyrnd

er

er kiefie, so eg life. Ja DRottenn minn JEsu, i minne essiu Andlaats Neyd, þa eg mun so til þijn kalla, og seigia: DRottenn minnstu mijn þar þu situr til þijns Fødurs hægre Handar, medtak þu mig inn i þitt Ryke, Pa vilier þu ei þeya vid mier, helldur taka vid mier so sem vid Ræningianum, og seigia so vid mijna Saal, Sannlega seige eg þier, i Dag skalltu vera med mier i mijns Fødurs Rijke. Gief þu mier DRottenn Gledelegann Afgang þa mijn Stund kiemur, og fær mijna Saal fra þessare Eymd til Eilijfs Lijfs, Fær mig fra Syndunum til Riettlætesins, Fra Neid til Sælu, Fra Dauda til Lijfsins, Fra Helvijte til Himerijkis, Fra Fordæminguñe til Eilijfrar Saaluhiaalpar, Amen.

## Umm hinn annan Ræningiann til Vinstre Handar, umm Kiennemanna Høfdingiana, Strijds-Mennena, og adra sem løstudu HErrann Christum a Krossenum.

VAraſtu mijn Saal, ad þu siert ein af þeim Gudløsturum, so sem sa vinstre Ræningenn, Kiennemanna Høfdingiarner og Strijds-Mennerner, hvørium ecke þotte Christur hafa noog ad bera i sinne Kvøl og smaanarlegu Pijnu, helldur bæddu þeir hann þar ofanaa, skooku sijn Høfud, løstudu hann og bryxludu hønum umm, ad ødrum hefde hann hiaalpad, enn sialfum sier giæte hann ecke hiaalpad. Jaa, DRottenn minn, þeir spenntu sitt Gin upp i moote þier, og søgdu: Vel, Vel, Pad gietum vier sied, þad er riett, þad er vor Vilie, ad þu skylldet so fara. Peirra Smaan helltist yfer þig,

og

og þo dærudu þeir þig þar ad auke, og sǫgdu: Hvar er nu hañs Gud?

Mijn Saal, DRottiñ hefur sagt fyrer, ad a sijdustu Dogum munu koma þvilijker Gudlastarar, sem meir munde lifa epter siñe Vellyst, og meir elska hana eñ Gud, þeir munu sijnast gudleger, eñ ecke reinast ødruvijs eñ falsklega. Eñ þu mijn Saal skallt fordast slijka, og vita fyrer vijst, ad DRottiñ mun straffa þa. Siñe Oblijdu mun hañ yfer þa wtausa, og hañs grimdar Reide mun grijpa þa. Hañ mun þeirra Augu blinda, ad þeir siaae ecke, hañ mun laata þa falla i eina Synd af añare, ad þeir naae ecke hañs Riettlæte. Hañ mun afmaa þa af Book lifande Maña, ad þeir sieu ecke skrifader i tølu Riettlaatra. DRottiñ mun koma med Ellde, og hañs Ogn mun vera sem añad Ovedur, ad hañ þeim endurgiallde Grimd siñar Reide, og bitale þeirra Lastaner med Ellds-Baale.

Hañ mun til þeirra tala i siñe Reide, og i siñe Grimd mun hañ skielfa þaa, þa hañ Dooms atkvæde aaleggur, a þeim Deige Doomsins og seiger: Bijked fra mier Bølvader, i þad eilijfa Ellds-Baal, sem fyrer-

S bwid

hwld er Dioflenum og hañs Einglum. Pa munu þeir i þær eilijfu Kvaler gaunga; Peirra Ormur mun ecke deya, og þeirra Elldur mun ecke wtslockna, þar munu þeir ad Daudanum leita og ecke fiña hañ, þeir munu gyrnast ad deya, og Daudiñ mun fordast þaa.

O Drottiñ JEsu Christe; Halltu miñe Saalu i þijnum Otta, ad eg aavallt hrooſe mier af þijnu Nafne, so ad eg ei med Gudlosturum til Helvijtis Fordæmdur verde, Amen.

## Pad Fioorda Ord HErrans Christi, er þad saargrætelega Kall til Fødurſins.

## Ni; Jñ Gud, Miñ Gud, Pvi yfergafſtu Mig.

Heyr þad og merk mijn Saal? Hvad saarlega þiñ Lausnare kallade i siñe Neyd og Angist; Miñ Gud, miñ Gud; Pvi forlietſtu mig? O! eilijfe Gud; Hvad Ordum er slijkt? Kañtu nockud hryggelegra ad heyra mijn Saal, eñ þetta var.

Hvad var þier þu allra helgaste Lausnare? Hvadan kom so saarlegt Kall upp fyrer þier? Yfrid mikel var þijn Ytre Pijsl og Kvøl; Eñ þo var siv iñre langtum meire og oseigianlegre. Pad giorde siv oseigianlega Byrde vorra Synda, sem Gud hafde lagt uppa

uppa þig; Eg hefe syndgad, eñ þu pijndest; Eg hefe broted og illa giort, eñ þu barst Kvolena; Eg hefe til Reide reitt þiñ Fodur, eñ heñe var steypt yfer þig; Hañ sende Elld, siñar Reide i þijn Bein; Hañs Grimd þiaade þig og þvijngade, med øllum sijnum Straumum. Þu giørdest Løgmaalsins Bølvan fyrer mig, og Helvijtis Gin villde þig svelgia. Þijn Saal var full Sorgar og Kvala, og þitt Lijf var i Heliu; A þier laa grimdar Reide Fodursins, mijnar og allar Heimsins Synder. Þig plaagudu Pijlur Andskotans, og Skeyte Belials, Snørur Daudans og Fiotur Helvijtis; Af þessu ollu særdest so þitt Blessada Hiarta, ad þu fanst ongva Hiaalp fyrer hønum. Þu barst þig illa, eñ Hiaalpeñ var ei nærre; Jaa, eirneñ Sooliñ a Himnum byrgde sig, og villde ei horfa a þig, þar þu varst ad Bølvan ordiñ og so forlaatiñ af Gude. O Drottiñ miñ JEsu; Hvad strangt Ervide, hvad stoora Sorg, Mædu, Pijnu og Angist, hef eg þier bakad med mijnum Syndum; Allt hefur þu þetta lided fyrer mig; Þu varst forlaateñ af Gude, so eg yrde medtekeñ af hønum. Þu barst Grimdar

Neide þijns Fødurs, so eg Naadena feinge, þu barst mijnar Synder, so eg riettlaatur yrde; Þu smackader Andskotans Pijlur, so eg obrædddur vera meige; Þu varst Hug-gunarlaus og yfergiefeñ, so eg feinge bæde Hiaalp og Huggun. Sooleñ byrgde sig fyrer þier, so su eilijfa Riettlætis Sool skijne mier eilijflega.

O Rottiñ, O Rottiñ, hvad straangt Ervide aatte þijn Saal; Hvad saarlega varstu sleigeñ? Jaa miñ Lausnare; So yfergaf þig þiñ Himneske Fader um̃ Stundar-Saker, eñ med Dijrd og Vegsemd hefur hañ þig aptur Koronad. Nu hefur hañ jett þig til HErra yfer øll sijn Handaverk, og þier allt under Fætur giefed; Hañ hefur leist þig fra Angist og Doome; Hvør vill nu telia leingd þiña Lijf-Daga?

O Rottiñ miñ JEsu, sem ert dææñ fyrer vorar Synder, og uppriseñ fyrer vors Riettlætis Saker; Sie þier Lof og Packer ad eilijfu, Amen.

Hvørneñ Saaleñ skal sig hugga med þessu Epterdæme HErrans Christi i Daudans Neyd.

Þad skalltu epter hafa, mijn Saal; Ad lijka sem Christur i siñe Neyd og Angist kallade til sijns Himneska Fødurs, so skalltu og kalla i allre þiñe Neyd, þegar Andskotiñ

skotiñ sœrer þitt Hiarta med siinum Daudlegum Piilum; Þegar þiinar Synder vakna, og þig vid Gud skilia ætla; Þegar þu fiñur Reide DRottins og Bølvan Løgmaalsins, þegar Daudiñ setur siñ hvassañ Brodd þier a Briooſt og myrder þig; Þegar aller þesser heliar Hundar ellta þig so siñ i Einaangur, so þu kiemst hvorge, og Verølldiñ er þier þraung, þiñar Samvitsku vegna. Hvørt villtu þa? Hvad villtu þa giøra? Þad skalltu nu læra af þiinum Lausnara; Kalla þu til hañs, hañ mun þier Raad og Lid leggia.

DRottiñ miñ, ættlar þu leinge ad gleyma mier? Ættlar þu leinge ad byrgia þijna Asioonu fyrer mier? A leinge mijn Saal ad syrgia; A mitt Hiarta ad angrast daglega? Ættlar þu leinge ad reidast? Og laata þitt Grimdar Baal breña? Mijn Saal er ad mestu yferkomiñ. Avi DRottiñ miñ, er laangt epter? Eg er yferkomiñ af Hiartans Andvørpunum, og flyt i miñe Sæng, og væte mijnar Hvijluvoder i mijnum Taarum. Mijn Asiaaua er torkieñeleg af Hrygd, og afgomul ordiñ, þvi allt geingur ad mier; Þu hefur mijn Bein sundurmared sem eitt Leon, so eg sagde; Nu hlijt eg ad deya; Mijn Augu voru so sem brostiñ; Eg lijd Neyd, DRottiñ, lijkna þu mier, DRottiñ, lijkna þu mier, Amen.

Jaa, mijn Saal, þad bregdst ecke, Verølldeñ mun eñ þa spotta þig og þessum þijnum Ordum smaa, og ymislega þau wt-

þijda, Eñ ackta þu þad ecke, og vert Hug-hraust, Þeir giorðu so vid þiñ Lausnara, þa þeir søgdu: Bijd vid, laat siaa hvort Elias kiemur og hiaalpar hønum. Eñ halltu a þiñe Bæn, og aakalla Gud.

Siaa þu DRottiñ miñ Gud, nu ligg-ur mier næsta aa Huggun, Vert mier ecke Ognarlegur, þvi þu ert mitt Athvarf i Neydeñe. Snw þier til mijn DRotteñ, og frelsa mijna Saal, Hiaalpa mier søk-um þiñar Giæsku, Drotteñ vert ei laangt i burt, Miñ Styrkur, skunda þu mier til Hiaalpar. Þu hefur hiaalpad mier fra miñar Moodur-Lijfe. Þu varst mitt Traust þa þegar eg laa a Moodur Briooste, Mig laangar epter þier, þvi muntu hiaal-pa mier, Eg þecke þitt Nafn, þvi virdstu ad hlijfa mier, Eg aakalla þig, þvi virstu ad Bænheyra mig, Amen.

Giorstu ecke so hrygg, Saal mijn, og laat þier ei vera so Orott, Vona a Gud, þvi eg mun hønum eñ nu þacka, ad hañ hi-aalpar mier, og vill vera miñ Gud. Hygg ad Dæmum Fornum, Hvør er sa nockurn Tijma til Skañar orðeñ, sem a hañ hefur vonad? Hvørn hefur hañ Forsmaad, sem

hañ

hañ hefur akallad, Pvi Drotteñ er Naadugur og Myskunsamur, fyrergiefur Synndernar og hiaalpar i Neydeñe.

DRotteñ miñ JEsu, þu veitst ad eg voua a þig, Kom og hiaalpa miñe Saal, þa þier þyker Tijme til, Og þo mitt eiged Hiarta villde Fordæma mig eirueñ, þa ertu laangtum stærre og sterkare eñ þad er, Jaa, þo þu deyder mig DRotteñ, þa laattu mig samt Eilijflega a þitt Nafn voua, Amen.

## Pad Fiñta Orded Christi.

## MIG PYRSTER.

J Fiñta Siñ sagde Lausnareñ, mig Pyrster. DRotteñ JEsu, Hefur þu ecke sialfur skapad Sioeñ og alla Vatns-Bruña? Nu Pyrste þig og varst Ormagna a Krossenum. Pad er ad soñu Naatturlegt, ad allar Adfram-komnar Mañeskiur þyrste. Eñ þo þig Pyrst hafe i meira Lage, þa voru þad eingeñ Undur. Pu varst sañur Madur, fanst Hungur og Porsta, sem hvør añar, Par ad auk hafder þu aadur uñ Noottena i Alldengardenum sveitst þeim Blooduga Sveita, varst þar faangeñ, bundeñ, sleigeñ, hraktur og hrjaadur, Hwdstryktur, hæddur, Forsmaadur, a Krosseñ nelgdur, so þitt Blessada Blood var nærsta burt ruñed, og Maattur og

Megn var allt i burt, Þvi var ei kyn þo þig Þyrste.

Eñ hvad gaafu þeir þa mijnum Lausnara ad drecka? Þu Giæskufulle JEsu, Þu prijder Ared med þijnum Gooda, og sedur allar Lifande Skiepnur med Fognude. Eñ i þiñe SijdustuNeyd, hielldu þeir þig ei verdañ eins goods Þorsta-Dryckiar. Þvi þeir gaafu þier Gall ad eta, og Edik ad drecka, i þiñe stooru og hrædelegu Neyd og Angist.

Eñ vertu glød mijn Saal, þvi med þessum stora Bañvæna Dryck, hefur þiñ Lausnare uñgeinged þier þañ eilijfa Heilsusama Saalar Dryck. Hañ Þyrste so þier yrde svalad, Hañ wthellte sijnu Bloode og gaf þier ad drecka, Hañ Ormegnadest, so ad þu Endurnærdest, Hañ Skorte, so þu hefder Noog, Hañ giørde þig Druckna af rijkuglegre Giæsku siñar Naadar, Hañ skeinkte þier Vellysting ad drecka, sem eirn reñande Straum, Smacka og siaa hvad sætur ad DRotteñ hañ er.

Eñ Drotteñ þyrste ecke ad eins Lijkamlega, Helldur Þyrste hañs Hiarta epter þier eirneñ. Hañ Þyrste epter þiñe Trw,

og

og længade epter þiñe Sæluhialp. Hañ Þyrste epter þier, þvi lættu þig þyrsta epter hønum. Kom til hañs og dreck, og svala þijnu Hiarta, þa þier þiker strængur vera Mootgængur i þijnum Sottum og Freistingum og Daudans Neyd.

O! þu goodfwse JEsu; Þu hefur þetta sagt; Hvørn sem þyrster, sa kome til mijn og drecke, þvi þiñ Bruñur er ohrivotande med Lijfsins Vatn; Hvør þar afdreckur mun ei þyrsta eilijflega; Hvad miøg þyrster nu mijna Sæl epter þiñe Hugguu, so sem Hiørtiñ þyrster epter Vatns-Bruñenum, so fijsest mijn Sæl, og sæker til þijn DRottiñ miñ Gud. O! þu sæte JEsu Christe, dijf þvi fremsta a þijnum Naadar Fijngre i þitt raudlitada Blood, sem þu fyrer mig wthellter, og kom ad dreypa a mijna Sorgbitna og Harmþrwngna Sæl, og yferkomed Hiarta; Þvi eg lijd stooran Þorsta i miñe Neyd; Hvad gott mun miñe Sæl verda vid, nær þu a hana dreyper med þijnu Blessada Bloode? Þvi nær eg dreck þitt Blood, þa er eg i þier og þu med mier.

## Christner verda lijka Hørmungareñar
### Bikar ad drecka þessa Heims.

TAk hier eirneñ mark a Sæl mijn, ad so sem þeir skeinktu þijnum Lausnara, Gall og Edik ad drecka, so hlijtur lijka Mootgængs Bikar þier til Handa ad koma. Þañ Bikar hefur DRotteñ sialfur i siñe Hende, fullañ Sorgar og Mootgængs, og skeinker af hønum, og giefur øllum sijnum Trwudum ad drecka. Vert okvijdiñ

eñ Saal mijn; Siaa, ad DRotteñ sialfur hefur hañ byrlad, og fyrer hønum haft, dreck þu eirneñ med þijnum Kaušnara. Pvi þo þesse Bikar sie swr og beyskur, þa mun hañ þier fyrer bestu verda. Par fyrer; Ef ad þu villt nu iña DRottne nockru fyrer allt þad sem hañ hefur þier til gooda gørt, þa medtak þu þañ Heilsusama Mootgangsins Bikar; Bert Poleñmood, og prijsa hañs Nafn: Murra þu ecke nie møgla vid þvi, þad er ecke nema lijtel Stund, þa muntu ei drecka hañ leingur; Pvi þa mun hñ skeinkia sætañ Fagnadar Dryck a fyrer þig, sem þiñe Saalu mun æfenlega vel svala. Eñ þeim Ogudlegu, þijnum Heiptar Moñum, mun hañ siñar Grimdar Bikar skeinkia, þañ munu þeir hlioota af ad drecka allañ samañ, og Dreggiarnar ølldungis wt swpa.

Eñ vakta þig Saal mijn, fyrer Ohoofe, og misbrwka þad eige sem þiñ Kaušnara skorte a Krossenum. Hooflega drucked Vijn gledur Mañsins Hiarta, eñ Ohooflegt orkar Kvalar; Pvi skalltu ei drecka þig ofdruckeñ, þvi þad leider vondañ Lifnad epter sig, og Dryckiurwtarar munu ei i Guds

Rijke

Rijke sitia.

O Drottiñ miñ HErra JEsu, Vardveit þu mig fra Ofdryckiu, og øllu misbrwke a þijnu Læne; Gief ad eg ævallt sparneytiñ og Hoofsamur life, so eg þess hæfelegre sie til ad lofa og prijsa þitt Heilaga Nafn; So ad eg i þiñe Pivonustu, a hvøriu Augnablike, sie og fundeñ verde, Amen.

## Þad Siøtta Orded.

## ÞAD ER FULLKOMNAD.

ÞEtta Siøtta Ord, er hid mesta Fagnadar og Huggunar Ord, er hñ sagde: Þad er Fullkomnad. Fagna mijn Saal, og vert Ohrædd; og efast eige, þvi þiñ Lausnare hefur allt þad fullkomnad, sem uñ hañ var skrifad. Allt hefur hañ fullgiort, sim þurfte til þiñar Saaluhiaalpar. Allt hefur hañ fyrerbwed þad, sem heyrde þier til Huggunar, allt hefur hañ þad sigrad og yferstijged, sem moote þiñe Saalu var. Allt hefur hañ þad apturfeinged, sem Adam og Efa høfdu glatad. Allt hefur hañ þad bætt, hvøriu þu og adrer med Syndunum spilltu.

Jaa DRottiñ JEsu; Allt hefur þu vel giort. Gaafur og Foornfæringar, Breñe-Offur og Synda-Foorner villde þiñ Fader eige, og eige þocknast þær hønum, þær sem

epter

epter Logmalsins Setningum fornfærdar voru; Eñ þu Ert komiñ þijns Fodurs Vilia ad giora, og hefur fyrer Syndernar foornfært þad sem æfenlega duger; Pvi med þijnum Blessada Lijkama einuſiñe Foornfærdum, hefur þu fullkomnad, fyrer alla þa sem helgast munu ad eilijfu. Pu hefur sett oss vid Fodureñ, hañs Reide i Blessan snued; Hoggormsins Hofud sundur brotid, Syndernar bætt, Diofuleñ yferuñid, hañs Verk nidurbrotid, hañs Rijke sundurtvistrad, Logmalsins Bolvan burt teked, Helvijte hefur þu nidur brotid; Allt hefur þu vel fullgiort og fullkomnad.

Eilijfe Himneske Fader, Allt er Fullkomnad med Offre þijns Sonar, sem hañ hefur sett fyrer mijnar Synder, vertu mier Nadugur og Myskunsamur: Ef þu værer mier Frahorfeñ, so sem eg hefe med mijnum Syndum forþient, þa lijt þu til mijn aptur, med þijnum Nadar Augum, og fyrer saker þijns Elskulega Sonar. Alijttu Soneñ þiñ, og vert Prælnum Nadugur, Alijt hañs Holldgan, og fyrergief mier alla mijna Skulld. Svo opt sem þu alijtur þær Heilogu Under þijns Sonar, þa lat mijnar Synder vera huldar fyrer þier. So opt sem þu alijtur þad rauda dijra Blood, sem ruñed er af Sijdu JEsu Christi, þa hreinsa mig af mijnum Misgiordum.

Eg hefe vijst miked illt med Syndunum forþient, Eñ miñ Lausnare hefur laangtum

-um meira med sijnu Bloode bætt og bitalad. Stoort er mitt Raanglæte, eñ miklu stærra er mijns Lausnara Riettlæte. So sem Gud er stærre og meire eñ Madureñ, so er hañs Naad og Myskun meire eñ mijn Synd.

Hvorneñ kañ nockur so stoora Synd ad hafa giørt, ad Guds Son hafe ecke med siñe Pijnu, þar fyrer bitalad? Hvorneñ kañ nockur Drambseme ad vera so stoor, ad hun verde ecke bætt og bitølud med soddañ Lijtelæte? Hvørneñ kañ Daudans Valld ad vera so stoort, ad Guds Sonar Daude hafe þad ecke nidurbroted? Jaa miñ Gud, Skyllde samañ vega Mañsins Synd vid Lausnarans Naad og Myskun, þa er þar so langt a mille, sem a mille Austurs og Vesturs, a mille Helvijtis og Himerijkis. Hvar sem Syndeñ er stoor og mikel, þar er Naadeñ miklu stærre og meira meira.

So vakta þig nu mijn Saal, fyrer þeim sem Sialf-Birger þikiast ad hiaalpa sier, viliande med sijnum eigeñ Verkum, þad allt Fullkomna. Eñ laattu þier sagt og kient vera mijn Saal, ad Madur verdur ecke

ecke Riettlætur med Verkunum, helldur fyrer Trwna a JEsum Christum, So trw þu og eirnnenn a JEsum Christum, so ad þu Hoolpenn verder.

Eg giøre hier Þacker Drottenn minn JEsu, ad þu hefur Allt so vel Fullkomnad, og Tilreidt mier til Saaluhialpar. Æfeinnlegt Lof og Dijrd sie þier, Heidur og Vegsemd, ad þu mijna Saal so vel gladt og huggad hefur, Amen.

## Þad Siounda Orded Christi.

## FADer J Þijnar HEndur, Fel Eg Minn Anda.

Hlegg vel at Hiartad Saal mijn, HErrans Christi Ord a Krossenuum, og huxa umm hvada Dauda og Andlæt þetta var, og hvør sa var sem þar gaf upp Andann. Þetta var ecke Abraham, ecke Jsaac, ecke Jacob, ecke Moyses, ecke David nie nockur Spamadur, helldur var þad sialfft Lijfed, sem þar doo a Krossens Gaalga. Þar gaf upp sinn Anda, Hertuge og Hofdinge Lijfsins; Þar deyde JEsus Guds Son, sem Himen og Jørd hafde skapad, sa allar Skiepnur lijfgar, og vid Magt helldur øllum Hlutum, med sijnu kroptugu Orde, hann liet var sitt Lijf a Krossenuum. Þvi þo sw Guddoomlega Rætt-

urann

uꝛañ i hønum ſie Odaudleg, og giæte ecke daued, þa deyde ſamt Perſonañ, ſem var ſañur Gud og ſañur Madur, eñ hañ deyde epter Holldenu, þvi ORDed hvijldeſt a medañ, ſo hañ kyñe ad Freiſtaſt, Kroſſfeſtaſt og deya, eñ þo var, og er, ORDed, þad er Guddoomureñ Mañdoomenum Samteingdur; ſo ad ſw Mañlega Nattura giæte ſtadeſt, ſigrad og upp aptur riſed, og alla Sæla giort.

O! DRotteñ JEſu, hvad diwpt Lijtelækader þu þig, og giørdeſt Hlijdeñ allt til Daudans, Jaa, allt til Kroſſeus Dauda. Þu varſt ad vijſu ſa Goode Hirder, ſem þijna Saal, gafſt wt fyrer þijnar Sauda-Kindur. Þu ert ſa einka Endurlauſnareñ, ſem þitt Lijf gafſt til Vitalings fyrer ſo marga. Þiñ Daude er mitt Hæle og Athvarf, Þitt Lijflaat er mijn Forþienuſta, þegar eg a þiñ Dauda þeinke, þa er eg hoolpeñ, hvør vill fordæma mijna Saal, Hier er Chriſtur, ſem fyrer hana er daaeñ, Sa hefur mig frelſad fra Daudanum og Helvijte. Þu Daude, hañ vard þier ad Eitre, Þu Helvijte, hañ er ordeñ þier ad Drep-Sott.

Vertu

Vertu nu Glød Saal mijn, Fyrst þu hefur nu foddañ Lausnara, sem øllum hiaalpar, og DRotteñ er allra DRottna, hañ hefur Daudañ uppsvelgt, i siñe Sigurviñing, Daude, Hvar er þiñ Broddur? Helvijte, hvar er þiñ Sigur? Æjeñlegt Lof sie miñum Lausnara, sem mier hefur sijna Sigurviñing giefed. Life eg nu, þa life eg þier DRotteñ miñ JEsu, Deye eg, þa dey eg þier, Hvort sem eg life eda dey, þa er eg þiñ, DRotteñ miñ JEsu, Eilijft Lof sie þijnu Heilaga Nafne, Am̃.

## Hvørneñ Christeñ Madur eige ad andast eda sofna wt af.

HAf i Miñe Saal mijn, ad þa DRotteñ þiñ Lausnare atte ad giefa upp Øndena, þa took hañ Huggunar Ord af Hellagre Ritningu, og sofnade so wt af, Fader i þijnar Hendur, fel eg miñ Anda. O! hvad mørg Pusund Eingla munu þa nærre vered hafa, og flutt hañs Saal iñ i hañ eilijfa Paradijsar Fognud. So skalltu eirneñ giøra i þijnu Andlaate, þa siu Stund er komeñ, Og so sem þiñ Daude Lijkame er þa ad Sveipast i hvijtre Liflæuñe, Eins skalltu sveipa þijna Saal med einhvørre agiætre Huggunar Grein, og skiliast so vid med Fognude.

Jaa, So sem Siglinga-Meñ, þa þeirra Skip brotnar, grijpur hvør þad siñ naaer, Fialer, Stijre, eda hvad añad sem þeir mei-

ge sier aa-fleita, og Sinda til Lands, og hiaalpa so sijnu Lijfe. Eins skalltu giora mijn Saal, þegar Skip-korn þijns Lijkama er komed ad Brote, þa grijp þu Huggun wr Ordum JEsu Christi, og hallt þier fast vid þaug, þa nær þu vel Lande, og þa kañtu komast i giegnum Daudañ, og i þad eilijfa Lijf. Þvi hvør JEsu Christi Ord vardveiter, mun ei Daudañ smacka ad Eilijfu.

O! DRottteñ miñ JEsu, Hallt mier jafnañ vid þitt Heilaga Ord, so eg lære Gudlega ad lifa, og Christelega ad deyа, Amen.

## Christner Meñ eiga ad læra ad vita hvad þeirra Daude sie.

HJer skalltu læra Saal mijn, ad skilia þad sem þiñ Lausnare hefur talad uñ Dauda þeirra Gudlegu, og hvør Nafn hñ hefur giefed hønum. Þvi þa vier heirum Daudañ nefndañ, þa er oss þad hrædelegt Ord, oss stendur Otte þar af, þvi vier hurum so uñ Daudañ, sem vor Samvitska seiger oss, ad vier høfum med Syndum forskulldad hañ. Eñ þiñ Lausnare hefur miøg Huggunarsamlega talad uñ Dauda og Afgaung siña Vina af þessum Heime, og kallar hañ eirn hægañ Svefn, sem

hañ sagde um̃ Lazarum, Lazarus Vinur vor sefur; Hvør sem nu er trwadur Vinur Christi, sa deyr ecke, helldur sofnar hañ; Og i ødrum Stad sagde Christus um̃ þa Stulku, sem hañ vakte af Dauda; Stulkañ er ecke Daud, helldur sefur hun. Og so talar DRottiñ fyrer Muñ Esajæ. Gaanged i burt mitt Folk, og i ydar Svefn-Hws, og laated aptur Dyrnar epter ydur; Fel þu þig eina lita Stund, þangad til Grimdeñ er umliden. Og i þessare Pijningar Historiu stendur, ad marger Lijkamer þeirra Heiløgu risu upp, sem aadur sofnader voru. Hvør hañ sefur nu, sa er ei Daudur, helldur hvijlest hañ af sijnu Ervide; Þar fyrer skalltu ei ottast Daudañ; Þvi þo hũ sie ja siidaste vor Ovinur og Offsooknare, þa orkar hañ ecke meira, eñ skilia Saalena vid Lijkamañ, og þar epter a orkar hañ einskis, hvørke a Saal nie Lijf þeirra Gudlegu. Lijkamañ leggur hañ nidur til Hvijldar i hañs Svefn-Hws, sem er Grøfiñ: Eñ Saaleñ er i Hende DRottins aan Kvalar og hvijler i Sælu. Fyrer Augum þeirra Heimsku er ad siaa so sem þeir deye, og þeirra Afgangur er reiknadur fyrer Kvøl, og þeir-

ra

ra Burtfør fyrer Skada; Eñ þeir eru þo t
Fride.

ØRottiñ miñ JEsu; Gief þu mier þessa rietta Trw, allt til Æfeloka, og veit mier goodañ Christelegañ Afgang og Enda-Dag, Amen.

## Uñ HErrans Christi Lijkamans Hegdan, þa hañ gaf upp siñ Blessada Ånda.

Ø! ØRottiñ miñ JEsu, sem so milldelega hneygder þitt Blessada Høfud nidur a Krossinum; Eg bid þig grætande; Hneyg þitt Blessada Eyra til mijn, og gief mier þiñar Nædar og Fridar Koss. Miñ litwse Lausnare, sem þijnar Hendur a Krossens Trie wtbreidder; Lætttu mig aumañ og Syndugañ verda eirneñ i þijnum Fadme; Miñ Gud, þu sem so hætt varst uppheingdur a Krossiñ; Lættu mig Aumañ alla Tijma upphefia mitt Hiarta til þijn, Þu millde JEsu, sem þar i millum Ræningia gafst upp þiñ Ånda; Læt mig nu i þijnum Fadme wtaf sofna. Miñ Lausnare, hvør ad varst Lijfflæteñ sem hiñ stærste Illgiørda-Madur; Læt mijnar Synder ecke hryggia mig a miñe Daudastundu. Mijn allra besta Huggun sem hieckst a mille Himens og Jardar; Gief ad mitt Hiarta fijsest upp til þijn, og eg alvarlega til þijn andvarpe. Miñ Medalgøngare, sem þijn Knie beygder a Krossenum, bid þu Fødureñ fyrer mier, og send mier christelegañ Vidurskilnad hiedañ. Miñ Himneske Kongur, sem barst þa stirdu Þyrne-Korønu. Kryn þu mig epter þetta Lijf, med oforgeingelegre Koronu eilijfrar Sæluhiælpar. Miñ Frelsare, sem a Høndum og Footum varst albloodugur, lækna þu Saar og Ørkumsl mijns Hiarta Sælar og Samvitsku. Miñ Hiælpare, sem liest þijna Sijdu i giegnum stijnga, og þijnar Hiarta Dyr opna; Læt mig avallt fela mig þar iñe.i allskonar Mootgæunge og Olucku. Miñ Lausnare, þu sem allur varst blaar og Bloodrisa, fullur Saara og Benia a þinum Blessada Lijkama; Hreinsa og endurnæ mijna Saal med

þinu Bloode, og læt mig alltijd hallda og hafa þig fyrer þañ allra vænsta, og kiærasta i mijnn Hiarta; Þu sem hiecki nakeñ og allsber, klæd þu og skijl miñe Sââlu med þijnu eilijfa Riettlæte.

Sioa þu DRottiñ miñ, eg legg mig i þiñ Blessada Fadm, og fel mig olldungis þier a Hendur; Þvi Sæler eru þeir Daudu sem i Nafne DRottins wt af sofna.

Þar fyrer mijn Sââl, þott ad Helvijte vilie þig a þiñe Dauda stundu blinda, og DaudansSnörur vilie þig anetia; Þa vertu obrædd, og giör sem þiñ Lausnare þier kient hefur; Akalla þu hañ, so sem hañ siñ Födur aakallade; Og þo Muñureñ eige mæla kuñe, þa andvarpa samt i þijnu Hiarta, þvi þad mun vera fyrer hönum so sem stoort Kall, og þad mun smiuga i giegnum Himeneñ, upp til þijns Lausnara.

O! þu Naaduge JEsu, sem þitt Lijf hefur fyrer mig lâted, og miña Synda vegna ert dâeñ; Þier fel eg mijna Sââl i Hendur, þu hefur hana endurleyst, þu trwfaste Gud. Þiñ Daude er mier Lijf, mitt Riettlæte, mijn Huggun, mijn Hiaalpar-Von og eilijfur Fridur. Eingeñ gietur slited mig af þiñe Hende, med mig hefur Daudeñ og Diöfulleñ alls eckert; Miñ er JEsus Christur sa Höfdinge Lijfsins, sem mier til gooda hefur Daudañ og Diöfuleñ yfirstijged, Helvijte nidurbroted, og Himnenum upploked. Hia mier eru mörg Þusund Eingla DRottins, sem bijda epter miñe Sââlu, ad þeir fære hana iñ i Himnarijke. Hiedañ i burt med Fride eg fer, feigeñ og gladur i Gude, Huggad nu vel mitt Hiartad er, og horfeñ allur Kvijde; Eins og Gud hefur heited mier, Hvijldar Svefn miñ er Daude, Amen.

## Nijtiande Capitule.

### Um þau Jardteikn sem skiedu, þa Herrañ Christur gaf upp siñ Anda, hvar uñ sa næst skrifade Gudspialls Texte hliodar, og mââ þar lesa.

Gief

# Eintaled.

Hef nu giætur ad Saal mijn, hvada Undur og Fadæme ad skiedu þa þiñ Lausnare pijndest og doo a Krossenum. Sia, ad Soolen vrau siñe Birte, og Myrkur giørdust i ollu Landenu. Fortialld Musteresins rifnade i sundur ofañ i giegn, Jordeñ skalf og titrade, Biorgeñ brustu i sundur. Daudra Maña Grafer opnudust, og marger Heilager sem svaafu, risu upp og geingu i þañ Heilaga Stad, og byrtust morgum.

Sia þar mijn Saal, hvørneñ Skiepnuñe allre vard vid Dauda þess Riettlaata, Sia hvada Jard teikn Gud liet skie a Jordu og Himne, hvorneñ Sooleñ miste sitt Skin, og Landed vard fullt Myrkurs a albiortum Deige. Jaa miñ Lausnare, Himen og Jord Syrgdu, og allar þijnar Skiepnur bααru Harm vegna þiñar stooru Kvalar, og hersélega Dauda, Eñ sw Synduga auma Mañeskia, fyrer hvoria þu so pijndur varst, hun took þad sijst til Hiarta.

Þess vegna, kom nu Saal mijn, og vakna af þijnu Athugaleyse; Statt upp, lypt upp þijnum Augum og sia, Haf þijn Eyru opeñ og heyr, Bw þu þitt Hiarta til, og hugxa uñ, Liaa þijna Skynseme til ad skoda Sakleyse Drottens þess Riettlaata, sem fyrer þig Raunglaataañ dæeñ er. Skoda þañ heidna Høfuds-Mañ, og þa sem med honum hofdu Vardhalld a HErranum Christo, og so adra sem

þia Krossenum stadder voru, hvad Ottaslegner urdu þeir aller, og vottudu Christi Meinleyse Openberlega, Bordu sier a Briooſt, ſneru heim og giordu ſaña Jdran.

So ſkalltu og eirneñ giora Saal mijn, og laata þier nockud fiñaſt til um̃ þeſſe Undur, og laata þier Frelſarans Dauda gaanga til Hiartans. Soleñ geimde ſitt Skin, Þvi leggur þu ecke lijka af þitt Hræſnis Skin? Fortiallded Muſtereſins rifnade i giegn nidur; Þvi rijfur þu ecke lijka i giegn nidur, þa Skijlu þiñar Vantrwar, og Mañlegrar Skynſeme, ſem fyrer þijnum Hugſkots Augum hanger, og ſkygger a þau? Jorden bifadeſt, ſem þo er helldur faſtlega Grundvollud, þvi titrar ecke lijka þitt Hiarta, af þeirre Obærelegre Synda Byrde, ſem Guds Son hiñ Riettlaate hlaut ad bera? Biorgeñ kloſnudu, Þvi kloſnar ecke lijka þitt Hiarta og lykur ſier upp, ſo Guds Sonar Bloods Kraptur kome þar iñ? Daudra Maña Grafer opnuduſt, og þeir riſu upp, Þvi vill þitt Hiarta ecke vakna, ſem ſo faſt ſefur i Syndunum? O! mijn Saal, ber þu þier a Brioſt med allre Alwd og Alvoru, og ſnw aptur af þeſſum vallta Veige. Skriptaſt þu fyrer Drottne, og jaata þijnar Synder, eñ vidurkieñ hañs Sakleiſe, med hvoriu hañ hefur bitalad fyrer þijnar Synder.

O! þu Naadarſame Guds Son, hvors Sakleyſe allar Skiepnur vottudu; Vertu mier aumum og Syndugum Naadugur; Fyrergief mier allar mijnar Misgiorder og afmaa mitt Naanglæte fyrer Sokum þijns Dauda og þiñar Pijnu, med hvoriu þu hefur endurgollded fyrer mig. O!

JEſu

JEsu Christe, vegna þijns Sakleyses bifadest Jørdeñ; Gief ad mitt Hiarta titre og skialfe af Christelegre Ydran, vegna miña Synda. O! JEsu Christe miñ goode Naudhialpare; Vegna þins Sakleyses klofnudu Biørgeñ og Klettarner, kliwf þu eirneñ mitt Steinharda Hiarta so ad eg med Glede medtake Krapt og Verkan þijns Dauda og þiñar Pijnn.

O! JEsu miñ Saaluhialpare; Vegna hvørs Dauda Fortialldeð Musterefins rifnade i sundur, og þad allra Helgasta giørdest opeð fyrer hvørium Mañe; Gief Naad so ad eg i þijnuNafne sæke þaungad med Føgnude og Glede, fram fyrer þiñ Naadar-Stool, so eg Myskun ødlest og Naad fiñe a hvørium Tijma, sem mier er Hialpar og Huggunar vant i miñe Neyd og Astrijdu. Þu JEsu Eilijfe Guds Son; Endurlausnare Heimsins, hvørs Pijsla og Kvala vegna Sooliñ byrgde sig, þvi þu giørdest Bølvan fyrer oss; Laattu mier Huggunareñar Sool skijna, hvad sem mier aliggur. Þu Almaattuge Drottiñ JEsu Christe; Af hvørs Krapte ad Grafer Daudra opnudust, og þeir risu upp; Vek þu mig eirneñ a þeim sijdasta Deige, so eg a þeim eista Paaska Deige rijse upp wr miñe Grøf, iñgange og lende i þeim Heilaga eilijfa Stad, og þeirre Himnesku Jerusalem, hia Gude, hañs Einglum og øllum Utvølldum, Amen.

## Umm HErrans Christi Vine, sem stoodu laangt fra, og a þetta allt horfdu hvad fram foor.

AThuga hier mijn Saal, Vine og Naaunga HErrans Christi, med hvørium var Mooder hañs Maria, og Johañes, þeir stoodu nockud laangt fra Krossenum, horfudu og gretu yfer þeim Oseigianlegum Pijslum, Haade og Spotte, sem Christus aatte ad lijda, og saau lijka þau hrædelegu Undur sem skiedu.

Þetta var eirn Speigell þessara siijdustu Dàga Saal mijn, þess vegna skalltu festa þad i Miñe; Þvi vier sem nu lifum, erum ad Verralldareñar Enda komner. Siaa, hvørneñ þesse vonda Verolld, ad niju HErrañ Christum Krossfester, Hvørneñ Raanglæted yfergnæfer. Eñ Kiærleikeñ slocknar, i marga Hiortum. Siaa, hvørneñ Meñ lifa i sijnum Holldsins Gyrndum, og epter siñe eigeñ Villd, og Foottroda Blooded þijns Lausnara, so sem þeir er hañ Krossfestu. Guds Sendebodar og Ordsins Þienarar kalla og aamiña, og þeir Einglar Fridarens syrgia Herfelega, ad Vegur Riettlætesins sie audur, og eingeñ vilie gaanga Gøtu Jdranareñar og Yferbootareñar.

Eñ hvør truer vorre Kieñingu og Predikun? Og hvørium er Armleggur DRottens auglijstur? Maňaña Syner vilia ei laata sier seigiast leingur af Guds Anda, Og faaer medtaka og hlijda Evangelio. Þeir Aumu verda Offokter, og þeim Faatæku giefur ad Andvarpa. Þvi lætur Gud Undur siaast a Himne og Jordu, og Stoormerke, med Bloode og Reik, og Ellde, Sooleñ sortnar, og Tungled verdur ad Bloode, þvi sa Ognarlege Dagur DRottens er fyrer Dyrum. Hañ sender oss og eirneñ siinar Amiñingar og Heitingar, Drepsott og dijra Tijd, þar med Tijdende Ognarleg, af Strijde og Blods Uthellingum, af Jardskiaulftum og Siaasar Yfergaange, af þessu er viida til ad spyria.

O! þu eilijfe Vollduge Gud, Hvør truer, ad þu muner

muner so miøg reidast? Hvor kvijder vid þiñe Grimd? Þar fyrer muntu setia þig i moote slijkum Forackturum, og laata þa faa Siøfølld Giolld siña Synda, Þu munt Andstygd og Oþocka hafa a þeim, og þeirra Land eideleggia, Þu munt þeirra Helgedoms Kyrkium um̃ koll steypa, og senda þeim kroptuga Villu. Þu munt laata svarta Myrkur koma, og þiña Orda Lioos fra þeim hverfa. Þu munt ei giegna þeirra Bænum nie Akalle, Þu munt giefa þeim eitt blautt Hiarta, so þeir sieu hrædder fyrer fiukande Lauf-Blade, Og vilie þeir ecke snuast fra sijnu Raanglæte, þa muntu laata þa deya og fyrerfarast i Syndum sijnum.

Ad soñu DRottiñ, so hefur þu giørt vid þitt eiged Land og Lyde, þa þeir giørduft þiña Orda Mootstandarar, So muntu eñ giøra øllum þeim þitt Heilaga Nafn ecke aakalla og tilbidia.

Gief mier þa Naad Lausnare miñ, ad eg aavallt sie med þijnum Vinum og Naaungum, sem eru laangt fra, og syrgia vegna þess Ogudlega Framferdis sem þeir siaa i Heimenum. Og þo eg siaae þeir Heiløgu take til ad falla fra, og þa trwudu fæcke, þa laat mig ecke hneyxlast þar a, þvi þu DRottiñ munt geyma þier siø Þusund sem ecke beya sijn Knie fyrer Baal, helldur stande støduger i þijnum Ordum, allt til Æfeløka. Og þo eg hlioote Harm og Kvijda ad bera, sem Maria og Johañes, þa send mier Þolenmæde, og kieñ mier ad hura, ad sæler sieu þeir sem harma, þvi þeir munu Huggun ødlast; Þo eg hliote ad vera til Spotts og Andstygdar i Heimenum, þa laat mig a þig vona, þvi þu munt mig upphefia þa þier lijst. Þo eg hliote ad gaanga um̃ myrkraña Dal, og rata i Eymd og Mootgaang, so sem Maria og Johañes, þa laat mig hura til þijn, og þvi triva, ad

ad þeim Gudhræddu mune Lios byrtast mitt i Myrkrunum, hia þeim Myskunsama og Naaduga Gude. Þo eg kuñe siaa, ad nockur trwe uñ Stundarsaker, eñ a Freistingar Tijmanum salle hañ þar fra, þa laattu mig stødugañ standa sem Mariam og Johañem, þvi sa sem stadfastur er til Enda, mun hyolpeñ verda. Þo eg siaae ad þu sender megnañ Villudoom a Jardrijke, vegna Oþacklætes Mañaña; Þa gief þu mier eg hallde mig fast vid þitt Ord. Þvi þitt Ord er Lioos mijña Foota, og lijser mier a mijnum Veige. Þo eg siaae þijn Undur og Stoormerke a Himnenum, þa laat mig ei skielfast of miøg, helldur mijnu Høfde upplypta, og hyra, ad mijn Endurlausn nalgast. Þa eg sie þad hrædelega Straff og Refsingar Plaagur, sem þu munt senda yfer þa Vondu; Þa gief mier ad eg øruænte ecke, helldur a þig eflaust vænte og vone; Þo þeir take Lijfed af mier, fyrer þijns Nafns Saker, þa laat mig Huggun hafa hia þier; Þvi Daude þiña Heilagra er dyrmætur i Auglite þijnu. Þa eg a ad skiliast vid þessa Verolld, þa vertu mijn Huggun, og lijsga mig med stødugre Von þess eilijfa Lijfs; Þar eg mun Fognud og Glede ødlast, og taka fyrer Sorg og Hrygd þessa Heims, eilijfa Glede, Amen.

# Tuttugaste Capitule.

## Þeir brutu ecke Bein Herrans Christi, Eñ løgdu i giegnum hañs Sijdu med Spioote, hvar ad utrañ Vatn og Blood.

ENN Gydingar, med þvi þad var Affaanga Dagureñ, so ad Lijkamarner være ecke a Krossenum uñ Sabbats Dageñ (þvi sa same Sabbats Dagur var mikell) þa baadu þeir Pilatum, ad þeirra Bein brotust og ofañtækest. Þa komu Strijds-Meñerner og brutu sundur Bein

hiñs Fyrsta, og so hiñs Aññars, sem med honum voru Krossfester. Eñ þa þeir komu til JEsum, og saau ad hañ var allareidu dæeñ, þa brutu þeir eige hañs Bein, helldur opnade eirn af Striids-Moñunum hañs Siidu med Spioote, og strax þa rañ wt Blood og Vatn. Og sa er þad hefur sied, ber þar Vitne um, og hañs Vitnisburdur er sañur, Og hañ same veit þad, ad hañ seiger satt: So ad þier og so trued. Þviad þetta er skied, so ad Ritningeñ uppfyllldest. Eige skulud þier brioota nockud hañs Bein. Og eñ aptur seiger oñur Ritning, Þeir munu sioa hañ, J hvorn þeir stungu.

# Eintaled.

SJaa hier Saal miin, hvad Streingelega Gydingar þeir hielldu Løgmaaled, viliande ecke laata Liikamana vera a Krossenum um̃ Noottena, og komu þvi Striids-Meñerner, brutu Bein beggia Ræningiaña, so þeir dæe þess fyrre, og ad þa mætte taka ofañ a moote Kvølldenu og grafa, Eñ þiins Lausnara Bein brutu þeir ecke, þvi hañ var þegar Andadur. Eñ þeir legdu i hañs Siidu med Spioote, hvar wt af flaut Vatn og Blood, sem og skiede epter Ritningareñar Hioodan; Hvørs vegna St. Johañes þad skiirlega vottar, ad hañ þad hvørtveggia sied hafe.

**Um̃ þad þeir brutu eckert Bein HErrans Christi.**

JA ad sönu DRotten min JEsu, þeir hafa eckert af þijnum Beinum broted, þvi þu varst þad einka Paaska-Lamb um hvert skrifad var; Pier skulud eckert Bein i þvi sundur briota.

O! DRottin min! Hvad næsta gooda Huggun hefur mijn Saal af þessu, þvi so muntu og mijn Bein forvara, ad þau brotne ecke. Pu veitst Veralldeñ hatar mig, og min mootstandare Diøfullen geingur um kriing sem greniande Leon, ad han giete giørt mier Skada. En þu setur hønum Takmark, og þu þecker alla mijna Lime; Jaa þu hefur øll mijn Høfud Haar taled, so eckert fellur af aan þijns Blessada Vilia. Pess vegna, þo þeir Raanglaatu sitie um mig, og vilie mier Skada giøra, þa lætur þu þa ecke na þvi. DRottin min JEsu, min Skiølldur ertu, hiaalpa mier af allskonar Neyd og Voda, Amen.

## Sw opnada Sijdan Christi er Hvijldar-Stadur allra Harmþrwngeña Syndugra Mana.

SKoda nu Saal mijn, þa giegnum lagda Sijdu þijns Lausnara, þvi þar fiña allar Syndugar og Harmþrungnar Samvitskur, Raad og Lijkn, Hvijld og Roo. Skunda nu Saal mijn til Sijduñar JEsu Christi, sem er þin Hvijldar-Stadur, Hier finur þu Hiartans Millde DRottens, Hier smackar þu hvad sætur DRotteñ er. Pijns Lausnara Under eru fullar af Raad og Sanleika, Sætleika og Kiærleika; Pa nu þijner Oviner kreppa ad þier, og Helvijtis Hundar, Syndeñ, Daudeñ, Diøfulleñ, umkrijngia þig, Hlaup þu strax og fel þig i þeim Sijdu-Fylsnum þijns Lausnara, hia hans Naadarrijka Hiarta, so sem Fugleñ flijr i Eykaña

Holur, undañ Storm-Vidrenu, Pvi þu Drotteñ ert þad Lijfs-Trie, J þijnum Skugga og Skioole er þeim mæddu Hiortum gott ad hvijla og aflyast, og i þijnu Sijdu Saare Endurnæraſt Sundurknoſadar Samvitſkur. Halla þier ad þeſſare Lijfſins Eik, Saal mijn, þvi under heñar Greinum ertu, Haaſkalaus.

## Vatn og Blood rañ af Sijdu Lauſnarans.

MErk hier Saal mijn, ad þiñ Lauſnare er ſa, ſem komeñ er fyrer Vatn og Blood, ei med einuſomu Vatne, helldur med Vatne og Bloode, ſo hañ utvegade ſier Eigeñlegañ Soſnud, med ſijnu eigeñ Bloode, og hañ hreinañ giorde med Vatns-Bade i Ordenu. Pviad ſo ſem ſa fyrſte Madur Adam, ſoſnade i Paradijs, og Gud took eitt af hañs Rifium, og ſkapade Evam þar af, ſem þar fyrer var Holld af Mañſins Hollde, og Bein af hñs Beinum. So hefur þu og ſoſnad miñ Lauſnare, ſem ert ſa añar Adam, HErrañ Himens og Jardar. Pu ſoſnader um ſtundar ſaker wt af a Kroſſenum, og lieſt opna þijna Sijdu, og hleypter þar wt Blode og Vatne, ſem þu hvorttveggia hefur bunded i þijnu Heilaga Orde og Sacramentis, og ſkapar þier þar af þijna elſkulega Brwdur, ſem erum vier þijn Chriſtne, þiñ Soſnudur, hvorn þu hefur med þijnu Raudlitada Bloode endurleyſt og helgad. Undu þier nu Saal mijn vid heñañ Lijknar Bruñeñ, ſem er Sijdañ HErrans Chriſti, hvor oſſ ſtendur opeñ

fyrer,

fyrer, ad hreinsa og þvo vorar Synder og Saurende, af hvorium Bruñe ad Uppsprettur Vatn og Blood. Sia, þetta er Blood hiñs Nija Testamentis, sem er uthellt fyrer þijnar Synder, sem þig bæde hreinsad og helgad hefur, Riettlæta giort, og þar med eñ i Dag Endurnærer þijna Saal i þeirre Heilogu Kvolldmaaltijd DRottens.

Sia og skoda mijn Saal, hvad dijrmæt þu ert i Auglite DRottens. Þu ert ecke Endurleyst med Gulle eda Silfre, helldur med þvi dijrmæta Bloode JEsu Christi, þess Saklausa Lambsins Drottens. Þar fyrer, þott þijnar Synder sieu miklar og hrædelegar, þa Orvinglast ecke, þvi þu ert med dijru Verde keypt, og hefur Æfeñlega Endurlausn i þessu Bloodenu Christi; Þad alleina giorer þig hreina af ollum þijnum Syndum og Saurendum, Þad frelsar þig fra Helvijte, hvar iñe eingeñ Lijkn nie Huggun er.

O! miñ Himneske Fader, eilijfe Gud, reidstu mier ecke vegna mykeleika miña Synda. Sia þu, þijns Sonar dijra Blood hefur bætt mitt Brot, og mig aptur vid þig sætt, þad er þad ædreisingar Blood, sem betra seiger eñ Abels Blood; Þvi Sonar þijns Blood hroopar, og bidur þig fyrer mier aumum Syndara; Ja, þad hroopar i mijnu Hiarta, og bodar mier þijna skiæra Naad og Syndaña Fyrergiefning, Amen.

Gief lijka Gaum ad, Saal mijn, Vatnenu þvi, sem af HErrans Sijdu wt rañ, Þvi þad er þad Lijfsins Vatn, med hvoriu þu bæde i Skijrneñe þveigeñ varst og hreinsud, og so eñ nu Daglega þitt

þyrsta

þyrsta Hiarta i Truñe nærer, lijfgar og huggar. O Drotteñ JEsu, þu ert su rietta Hella sem Moyses slo oi Eydemorkuñe, af hvørre Vatns-Straumur rañ, so ad allt Jsraels Folk drack þar af. Hiar þier O Drotteñ er sa lifande Uppsprettu Bruñur, Pu giefur ollum þyrstum Hiortum Lijfsins Vatn ad drecka, Okeypis fyrer eckert, af þijnum lifanda Bruñe. Hvør þar af dreckur, mun ecke þyrsta ad Eilijfu. O! O Drotteñ, gief miñe Saalu og eirneñ þvilijkt Vatn, sem er Vatn Huggunar, ad Endurnæra sig med Fride og Fognude, so hun ecke Ormegnest.

Kom hier mijn Saal, og aus med Fognude Vatned med þijnum Muñe; Aus þu þitt Hiarta fier Varmafullt, med rietta Trw, so þu sagner, og æfenlega gledjest. Hallt mier til þessa Bruñsins O Drottiñ JEsu, og vernda mig avallt fyrer ollu odru Vatne og Bruñum Veralldarenar, og Diofulsins, sem Huggunarlauser eru, og miñar Saalar Porsta ei kuña ad slockva, Amen.

# Tuttugaste og fyrste Capitule.

## Lijkameñ Christi var tekeñ af Kroſſenum, grafeñ og Vardhalldsmeñ tilsetter sem hañ skylldu geyma.

NAR epter þa ed Kvølld varkomed, af þvi ad þad var Affaanga-Dagur, hvør ad er fyrer Sabbats-Dageñ. Kom nockur Madur Rijkur af Borg Gydinga Arimathia, Joseph ad Nafne, Eiñ Heidurlegur Raad-Herra, Goodur Mañ og Riettvijs, Hvør eige hafde vered Samþyckur þeirra Raadagiord og Breitne, hvør

ed og so var eirn af Læresveinum JEsu, þo Heimuglegur, fyrer Otta Saker vid Gydinga, sa er og vonade epter Guds Rijke; Hañ dyrfdest ad gänga iñ til Pilatum, og bad um ad hañ mætte taka nidur Lijkama JEsu. Eñ Pilatus undradest ad hañ være þegar läteñ, og kallade Hundrads Hofdingiañ, og spurde hañ ad, Ef hañ være fyrer Laungu andadur? Og er hañ var þess vijs ordeñ af Hundrads Hofdingianum, leyfde Pilatus og skipade ad Joseph skyllde afhendast Lijkameñ, og gaf honum hañ. Þa kom hañ og took nidur Lijkamañ JEsu. Og hañ keypte eirn Lijn-Dwk, og took vid Lijkamanum, og sveipade hañ i hreinu Lerepte. Þar kom og Nicodemus, Sa ed fyrre kom um Noott til JEsu, Færande samblandada Myrru Aloe, nær Hundrad Punda. Þa tooku þeir Lijkamañ JEsu, og sveipudu hañ i Lijne med dijrmætu Salve, so sem Gydinga Sidur er til ad greptra. Eñ þar i þeim Stad, sem hañ var Krossfestur, Var Grasgardur, og i Grasgardenum var nij Grøf, J hvoria ad eingeñ hafde eñ vered lagdur, og Joseph lagde hañ i þessa sijna eigeñ nija Grøf, Hvoria hañ hafde wthoggva läted i Steine, og vellte stoorum Steine ad Grafar-Dyrunum, og gieck i burt. Og þad var Affänga-Dagur, og Sabbats-Dagureñ took til, þängad løgdu þeir JEsum fyrer Saker Affänga-Dagsins Gydinga, Þviad sw Grøf var nærre. Eñ þar var Maria Magdalena, og öñur Maria Joses, og þær Konur sem komnar voru med hon-

unn

um af Galilæa, fylgdu epter, sitiande giegnt yfer fra Grøfeñe, og skodudu Grøfena, sæu til hvar og hvorneñ hañs Lijkame var lagdur. Eñ þær snerú aptur, Reidande til dijrmætar Jurter og Salve, Eñ um̃ Sabbatsdageñ voru þær kyrrar epter Logmaalenu.

Og añañ Dag þañ sem epter affanga-Dageñ er, søfnudust samañ þeir Yppurstu Prestar og Phariseí æsamt til Pilatum, og sogdu: Herra, Vær miñunst, a þad, ad þesse Svikare sagde, þa er hañ lifde, epter þriæ Daga mun eg uppriisa, af þvi skipa þu adforvara Grøfena allt til hiñs þridia Dags, so ad eige kome hañs Læresveinar a Nottu og stele honum i burt, og seige Folkenu ad hañ sie uppriseñ fra Daudum, og verde hin seirne Villa argare þeirre fyrre. Pilatus sagde til þeirra: Þar hafed þier Vardmeñena, Fared, Forvared sem þier hafed Vit a. Eñ þeir geingu i burt og forvorudu Grøfena med Vardmoñunum, og Iñsigludu Steineñ.

# Eintaled.

## Hvad vel Joseph af Arimathia, og Nicodemo var vid Christum, og hvøria Rækt þeir høfdu vid hañ Daudañ.

Þesse Joseph var eirn Raad-Herra hia Gydingum, og Nicodemus Høfuds Madur Pharisæaña; Eñ þeir høfdu ei Samþycker ørded i Raade þeirra sem dæmdu JEsum, helldur,

helldur, sem þeir sau, ad Magteñ villde ganga fram yfer Rietteñ, bifoludu þeir þad allt Gude a Hendur, þeim Riettlata Doomara, Sneiddu sig fra þeim O-Gudlega Flocke, og giorduft Christi Læresveinar, og trwdu honum, og a hañ, viliande so hafa eina gooda Samvitsku fyrer Gude og Moñum. Og þo þeirra Tru være fyrst um siñ veik, og þeir være nu og Ottaslegner, þa slocknade hun ecke samt, helldur lifnade i goodañ Tijma lioomande skiær, og giordest Augsyneleg. Pvi Josèph bad um Lijkamañ Christi og fieck hañ, Eñ Nicodemus kom med dijrmæt Smyrsl til ad smyria JEsum.

Sia hier, hvad kiærañ þeir hafi hafa HErrañ Christum; Hvad miked þotte þeim i Hwse um hañ, Hvad ægiæt var þeirra Stadfeste? Hvad Kostuleg var þeirra Jaatning? Hvad Heidarlega biuggu þeir þiñ Lausnara til Grafareñar? Hvar er nu Petrus sem ædur villde med Christo i Daudañ ganga? Hvar er nu Thomas, sem med honum eirneñ deya villde? Sia ad Konurnar voru meir Hugadar eñ þeir, Pvi Petur og Thomas hofdu flwed i burtu, Eñ Maria Magdalena og adrar Kviñur med heñe urdu þar hia, og villdu sia hvad af hañs Lijkama yrde.

Haf þad Epterdæme, mijn Saal, og hallt þier fast vid Christum, Huxa hvad trwr hañ var, og er vid þig, Hvoriu gietur þu þad launad honum?

DRottiñ miñ JEsu, hiaalpa mier, stijr mier og stioorna med þijnum Heilaga Anda, so ad eg sie þiñ trwr Præll

og

og Lærefveirn, sem Joseph, og alvarlega a þig trwe sem Nicodemus. Hallt mijnu Hiarta til Samþyckis, og ad eg ottist þitt Nafn, og epter Guds Rijke bijde. Forda þu mier ad eg verde samþyckur i Raade Ogudlegra, og ei hylle hvad Raangt er. Giør mig reidubwenn i øllum goodum Verkum ad giøra þinn Vilia, og verka med mier hvad þier þocknast; Laat mig af Hiarta elska þig sem Joseph, og feigenfamlega þier þiona sem Nicodemus; Laat ongvann Boda hræda mig fra þier, helldur i liwfu og leidu, hia þier stødugann og stadfastann vera, Amen.

## Umm Greftran og Jardan HErrans Christi.

TAK þig nu upp Saal mijn, og kom til Grafar þijns Lausnara, Sia, hvornenn hann var af Krossenum tekenn, og Virduglega i sijna Grøf lagdur.

O! hvad Beisklega munu þær Gudhræddu Kvinnur Grææted hafa? Hvilijku Taara-Floode mun hanns Blessada Mooder hafa wthellt? O! HErra JEsu Christe, þu allra Frijdaste a medal Mannanna Sona. Hvad bleik og føl er þijn Asiaana ordenn, Burt er nu þitt fagra Yferlit? Hvad stirder eru nu aller þijner Lider og Limer? Hvørsu saarlega og aumlega hefur Daudenn wtleiked þig? Enn samt er þijn Hvijld Vegleg, og hefur feinged ærlega Greftran. Þeir sveipa þinn Heilaga Lijkama i hreinum Lijn-Klædum, og smyria hann med Forkostulegum Ilmande Smijrslum, og leggia hann nidur i nya Grøf Josephs.

Eg þacka þier DRottinn minn JEsu, af mijnum Hiartans Grunne, fyrer þijna Heiløgu Greftran, hvar med þu ei ad eins audsijnder, ad þu esflaust værer daainn fyrer mijnar

Synder; Helldur og eirneñ hef eg hier eina veglega og gledelega Huggun, ad þu allar mijnar Synder, sem þier af þijnum Fødur voru a Herdar lagdar, hafer med þier i Grøfena lagt, og sañarlega stillt þijns Fødurs Reide. Þvi ad so sem Stormeñ og Stoorsiooeñ stillte strax þa Jonas Spaamañe var kastad wtbyrdis, og Hvalureñ hafde gleypt hañ. So er nu sa Stormur þijns Himneska Fødurs Grimdar Reide, sañlega stilltur, jafnsnøgt sem þu varst slitiñ wr Lande Lifendra, og þa þu varst sem Bølvan og hreinsunar Offur i Grøfena lagdur.

Saal mijn, hrædstu ecke þijna Grøf, þar þu aatt ad liggia; Hugsa med þier, ad DRottiñ hefur vijgt hana, og giørt hana þier ad Svefn-Hwse. Þar fyrer nær þijn Stund kiemur, þa skalltu gladlega gaanga i þitt Svefn-Hws, og loka Dyrunum epter þier, og fela þig þar um Stundarsaker, a medañ Reide DRottins lijdur hia. Heyr þu Saal mijn; Hversu huggunarsamlega Spamadureñ Esajas hañ talar uñ Grøf þijns Lijkama, þar þu ert nidurlagdur; Þijn Grøf, seiger hañ, er fyrer Gude ecke añad eñ eitt Svefn-Hws. Þiñ Daude er ecke añad eñ sætur Svefn. Þa Meñ leggia þig i Grøfena, þa er þad ecke añad, eñ so sem þu siert lagdur i þijna Sæng. Þegar Meñ ausa þig Molldu, þa er þad ei añad eñ so sem þu læter aptur Dijrnar a þijnu Svefn-Hwse. Þa þiñ Lijkame rotnar, og verdur ad Molldu, þa er þad ei añad, eñ so sem þu sofande hvijler og fordest Olucku og Voda Svartnættesins.

DRottiñ miñ JEsu, sem ert daaeñ, miña Synda vegna, og hefur med þijnum Heilaga Lijkama helgad mijna Grøf. Gief ad eg skielfest ecke, þa mier kiemur mijn Grøf til hugar. Kieñ mier ad vita og miñast, ad eg er Molld, og verd aptur ad Molldu. Skrifa þessa Huggun med þijnum heilaga Anda i mitt Hiarta; Ad mijn Grøf sie ecke nein eitrud andstygdar Hola; Helldur eitt æskelgt Svefn-Hws, og sætur Hvijldar-Stadur, hvar iñe þu hefur eirneñ leiged, og ert a þridia Deige uppaptur riseñ, so eg skule læra þar af, gladlega til miñar Hvijldar ad gaanga, og þar ad

hvijla

hvijla þangad til þu uppvekur miñ Lijkama a DoomsDeige, og færer mig þa med þier iñ i eilijfa Himnarijkis Dijrd og Sælu, Amen.

## Uñ Phariſæana, ſem med vondre Samvitſku uñ Vardhallds Meñ bidia, til ad ſitia yfer Grøfeñe.

HEyr þu Saal mijn, hrædelega Illſku Phariſæaña, og Hreckvijſe Kieñemaña Hofdingiaña, og þeirra Fylgiara; Sia hvorſu Kroptugur Diofulleñ er i Bornum Vantrwareñar. Þeirra Hreckvijſt Hiarta liet ſier ecke nægia, ad þeir hefdu Fordæmt og Aflijfad Chriſtum, helldur auka þeir a hañ Lijtum og Smaanum, allt i Grøfena, og kalla hañ Svikara.

O! þier Aumer Veſæler Phariſæarar, Hvad eiga ydur Vardhallds-Meñerner? Og þvi Iñſigle þier Lijk-Steineñ? Ef hañ er Guds Son, ſo ſem nooglega var auglidoſt og bevijſad, og ſem hañ medkiende fyrer ydur, þa kuña hvorke Vardhallds-Meñerner, ei ydar Iñſigle, nie Daudeñ ſialfur hañ ad hindra. Eñ ſie hañ Einfalldur Madur, ſem ydar Meining var, Þvi Ottuduſt þier? Hvad ſkyllde Daudur Madur kuña ad giora ydur?

Eñ þetta allt giørde þad Brenda Merked i ydar Samvitſkum, og ydar eiged Hiarta Fordæmde ydur. Ohreint er ydar Hugſkot og Samvitſka, og þvi vænte þier jafnañ hiñs veſta. Ydar Otte kiemur þar af, ad þier treyſtud ydur ecke til ad verda þeſſ kiender, hvad þier giort hafed. Eg

helld ad señu, ad ydar Hreckvijse hafe maklega leiked ydur wt; Þvi hvar med þier hugdud ad hindra mijns Lausnara Upprisu, þar med vard hun hellst og mest opeñber, og ad hañ være a þridia Deige uppriseñ fra Daudum, sem hañ sagt hafde. Bølvader eru þier, og Bølvader eru ydar Peningar Eilijflega, sem þier gaafud Vardhallds Moñunum.

O! Sæll er sa, mijn Saal, sem gooda Samvitsku hefur, og hvørs Aform vel luckast, og ei kiemur hønum ad Giallde. Þvi ill Samvitska a øngva Roo, og hrædest hvørt Lauf-Blad. Eñ good Samvitska er ein Dagleg Farsælld, og giører Hiartad gladt, bæde fyrer Gude og Moñum.

Vardveit mig DRottiñ miñ fyrer vondre Samvitsku, og stioorna mier med þijnum Heilaga Anda, ad eg i Einfalldleika og Gudrækne life, a medan eg er hier i Heime. Gief mier ad halld þessare Huggan og ærlegre hroosan, ad eg meige kostgiæfa, miñar Samvitsku goodañ Vitnisburd ad hafa hia hvørium Mañe; Hiaalpa mier, so ad mitt Hiarta fordæme mig ecke, helldur ad eg hafe æfenlegañ Føgnud i þier.

DRottiñ miñ JEsu, sem Syndeñe ert dauñ, og hvijldest i þiñe Grøf; Gief þu mier, ad eg daglega hañ gamla Adam med Trwñe deyde og grefstre; So ad mijn Samvitska og mitt Hiarta hvijlest, og laate af øllum illum Verkum, og þier Daglega þioone, i Riettlæte og Heilagleika, sem þier þocknast; So ad eg þar med hañ rietta Hvijldardag, og þa eilijfu Haatijd uppbyrie hier a Jordune, og añars Heims fullkomlega hallde; Þa eg med þier miñ Lausnare, i Eilijfañ Frid og Farsælld verd iñgaangande, Amen.

Ein

## Ein Packargiørd fyrer JEsu Christi Pijnu.

Mier þockum þier DRotteñ JEsu Christe, sañur Gud og sañur Madur, ad þu hefur oss Aumar Fordæmdar Mañeskiur, Endurleyst og Frelsad, fyrer þijna Heilögu Pijnu, þitt Sakleyse, Piñ Dauda og Dijrmætt Blood. O! HErra JEsu Christe, Hvad þröng er þijn Kvol, hvad stoor er þijn Pijna, hvad margfölld er þijn Pijsl, hvad diwpar eru þijnar Under, hvad bitur og beiskur er þiñ Daude, Hvad Oumrædeleg er þijn Elska, fyrer hvöria þu hefur sætt og forlijkad oss vid þiñ Fødur, þa þu fyrst i Grasgardenum, wt af þungre Daudans Angist sveittest Bloodenu, og gafst þig Viliuglega i Hendur þeirra Ogudlegu, hvörier þig Omyskunsamlega bundu, og færdu þig fra einum Rangläatum Doomara til añars, fyrer hvörium þu varst Falsklega aklagadur, hæddur, spottadur, hræktur, og Saargrætelega sleigeñ og bareñ i þitt Heilaga Blessada Andlit; Avi DROtteñ, Vorra Misgiörda vegna ertu særdur, Vorra Synda vegna ertu sleigeñ, Hwdstryktur, Pyrne-krijndur, med Footum trodeñ, sem añar Madkur, og so Herfelega wtleikeñ, ad þu varst ecke nockrum Mañe lijkur. Pu varst sa Fyrerlitnaste og Forsmaanarlegaste, fullur Saara og Benia, so ad Heidens Mañs Hiarta, kiende i Briooste um þig,

og

og sagde :. Sicaeð, Hvilijk Mañeskia hañ er? Þu barst vorar Synder, þa þu barst þiñ Kross, Og vorra Synda vegna ertu a medal Spillvirkia reiknadur, og hieckst þar a Hondum og Footum Sundurgrafeñ, so sem ein Bølvan, og ert i þijnum stærsta Þorsta, med Edike og Galle Dryckiadur, og hefur þiñ Anda i beiskre Kvøl og Pijnu upp giefed, og hefur so bætt vorar Misgiørder, so vier erum fyrer þijnar Under heiler ordner. Fyrer allar þijnar Kvaler, Pijsler og Pijnu, seigium vier þier DROtteñ JEsu, af Hiarta, Lof og Heidur og Packargiørd, Og bidium þig, ad þu læter þijna Heilogu Pijnu ecke vera oss Gagnlausa, Helldur ad vier huggum oss i heñe, og Hugleidum hana so, ad þar med wtslockne og nidur kiæfest med oss allar vondar Gyrnder, so ad vier deyum fra Syndunum, eñ lifum Riettlætenu. Og ad vier fylgium þijnum Footsporum, þad Vonda og Orietta med Poleñmæde ad lijda, og bijda so epter vorre Dauda-Stundu, og verda fyrer þig Saaluhoolpner, HErra JEsu, Lofadur og Blessadur ad Eilijfu, Amen.



